GUNNAR DAL:

Vera, ljóð 1949

Sfinxinn og hamingjan, ljóð 1953

Rödd Indlands, 1953

Sfinxinn og hamingjan (2. útgáfa) 1954

Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954

# EFNISYFIRLIT

# Heilagur Augustinus

## I

KRISTINDÓMUR og heimspeki Grikkja höfðu yfirgefið heimalönd sín og voru á vesturleið. En áttu þau samleið? Í Alexandríu, háborg menningarinnar á fyrstu öldum kristninnar, mættust fulltrúar hinnar fornu heimspeki og hinnar ungu kristnu trúar. Heimspekingarnir, sem þroskað höfðu skynsemi sína og rökhugsun og kröfðust skilnings til þess að trúa, áttu auðvelt með að benda á ýmsa bláþræði í hinum nýja boðskap. Hinum sönnu trúmönnum aftur á móti var skynsemin aukaatriði. Þeir áttu sér fullvissu hjartans. Þeir fundu í trú sinni innri frið og lífshamingju og þóttust finna, en ekki skilja hin dýpstu sannindi. Heimspekin var þeim aðeins „gjallandi málmur og hvellandi bjalla“, og sumir snerust gegn henni. En þrátt fyrir allt er skilningslöngun mannsins þrá, sem til lengdar verður ekki haldið niðri. Heimspekingarnir

létu trúmennina aldrei í friði með þrauthugsuðum spurningum sínum. Hinir síðarnefndu urðu að snúast til varnar; urðu að gefa einhver svör við ráðgátum skynseminnar — jafnvel gegn vilja sínum. Þeir urðu gegn vilja sínum að gerast heimspekingar líka og semja sína heimspekibók. — Þannig urðu kennisetningar (dogma) kirkjunnar til. Sumir skoða þær sem sameiningu trúar og heimspeki. Aðrir viðurkenna þær hvorki sem sanna trú né sanna heimspeki.

## II

Í Tagestu í Númidíu, á sólbrenndum ströndum Norður-Afríku, fæddist árið 354 þeldökkur sveinn, sem nefndur var hinu rómverska nafni Aurelius Augustinus. Ætt hans var blendin. Hin föniska arfleifð hans andaði honum útþránni í brjóst. Hið númidíska blóð hans gerði hann tilfinninganæman og öran í skapi. Hin rómverska erfð var framgirnin og löngunin til að vinna lönd og borgir — og sigra heiminn.

Móðir hans, Monika, var kristin frá fæðingu. Faðirinn var aftur á móti heiðinn, en tók kristna trú síðar. Að öðru leyti var samfélag hans á uppvaxtarárunum heiðið og lifnaðarhættir þess afrískir. En fjölskyldan gleymdi samt ekki hinu rómverska blóði sínu, og þeim mun sterkari undirtök sem heimalandið átti í lífi hennar, þeim mun fyrirferðarmeiri varð dýrkun hennar á öllu, sem rómverskt var. Hin fjarlæga og volduga Róm,

en ekki Tagesta, varð í meðvitund hennar hin rétta ættborg, og þangað stefndi þrá hennar. Sveinninn Augustinus skyldi alinn upp í góðum rómverskum siðum. Tólf ára að aldri var hann sendur á rómverskan menntaskóla í Madaura, sem var nýlenda rómverskra uppgjafahermanna. Einnig þeir urðu í útlandinu meiri Rómverjar en þeir, sem heima voru, og það fór ekki hjá því, að fimm ára dvöl við menntastofnun þeirra hefði djúp og varanleg áhrif á jafnnæmgeðja ungling og Augustinus var.

Framhaldsnámi sitt stundaði Augustinus þó ekki í Róm, heldur í Kartagó, sem var eins konar París þeirra tíma. „*Síðan* kom ég til Kartagó", skrifar Augustinus í „Játningum" sínum, „þar sem hraunketill óhelgra ásta sauð mér jafnan fyrir eyrum". Monika, móðir hans, sem reyndi eftir mætti að snúa honum til kristinnar trúar, tók sér nærri hin tíðu víxlspor hans á vegi siðferðisins. — En straumurinn var of þungur, og Augustinus varð að fljóta með. Trú hans og lífsskoðun á þessum árum veitti honum lítinn stuðning siðferðislega. Heimspekingur einn, Faustus að nafni, var helzta átrúnaðargoð ungra manna í Kartagó þeirra tíma. Nefndist fylgjandi hans „Manichædan". Kenning hans var, að tilveran væri að jöfnu ofin úr myrkri og ljósi, hinu góða og hinu illa. Þessa heims virtist greinilegt, að hin illu öfl hefðu yfirhönd, og hinum ungu mönnum þótti ekki þurfa neitt tólfkóngavit til að sjá, að farsælla væri að fylgja hinum liðsterkari goðanum

til þings. Menntamennirnir kærðu sig ekki um nýjar hugmyndir. Þessi lífsskoðun var hin fullkomnasta afsökun þeirra gjálífu lifnaðarhátta, sem þeir tömdu sér.

Í þessum söfnuði var Augustinus í níu ár. Þá gerðist það, að sjálfur höfuðspámaðurinn Faustus heimsótti Kartagó. Augustinus var þá orðinn manna skæðastur í mælskulist og hneigðist meir en almennt gerðist að heimspekilegum viðfangsefnum. Hann bjóst við, að hinn mikli Faustus þekkti svör við þeim viðfangsefnum, sem menntamennirnir í Kartagó gátu ekki skýrt fyrir honum, svo að honum þætti við unandi. Hann hraðaði sér því á fund meistarans og hlýddi jafnan á, þegar hann ræddi heimspeki sína. Þetta var gamall maður, háll í viðræðum og fimur í mælskulistinni. Augustinus hafði heyrt þetta flest áður og aðhylltist það, vegna þess að það var í þægilegu samræmi við lífsvenjur hans. Nú mætti hann hinum fræga spámanni sjálfum. Af meðfæddum metnaði sínum mældi hann ósjálfrátt getu sína og vitsmuni við foringjann. Hér mætti maður manni til leiks á vettvangi skynseminnar. Augustinus beitti því allri gagnrýnisgáfu sinni gegn hinum lærða manni. Og nú sá hann í fyrsta sinn alla þverbresti þessarar heimspeki, þrátt fyrir allt þetta vax mælskulistarinnar, sem gamli maðurinn barði í brestina. Og nú brutust fram allir gömlu draumarnir, sem umhverfi hans og uppeldi höfðu alið. Hann varð að hverfa frá þessu öllu, yfirgefa Kartagó, þar sem menn „voru tældir og tældu aðra, sviknir og sviku

aðra og blekktir af margs konar girndum". Hann varð að yfirgefa Kartagó, „þar sem trúin var að nokkru leyti steigurlæti, að nokkru leyti hjátrú, en að öllu leyti hégómi". — Og hvert átti hann að stefna annað en til Rómaborgar?

Þegar Augustinus var kominn til Rómaborgar með fjölskyldu sína, konu og son sinn, Adeodatus, (móðir hans, Monika, *hafði orðið eftir í* Kartagó) fann hann, að það var líka hægt að falla fyrir freistingum í heimsborginni. Hann kom til Rómar til að sigra og verða auðugur og frægur. Metorðagirndin sórst hér í fóstbræðralag við gjálífið. Og hann komst áfram. Vegna mælsku sinnar komst hann að sem kennari í mælskufræði í Milano. Þar kynntist hann mönnum aldarinnar, Simplicianusi og Ambrosiusi biskupi. Hann las um þær mundir ritninguna og heimspeki Platós og átti daglegar viðræður við hina lærðu vini sína um kristna trú. Monika, móðir hans, bættist þá einnig í hópinn. Ekki taldi Augustinus sig þó að svo stöddu geta tekið kristna trú. Sumt af þeim fræðum þótti honum enn skáldskapur eða sjálfsblekking. Vinur hans, Ambrosius, gat aldrei fágað mál sitt eins vel og Faustus, — en hann trúði greinilega því, sem hann boðaði, og smátt og smátt fór Augustinus að finna, að trú er annað en mælskulist og rökfræði. Hún er djúpstæður máttur, sem getur veitt fullvissu og síðan skilning. Þennan mátt varð hann að eignast og sigra með honum metorðagirnd og gjálífið. Þessi máttur er auðmýktin, sem

opnar manninum hlið himnanna. Og hann er um leið lykill lífsskilningsins. Þess vegna sagði Augustinus síðar: „Ég trúi til þess að skilja". Og Augustinus var einnig farinn að finna holklakann í þeirri mælskulist, sem á sér enga trú, og þeirri lífslygi, sem hann áður hélt, að væri hamingja. Hann sá jafnframt fánýti þess frama, sem fæst með því að blekkja sjálfan sig og aðra: „Hve vesæll var ég ekki," skrifar hann, „þegar ég bjóst til að flytja keisaranum (Valentinianusi yngra) lofræðu, þar sem ég bar fram mörg ósannindi, og þessi ósannindi voru hyllt af þeim, sem vissu, að þau voru ósönn". — Hvað var þessi mælskulist hans og lærdómur annað en áferðarfagurt yfirborð andlegrar rotnunar og dauða?

Og eins og til að árétta þennan nývaknaða skilning Augustinusar bar gest að garði frá Afríku. Þessi gestur, Pontitianus að nafni, gegndi virðingarstöðu við hirðina í Róm og var kristinn. Í viðræðum þeirra um trúmál skýrði Pontitianus honum m.a. frá lífi og starfi hins egypzka munks, Anthoniusar, sem unnið hafði andleg stórvirki og var þó hvorki læs né skrifandi. Þessar viðræður urðu kornið, sem fyllti mælinn. Augustinus varð sannfærður um, að það er trúin, en ekki lærdómurinn, sem færir manninum sigur. Hann sagði upp starfi sínu sem kennari í mælskulist og fór með syni sínum Adeodatus og vini sínum Alypius út í þögn og einveru sveitarinnar til að búa sig undir skírn sína inn

í kristinn söfnuð. Skömmu síðar skírði Ambrosius biskup þremenningana til hins nýja siðar.

Að skírninni lokinni hélt þessi hópur, ásamt Moniku, móður Augustinusar, áleiðis til Afríku. Augustinus hafði sigrað sjálfan sig. Gjálífi og metorðagirnd freistuðu hans ekki framar. — Moniku fannst hlutverki sínu í lífinu lokið. Þau höfðu ferðazt eftir Veginum helga til Ostia, hafnarborgar Rómar, og biðu skips til að flytja þau yfir hafið. Þá lézt Monika.

Í Afríku gerðist Augustinus prestur og síðar biskup í Hippo. Frægðin, sem hann dreymdi ungan, féll honum í skaut á efri árum. Æviminningar hans — Játningar — er einstök bók í sinni röð, og rit hans um guðfræði og heimspeki, einkum Borg guðs, urðu meðal öndvegisrita á sinni tíð og lifðu áfram með kristnum þjóðum, þótt rómverska heimsveldið félli.

Á sólbrenndum ströndum Afríku var árið 430 hálfáttræður öldungur borinn til grafar. Hann var borinn breyskur maður í siðlítinn heim, en sneri frá villu síns vegar. Og á sama tíma og voldugasta heimsveldi sögunnar tortímdist vegna dýrkunar hégómans leitaði hann hinna andlegu verðmæta mannsins — og lifði. Fyrir því er hann enn í dag þekktur meðal kristinna þjóða og nefndur heilagur Augustinus.

## Heimspeki Augustinusar

TRÚARLEG REYNSLA á sér, eins og áður hefur verið að vikið, ekki ævinlega samleið með þeirri stærðfræðilegu rökhyggju skynseminnar, sem á Vesturlöndum kallast heimspeki. — Þeir, sem áttu sér þessa reynslu, töldu sig hafa komizt í kynni við djúp öfl, sem hyggindamönnum voru hulin. Þessi öfl voru þeim hinn eini sanni vísdómur og lykillinn að öllum velfarnaði mannsins þessa heims og annars. Þessi leyndardómur trúarinnar var mátturinn, sem knúði kristna menn á fyrstu öldum kristninnar til að boða það, sem í þeirra augum var sannnefnt fagnaðarerindi, öllum, sem á þá vildu hlýða.

Eins og Kristur sjálfur boðaði trú á mannkærleika þjóð, sem alin var upp í speki Salómons og siðfræði Móses, eins boðuðu lærisveinar hans fagnaðarerindið þjóðum Vesturlanda, sem aldar voru upp við heimspeki Platós, Aristotelesar og fjölmargra annarra heimspekinga. Mörgum þótti hin unga rödd fagnaðarerindisins hljóma undarlega í hinni gömlu veröld heimspekinnar. Heimspekingar eru spurulir, og trúmönnunum skildist, að þeir gætu ekki sigrað þessa veröld heimspekinnar, nema því aðeins, að þeir svöruðu þeim heimspekingum, sem réðust á boðskap þeirra, á þeirra eigin máli. Þess vegna tók trúin að nema tungu heimspekinnar. Á því máli boðaði Páll postuli trú sína í

Aþenu og Róm, og á því máli kenndu trúmennirnir Krist við hið gamla gríska heimspekihugtak logos: Guðdómurinn var manninum of hár til að skilja hann en logos sameinaði guðsvitundina og vitund mannsins og var því milliliðurinn, sem tengir Guð og menn. Enginn getur þekkt föðurinn nema fyrir soninn. Þetta var kjarni hins heimspekilega boðskapar kristinna trúmanna *í Alexandríu*. — *Síðar* kenndi Athenasius, að heilagur andi væri hinn þriðji þáttur hinnar æðstu einingar. Þetta varð kjarninn í kennisetningum (dogmum) kirkjunnar, kenningin um þrenninguna.

Þannig reyndu margir hinna kristnu trúmanna að sameina heimspeki og trú á fyrstu öldum kristninnar. Síðar virtist sem mörgum leiðtogum kirkjunnar hafi þótt það vonlítil tilraun, því að sumir þeirra snerust gegn heimspeki og vildu banna hana. Kirkjuþingin í Nicaeu 325 og Konstantinopel 381 sýna sterkan lit á að brjótast undan áhrifum hinnar grísku heimspeki nýplatonismans, dæma kenningar öndvegismanna frumkristninnar, t.d. Philosar og Origenesar (og síðar Ariusar) villu og byggja sjálfstæðari grunn undir kenningar kirkjunnar. Afleiðingin varð sú, að er tímar liðu, urðu áhrif hinnar grísku heimspeki meiri á yfirborðinu. Andi kennisetninganna varð annar, og þær urðu í höndum framgjarnra valdamanna óyggjandi sannindi, sem jafnvel dauðarefsing lá við að vefengja. Trúin á mannkærleikann, sem var kjarni kristindómsins, hafði enn ekki að

öllu leyti sigrað. Henni var að verulegu leyti fórnað á altari valdsins. Heimurinn staðnaði, frelsinu var glatað — og þá hófust hinar andlegu miðaldir.

Á tíð Augustinusar höfðu hinar eiginlegu miðaldir enn ekki hafizt. Rómalýður var þá að taka kristna trú. Það varð því vandamál Augustinusar að boða hina nýju trú þannig, að hún gæti unnið hug rómverskra menntamanna, sem hann sjálfur þekkti svo vel. Til að slíkt mætti takast, sá Augustinus, að hann varð að boða trúna á máli heimspekinnar. Sú tunga var honum heldur ekki framandi. Hann gekk því í smiðju til hinna miklu heimspekinga fornaldarinnar, einkum Platós. Þar var að finna víðfeðma heimsskoðun, sem lagði áherzlu á andann að baki skynjunar og reynslu. Þar var litið á manninn sem líkama og sál, tilveruna sem anda og efni. Þar var að finna heimspekilegar sannanir fyrir framhaldslífi og ódauðleika sálarinnar, og var þar ekki bæði talað um syndafallið og fullsælu á himnum?

Í heimspeki Augustinusar rennur þetta allt saman við kenninguna um þrenninguna og boðskap ritningarinnar. Þar mæta Plató og Aristóteles hinum kristnu lærifeðrum Athanasiusi og Ambrosiusi. Augustinus verður þannig vegna lærdóms síns og gáfna einn áhrifamesti heimspekingur kirkjunnar, og hefur áhrifa hans gætt á öllum öldum og gerir enn í dag. Hann skoðaði það hlutverk sitt að sameina heimspeki og trú. En tókst honum það til fulls?

Guð, boðaði Augustinus, er hinn æðsti sannleikur. Þessi sannleikur, sem er eilífur og óhagganlegur, býr einnig í sál mannsins. Skynsemin er auga sálarinnar. Hlýtur því ekki hin sanna heimspeki hennar og hin sanna trú að vera eitt? Hvers vegna ætti trúmaðurinn að fordæma skynsemina? Eru ekki einmitt þær lífverur, sem gæddar eru skynsemi, hinar einu, sem eiga sér trú? Skynsemin er trúnni nauðsynleg — og trúin skynseminni. Skilningur leiðir til trúar, — trú leiðir til skilnings. „Við verðum," segir Augustinus, „að skilja til að trúa og trúa til að skilja. Sumu trúum við ekki, nema við skiljum það, annað skiljum við ekki, nema við trúum". Ekki getum við þó búizt við því að dómi Augustinusar, að við skiljum allt, sem mönnum ber að trúa. Þess vegna verða menn, þegar svo ber undir, að beygja sig undir leiðsögn kirkjunnar, sem á að vera fulltrúi Guðs á jörðunni. Þetta kenndi Augustinus um trú og skynsemi: Lind skynseminnar og lind hinnar guðlegu opinberunar (trúarinnar) renna báðar um farveg mannlegrar þekkingar.

Augustinus telur ástæðulaust að efast um tilveru sálarinnar og Guðs. Jafnvel efinn er hugsun, og hugsunin sannar tilveru sálarinnar. Jafnvel efinn um sannleikann sannar, að sannleikurinn er til. Og Guð er sannleikurinn. Þannig sannar, finnst Augustinusi, jafnvel efinn tilveru sálarinnar og Guðs.

Augustinus notar rök Platós, sem alþekkt voru á hans tíð, til að sanna ódauðleika sálarinnar. Hún á sér

engin endalok. Hins vegar hafnaði Augustinus kenningu Platós um fortilveru og taldi sálina eiga sér upphaf í tíma; vera skapaða og hafa ekki verið til um eilífð. Á hans dögum skiptust menn í tvo hópa með tilliti til þessa vandamáls um uppruna sálarinnar. Sumir héldu því fram, að sál barnsins líkt og líkaminn hefði skapazt af sálum foreldranna. Það hefði því aðeins þurft að skapa sál Adams. Aðrir trúðu, að Guð skapaði nýja sál í hvert sinn, sem barn fæddist. — Augustinus var ekki alls kostar ánægður með þessar kenningar, en gefur samt ekkert endanlegt svar. — Auk sálarinnar er maðurinn hold. Andinn stjórnar holdinu, en hvernig það gerist, er Augustinusi óskiljanlegur leyndardómur.

Guð er upphaf allra hluta, og ekkert getur verið til án hans. Í vitund hans eru allar veraldir. Hann skapar alla hluti að vilja sínum. Vilji hans er frjáls, en eðli hans er óhagganlegt og ákvarðanir hans því óhagganlegar. Hann skapar allt með hugsun sinni einni.

Um þetta eru heimspekingarnir Plató og Augustinus sammála, en biskupnum Augustinusi finnst hann þurfa að gera bragarbót, svo að ekki verði hann ásakaður um sömu villu og kirkjuþingin dæmdu suma hina fyrri kirkjufeður fyrir. Til að komast hjá því leggur hann áherzlu á að greina skýrt milli Guðs og veraldarinnar. — Guð skapaði veröldina úr engu boðaði hann. Hún er ekki líkami Guðs, eins og margir heimspekingar álitu. Veröldin hefur ekki alltaf verið til. Hún er sköpuð í upphafi tímans. Tími og rúm eiga sér líka

upphaf og eru sköpuð. Hvorugt er til hjá Guði. Hvort tveggja skapar hann, um leið og hann skapar efnið og veröldina. Heimspekingurinn Augustinus sér að vísu, að erfitt er til dæmis að hugsa sér Guð fyrir utan rúmið, fyrir utan alheiminn. En biskupinn Augustinus minnir á, að skilningur mannsins er takmarkaður og að tilgangslaust sé að spyrja of mikið um hin æðstu rök. Augustinus reynir að sameina trú og heimspeki. — En víða má benda á mótsagnir hjá honum, sem eðlilegt virðist að skýra með innri átökum milli trúmannsins og heimspekingsins. Ef trú þýðir að játa sannleiksgildi kennisetninga kirkjunnar (dogmanna), þá virðist mörgum vandasamt að sameina trú og heimspeki. En eru þessar kennisetningar nokkuð annað en ný heimspeki, sem rekst á gamla heimspeki, mótsagnir skynsemi gegn skynsemi?

Ef trú þýðir aftur á móti annað og meira en kennisetningar, ef trú er sama og djúp innri reynsla einhvers, sem skynsemin þekkir ekki ein út af fyrir sig, er líklegt, að frá því sjónarmiði séð gætu fleiri orðið sammála Augustinusi um, að hin sanna trú sé hin sanna heimspeki.

Í siðfræðinni reynir Augustinus að miðla málum milli leiðtoga frumkristninnar og Rómalýðs. Leiðtogar frumkristninnar vildu, að kristnir menn fórnuðu allri veröldinni fyrir perluna dýru, hinn djúpa leyndardóm. Þeir vildu, að kristnir menn deildu með sér eigum sínum og söfnuðu ekki auði. Öll kaupsýsla var þeim fjarri

skapi. Þeir sneiddu hjá stjórnmálum, og hernaður og valdabarátta var þeim ósamrýmanleg kenningu Krists. Þeir þorðu jafnvel ekki að gera sig að dómurum yfir meingjörðamanninum. — Og að lokum. Sá, sem ætlaði að helga sig boðun fagnaðarerindisins, varð að sigrast á freistingum holdsins og lifa ókvæntur.

Sá Rómalýður, sem var að taka kristna trú á dögum Augustinusar, var öðrum háttum vanur. Þar stunduðu menn margs konar kaupsýslu og deildu um brauðið. Þar voru auðmenn í hávegum hafðir, en fátæklingar litnir hornaugum. Rómverjar voru vanir að stjórna og fúsir til valda. Þeir voru vanir að kveða upp dóma, harða dóma, en að því er sumir segja, réttláta. Mannvíg og hernaður var þeim jafnsjálfsagt og óhjákvæmilegt sem ástir og hjúskapur.

Augustinus fer meðalveginn, eins og eðlilegt er, þegar reynt er að jafna andstæður. Hann var mótfallinn því, að allir skyldu eiga jafnan auð. Auðsöfnun er ekki að hans áliti alröng. Bæði ríkir og snauðir geta orðið sáluhólpnir. Auðurinn getur þó orðið manninum hermdargjöf og hindrað hann á leið fullkomnunarinnar. Fátækur maður stendur þeim ríka að jafnaði framar. — Bezt er að forðast auðsöfnun, — en ef það er ekki hægt, að forðast þá að minnsta kosti að verða þræll auðsins.

Augustinus telur ekki, að stjórnmál séu kirkjunni óviðkomandi: Ríki mannanna byggist á eigingirni og virðingarleysi fyrir Guði. Borg Guðs er byggð á kærleika og óeigingirni. Hið veraldlega ríki fer oft villt

vegar, — en kirkjan er óskeikul. Þess vegna á ríkið að beygja sig undir leiðsögn kirkjunnar. Ekki samþykkir Augustinus heldur að öllu leyti einlífiskenningu frumkristninnar. Að vísu er einlífið æðra, — en hjónaband er ekki rangt, — þvert á móti er það helgidómur, eitt af sakramentum kirkjunnar.

Þannig er Augustinus tákn þeirrar málamiðlunar, sem siðfræði frumkristninnar gerir við Rómverja.

En ofar þessu öllu skín þó í þessum boðskap Augustinusar leiðarstjarna mannsins, hið æðsta takmark hans, samfélag mannsins við Guð. Kærleikurinn er máttugusta aflið, sem lyftir manninum til þess himnaríkis, þar sem þetta samband verður að veruleika.

En fyrst almáttugur og algóður Guð er orsök allra hluta — hvernig stendur þá á hinu illa í heiminum? Þessu getur Augustinus ekki svarað svo, að menn geri sig almennt ánægða með skýringuna. En Augustinus gefur þrjár skýringar á hinu illa. Í fyrsta lagi er hið illa ekki til, nema sem skortur á hinu góða. Hið góða er eðli Guðs og allrar tilverunnar, einnig mannsins. En þetta eðli kemur ekki alls staðar fram að öllu leyti, vegna þess að einhver hluti þess er horfinn eða óvirkur. Þetta verður til þess, að skuggar verða í heimsmyndinni. Málarinn getur aðeins skapað mynd með því að nota andstæða liti og skapa með ljósi og skuggum samræmi í listaverkið. Guð þarf einnig á skuggum að halda í sína mynd. Í þriðja lagi, segir Augustinus, er hið illa í samskiptum mannanna þeim sjálfum að

kenna — þeim og föllnum englum. Hið illa í manninum er til, vegna þess að Guði hefur ekki verið hlýtt, og mennirnir hafa með því afneitað einhverju af hinu góða eðli Guðs og þá um leið einhverju af sínu eigin eðli. Þar sem ljós hins innra guðdóms skín ekki lengur, verður myrkur.

Þannig er hið illa ekki til nema sem privatio boni, glötun hins góða. Versta ógæfa, sem manninum getur hent, er privatio Dei — að snúa frá Guði og afneita honum í hugsun, orði og athöfn.

Guð gaf manninum frjálsan vilja. Hann gaf honum einnig ódauðlega sál, góðvild, helgi og réttlætiskennd. Hinn fyrsti maður misnotaði frelsið, þess vegna missti hann það, um leið og hann gekk hinn breiða veg. Og hann missti einnig hinar guðlegu gáfur sínar. Hann hafði frjálsan vilja, en missti frelsi sitt, vegna þess að aðeins góður vilji getur verið frjáls og í samræmi við eðli mannsins. Mannkynið allt féll með Adam, því að hann var allt mannkynið. Síðan eru allir menn bundnir erfðasyndinni og geta ekki orðið hreinir aftur nema fyrir náð. — Sumir menn eru fullir góðvildar og vilja hjálpa öðrum og bæta heiminn. Þeir munu hljóta náð Guðs og verða þegnar í borg hans á himnum. Aðrir menn eru illviljaðir. Þeir munu tortímast. Hið illa og hið góða berst um manninn í manninum sjálfum, og um úrslit þeirrar baráttu getur enginn sagt fyrr en á stund dómsins. Til að hjálpa manninum í þessari baráttu sinni hefur Guð sjálfur komið til mannanna með

því að senda Krist til jarðarinnar og veita honum vald til að lækna sjúka og fyrirgefa. —

Þannig kenndi heilagur Augustinus í byrjun fimmtu aldar. Og hófaspark framandi og siðlítilla herja, sem komnir voru að öllum borgarhliðunum til að kveða upp dóm örlaganna yfir Rómaveldi, gáfu orðum hans ósigrandi þunga. —— Og þau áttu jafnvel eftir að sigra sigurvegarana.

# Pierre Abelard

MARGIR SAGNFRÆÐINGAR hafa haldið því fram, að engin heimspeki hafi verið til á miðöldum nema skólastikin — og orðið hefur í samræmi við það verið þýtt miðaldaheimspeki. Þetta er þó ekki alls kostar rétt. Miðaldirnar voru auðugri að menningu, þótt myrkar væru, en ætla mætti eftir námsbókum okkar að dæma. Fulltrúar arabískrar heimspeki, svo sem Avempace, Abubacer og Averroës, fluttu indverskar, persneskar (sufisma) og grískar heimspekihugmyndir einkum gegnum Spán inn í menningarlíf álfunnar og höfðu meiri áhrif á vestræna menningu en enn er almennt viðurkennt. Þá voru einnig uppi dulspekingar eins og Hugo St. Victor, Meister Eckhart og Johannes Tauler. Þar átti og algyðistrú sína fulltrúa eins og Joachum ábóta í Flóris og Amalric frá Bennes, guðfræðiprófessor í París. Þá átti gyðingleg heimspeki einnig sína fulltrúa eins og Moses Maimonides. — Og síðast, en ekki sízt, áttu miðaldirnar vísindalega sinnaða menntamenn eins og

John Peckham, Alexander Nickham, Alfred Sarchel, Roger Bacon og Witelo.

Af þessu má sjá, að skólastikin eru ekki hin eina heimspeki miðaldanna, þótt hún skipi þar öndvegið. — Í skólum Karla-Magnúsar Frakkakonungs var sá, sem lærður var í „trivium“ (málum, heimspeki og mælskufræði) og „quadrium“ (reikningi, flatarmálsfræði, tónfræði og stjörnufræði), kallaður „scholasticus.“ — Á miðöldum var þetta virðingarheiti, sem farið var, er tímar liðu, að nota um alla lærða menn. — Á endurreisnartímunum hins vegar varð þetta skammaryrði um mann, sem tamdi sér rök orðhengilsins, var andlegt ígulker lærdómsbókanna og trúði blint á bókstafinn.

En skólastikin glímdi við sín eigin vandamál, sem á miðöldum skipti mannfólkið engu minna máli en viðkvæmustu deilumál okkar tíma. Líf eða dauði var oft undir því komið, hvort menn snerust með þeim eða móti, því að fyrir trúarlegar hugmyndir sínar voru menn á miðöldum reiðubúnir að úthella blóði, ef ekki sínu eigin, þá að minnsta kosti annarra. — Þessi höfuðvandamál skólastikurinnar voru fjögur:

1. Sambandið milli trúar og skynsemi, 2. sambandið milli vilja og skynsemi, 3. sambandið milli náttúru mannsins og náðarinnar og 4. kenningin um „frummyndir“ (universalia).

Sambandið milli trúar og skynsemi og um leið (þótt það þurfi ekki að eiga neitt sameiginlegt nema nafnið) sambandið milli guðlegrar opinberunar (guðspjall-

anna) og skynseminnar var höfuðatriðið. Leiðtogar kirkjunnar, sem voru einráðir í andlegum málum, aðhylltust þá skoðun, að hlutverk skynseminnar væri aðeins að skýra ritninguna, og væri því skynsemin þerna hins opinberaða orðs. — Á þrettándu öld fór sambandið milli skynsemi og trúar að þýða sambandið milli hins gríska heimspekings Aristotelesar og kennisetninga kirkjunnar. Eftir það var það höfuðviðfangsefni lærðra manna að útskýra heimspeki Aristotelesar í ljósi guðfræðinnar, og með því varð Aristoteles gerður einn af postulum kristinnar heimspeki.

Nátengd vandamálinu milli trúar og heimspeki var deilan um sambandið milli vilja og skilnings. Álitið var, að trúin væri rót viljans og skynsemin rót skilningsins. Allir kristnir heimspekingar vörðu kenninguna um frjálsan vilja mannsins til að velja og hafna, því að hún var óhjákvæmileg skýring á syndafallinu og ófarnaði mannanna. Þess vegna var líka viljinn talinn æðri skilningnum, alveg á sama hátt og trúin var talin æðri skynseminni. Hins vegar reis um það ágreiningur, hvort viljinn væri algerlega óháður eða hvort hann væri háður vitundinni um, hvað væri gott og hvað væri illt, — með öðrum orðum háður skilningnum. Þetta vandamál skólastikurinnar varð enn flóknara vegna þeirrar kenningar, að viljinn stjórnaðist af guðlegri náð, sem gerði viljann góðan og leiddi því manninn inn á veg sáluhjálpar og fullsælu. Og þetta leiddi aftur af sér nýtt vandamál: Hvaða samband er á milli nátt-

úru mannsins og náðarinnar? Afstaða kirkjunnar var sú, að náttúra mannsins væri ofurseld syndinni, manninum yrði ekki bjargað frá syndum sínum nema fyrir náð.

Hið fjórða höfuðvandamál skólastikurinnar var, hvort til væru „frummyndir" (universalar).

Sókrates og Plató kenndu, að að baki allra hinna ólíku einstaklinga stæði frummyndin MAÐUR. Þannig ætti allt sína frummynd. Á miðöldum barst þessi þekking til lærðra manna, þegar Boethius þýddi á latínu inngang Porphyrysar að heimspeki Aristotelesar. Þar stendur: „Eru þær til í raun og veru, eða eru þær aðeins til í hugum manna? Eru þær úr efni eða efnisvana? Eru þær veruleiki óháður því, sem við skynjum, eða eru þær aðeins í því og hluti þess?" Úr þessum jarðvegi uxu kenningar kirkjunnar um frummyndir: Ofar mönnum var til MAÐUR sem sjálfstæður veruleiki, óháður einstaklingum. (Þessi frummynd birtist á jörðinni sem ADAM). Á sama hátt er talað um „frumsyndina," sem sögð var sjálfstæður veruleiki, óháð syndum einstaklinganna. Kennt var einnig, að þrenningin væri slík frummynd — og væri því um leið eining. — Og síðast, en ekki sízt, var kirkjan sjálf slíkur æðri veruleiki og var því til óháð söfnuði sínum. Kirkjan sem stofnun er sköpuð í líki þessarar frummyndar, og trú hennar er því ekki til orðin vegna trúarsannfæringar safnaðarins, — því að hún er honum æðri og óháð. Þetta var sjónarmið rétttrúaðra. — Ýmsir heim-

spekingar, svo sem Roscillinus, andmæltu og héldu því fram, að engar frummyndir væru til nema sem nafn eða tákn. — Til væru aðeins einstaklingar, sem allar heildir eru byggðar upp af. Þá kenningu dæmdi kirkjan hina verstu trúvillu, því að heimspekingar rétttrúnaðarins sáu, að af þessu leiddi, að MAÐURINN varð þá aðeins sameiningartákn allra manna og því aðeins orð og enginn sjálfstæður veruleiki óháður mönnunum sem einstaklingum. Frumsyndin varð þá aðeins nafn og ekkert til nema persónulegar syndir. Þrenningin hlaut þá að vera þrjár persónur og ekki eining. Kirkjan var þá aðeins til sem söfnuður, sem misvitrir og misjafnir menn fylltu, og trú hennar og „dogmur" mannasetningar einar.

Þessi fjögur atriði, sem hér hafa verið nefnd, voru, eins og fyrr segir, meginviðfangsefni skólastikunnar, og hundruð lærðra manna veltu þessum gátum fyrir sér um aldir og gera margir enn. Flestir þessara manna eru nú gleymdir. Sumra er þó enn minnzt. Meðal þeirra má nefna Duns Scotus Erigena, sem talinn er upphafsmaður skólastikunnar, þótt hjá honum gæti mikilla áhrifa algyðistrúar og nýplatónisma, Anselm (1033—1109) erkibiskup í Canterbury, John Duns Scotus og Tómas Aquinas, — en með honum rís skólastikin hæst. Sumir munu þó telja, að eftirminnilegastur allra þessara heimspekinga sé Pierre Abelard.

## II

Í Pére Lachaisekirkjugarði í útjaðri Parísarborgar er leiði þekktasta heimspekings 12. aldar. Legsteinninn skýrir að nokkru frá leyndardómi þessarar frægu grafar, — hvers vegna Abelards er minnzt, þegar flestir hinir, sem samtíðin þekkti svo vel, eru gleymdir. Á legsteininn er skráð: „Hér, undir sama steini, hvíla Pierre Abelard, stofnandi þessa klausturs, og fyrsta abbadísin, Héloise. Þau voru áður sameinuð í lærdómi, gáfum, ást, ófarsælu hjónabandi og iðrun — og nú, að við vonum, í eilífri hamingju. Pierre lézt 21. apríl 1142, Héloise 17. maí 1164."

Pierre Abelard er fæddur í Pallet nálægt Nantes í Frakklandi. Hann var aðalsættar, borinn til að bera sverð, — en kaus sér bókina og pennann. Ungur að aldri hafnaði hann frumburðarrétti sínum og yfirgaf fjölskyldu sína til að leggja af stað út í heiminn og leita sér þekkingar í þeim tveimur greinum almennra vísinda, sem markverðust þóttu á hans tíð. En þær voru guðfræði og þerna hennar, díalektíkin, eins og heimspeki þá var nefnd. Á þessum tímum var þekkingu ekki neytt upp á nokkurn mann. Þvert á móti urðu menn að leita hennar, og félítil ungmenni gengu langar og margar dagleiðir til að ná til fræðara, sem veitt gæti þeim tilsögn.

Í fjarlægð sá Abelard í draumsýnum sínum hina

dýrlegu París, menningarborgina og hásæti hinnar æðstu vizku. Það sæti var skipað hinum frægasta kennara, heimspekingnum William Champeaux. Hann var tekinn að eldast, — en ríkti enn í gamla Notre Dame — skólanum sem konungur andans. Þangað komu æðstu menn veraldarvaldsins til að fræðast og leita ráða hins gamla þular.

Til þessa manns stefndi hugur Abelards, en hann gekk þó ekki beint að hásætinu. Fyrst varð hann að læra vopnaburð hins díalektíska riddara í mörgum og hörðum brýnum við andans menn úti á landsbyggðinni. Einkum lærði Abelard mikið hjá hinum fræga Roscellinusi. Rökfimi þessa kennara var einstök ekki sízt þegar hann sannaði nemendum sínum, að „frummyndir" væru ekki til. Fyrir það og fleira hafði Roscellinus þegar verið dæmdur fyrir villutrú bæði í London og Soissons. Abelard var flugnæmur og vakti mikla athygli fyrir mælsku, rökfimi, skörulegan flutning og fyrirmannlegt fas. Allt þetta jók hug Abelards, og hann taldi loks tíma kominn til að nálgast hásætið og setjast þar við fótskör meistarans William Champeaux. Þar voru fyrir námsmenn hvaðanæva að úr fjarlægustu löndum og er talið, að hinn öri vöxtur Parísar hafi stafað af því aðdráttarafli, sem hún hafði á unga menntamenn. Abelard hlustaði aftur og aftur á ræður þessa heimspekings. Honum duldist ekki styrkur hans. — En William hélt því skilyrðislaust fram, sem Roscellinus hafði afsannað, að til væru frummyndir. Og Abelard

sá ekki betur en einmitt hér gæti hann sjálfur sigrað William Champeaux. Abelard undirbjó árás á sjálft hásætið. Hann beið eftir tækifæri, og næst þegar meistarinn kom að kenningu sinni um frummyndir, reis Abelard upp til andmæla. William Champeaux varð í fyrstu undrandi, síðan reiður, og þegar Abelard hélt lengra áfram ræðu sinni, læddist jafnvel að honum grunur um, að þetta hásæti sitt væri reist á sandi. Þótti öllum Abelard fara með sigur af hólmi. En sigur er ekki alltaf hamingja. Abelard rekur síðar allan ófarnað sinn í lífinu til þessarar stundar, þegar hann sigraði þennan gamla meistara og skapaði sér með því marga áhrifamikla óvini. Honum þótti líka ráðlegra að fjarlægjast París og fór til Melun, þrjátíu mílur þaðan. Fylgdu honum þangað margir menntamenn og gerðust lærisveinar hans. En París ögraði honum, og skömmu síðar flutti hann skóla sinn að Corbeil, sem liggur mitt á milli Melun og Parísar. Gengu þá margir menntamenn milli Corbeil og Parísar til að bera saman kenningar þeirra höfuðandstæðinganna, og urðu deilur háværar.

Ekki lagði þó Abelard aftur til atlögu við höfuðborgina. Áreynslan varð honum of mikil, og hann varð að draga sig í hlé. Hvarf hann þá til fæðingarhéraðs síns. Þar dvaldist hann í tvö ár. Að því er virðist, notaði hann allan þennan tíma til að undirbúa sig undir lokaátökin við William Champeaux. Þegar hann þóttist ferðbúinn, fór Abelard beint til vígvallarins í

París. En William hafði þá líka þótt nóg komið og var flúinn af hólmi til Saint Victor, þar sem hann hafði stofnað skóla í mælskufræði. Abelard varð þó að gera upp sakirnar. Hann fór því til Saint Victor, fann þar sinn gamla meistara, hlýddi ræðu hans og beið, þar til komið var að kenningunni um frummyndir. Þá skoraði hann William á hólm í þessu höfuðmáli þeirra tíma. William gekk nauðugur til leiks, og hann hafði greinilega verið búinn að sjá, að kenning hans um frummyndir stóðst ekki. Hann hafði nægilegan manndóm til að viðurkenna það opinberlega, að sér hefði skjátlazt í þessu máli, þó að hann væri ekki Abelard algerlega sammála. Hinn lærði heimur sneri þá allur baki við honum, svo að hann varð að yfirgefa hásætið. Hann hafði fengið skólann í Notre Dame einum lærisveina sinna í hendur. En nú vék sá úr sæti fyrir Abelard. Hann hafði verið krýndur til konungs í hinum lærða heimi, en sat þó skamma stund, áður en hann flutti sig um set til Latínuhverfisins, sem þá var frægt fyrir lausingja og siðlausa munka.

Abelard þoldi engan, sem gerði kröfur til að teljast honum jafnsnjall. Frægasti guðfræðingur aldarinnar, Anselm biskup, kenndi við mikinn orðstír í Laon. Abelard lagði því mikla stund á guðfræði til þess síðar að geta farið til Laon og þreytt mælskulist sína við Anselm. Það gerði hann og var svo sigursæll, að honum fór að stafa hætta af kirkjunni. Abelard stóð nú á tindi frægðar sinnar. Hann sagði sjálfur síðar, að þá hefði

hann talið sig hinn eina sanna heimspeking veraldarinnar og ósigrandi.

En þá kom Héloise. Hún var kvenna fegurst og talin ein gáfaðasta kona síns tíma. Að lærdómi stóð hún fáum að baki, jafnvel ekki Abelard. Hún kunni latínu, grísku og hebresku. Fas hennar allt var frjálsmannlegt og þó virðulegt. Abelard, sem farinn var að nálgast fertugt og virðist ekki hafa haft mikinn tíma frá bardaga sínum í díalektíkinni til að hugsa um konur, varð ástfanginn við fyrstu sýn. Sú ást virtist gagnkvæm. Héloise var þá átján ára að aldri og bjó hjá föðurbróður sínum, Fulbert. Þann mann hitti nú Abelard að máli og bauð honum að gerast kennari bróðurdótturinnar gegn því, að Abelard fengi samastað í húsi hans. Kvað Abelard sér þykja húshald þreytandi og kvað það taka of mikinn tíma frá vísindum sínum. Fulbert var ánægður með að fá jafnfrægan gest í hús sitt — sem auk þess gæti annazt frekari uppfræðslu frænku sinnar í díalektíkinni. — Og Abelard fór að kenna Héloise díalektík. Menn veittu því eftirtekt, að Abelard tók að sneiða hjá heimspekilegum þrætum í fyrsta sinn á ævinni. Og sumir, sem fóru hjá húsi hans, fullyrtu, að hann væri jafnvel farinn að syngja ástaljóð til Héloise, ljóð, sem hann orti til hennar sjálfur. — Abelard var heldur enginn viðvaningur í ljóðagerð, því að hann hafði iðkað skáldskap frá unglingsárum. Og ljóð hans bárust út og voru sungin á götum Parísar. Allir Parísarbúar fylgdust með því, sem fram fór í húsi

Fulberts, — að honum einum undanskildum. Fulbert var maður siðavandur, og lauslæti var dauðasynd að hans áliti. Æði hans var óstjórnlegt, þegar hann loks komst að því, sem fram fór í húsi hans. Héloise var þá þunguð. Abelard var rekinn úr húsinu, en Héloise bauð Fulbert byrginn. Hún kvaðst fagna því að eignast barn með Abelard. Hún hikaði ekki við að segja, að það væri heiðarlegra að vera ástmey Abelards en eiginkona hans, því að hjónaband yrði heimspekingi alltaf fjötur um fót — líkt og Sókratesi. Hins vegar kvaðst hún heldur vilja vera hjákona Abelards en drottning hins voldugasta konungs.

Nótt eina kom Abelard að húsi Fulberts og tókst að nema Héloise á braut, og komust þau til systur hans í Bretagne. Þar ól Héloise son. — Abelard vissi, að maður, sem var altekinn jafnmiklum réttlætishroka og Fulbert, mundi hyggja á hefndir. Hann fór því til hans og leitaði sátta við hann. Bauðst hann til að giftast Héloise, en þar sem giftingin, ef kunn yrði, mundi meina honum að komast til frama sem kirkjunnar maður, en það var einmitt ætlun hans, þá varð það, að samkomulagi, að giftingunni yrði haldið leyndri. Héloise var mótfallin því að bindast Abelard með hjúskapareiði. Voru bönd ástarinnar ekki nógu sterk? En Abelard beygði sig ekki fyrir fortölum hennar, og hún fór loks að vilja hans. Giftingin varð þeim báðum að falli. Fulbert gat ekki með neinu móti þagað yfir giftingunni, — svo að menn skildu ekki halda, að nokk-

ur úr hans húsi lifði ósiðsamlegu líferni. Héloise hinsvegar neitaði, að hún væri gift Abelard. Vegna ofsókna Fulberts hrökkluðust þau til klaustursins í Argenteuil. Héloise klæddist þar sem nunna án þess þó að hafa unnið klausturseiðinn. Fundum þeirra Abelards og Héloise bar þar oft saman. Fulbert varð enn æfari. Hann bjóst við, að nú ætlaði Abelard að koma Héloise í klaustur — og hann sjálfur yrði brennimerktur ósannindamaður. Hefnd hans var svo grimm, að jafnvel Parísarbúum á dögum grimmdarinnar þótti nóg um. Fulbert leigði sér nokkra óbótamenn, og tókst þeim um nótt að komast inn í svefnherbergi Abelards og ráðast að honum í rúminu. Tilgangurinn var að ganga þannig frá honum (eftir fyrirmælum Fulberts), að hann gæti hvorki flekað Héloise eða nokkra konu framar. Abelard var leikinn á þann hátt, að hann var nær dauða en lífi. — En siðferði hins réttláta manns, Fulberts, var fullnægt. Á einni nóttu hafði allt líf þeirra Héloise og Abelards hrunið í rústir. Skömmu síðar vann Héloise klausturseiðinn. Hið ytra var hún hæglát og virðuleg. — Stríð sitt háði hún hið innra.

Þegar Abelard náði sér að nokkru leyti aftur, beið hans nýtt stríð úti í hinum lærða heimi heimspeki og trúar. Menn, sem óttuðust leitina að sannleikanum, reyndu þar að koma honum á kné og fá hann dæmdan fyrir villutrú.

Abelard byrjaði að kenna aftur, og bækur hans fóru að birtast: Samtal milli heimspekings, Gyðings og

kristins manns og Já og nei (Sic et Non) vöktu mikla athygli. Þar er sá háttur á, að höfundur leggur aðeins fram meðrök og mótrök í hverju máli og lætur lesandann svo um að dæma. Bók hans um þrenninguna vakti þó mesta athygli, og varð sú bók til þess, að Abelard var kallaður til trúvillingadómsins í Soissons. Abelard var þar varnarlaus og neyddur til að afneita bókinni og brenna hana á báli. Eftir það var hann á ýmsan hátt ofsóttur af kirkjunni og varð meðal annars að hrökklast frá klaustrinu í St. Denis til Parísar. Þar var hann um stund látinn óáreittur gegn því loforði, að hann gerðist einsetumaður. En hús einsetumannsins í Paraclete — en svo var hús hans nefnt — fylltist brátt af menntamönnum, sem komu til að hlýða á Abelard.

Fregnir af nýjum villukenningum bárust til eyrna Bernard Clairvaux og Norbert Prémontré, sem þá voru helztu postular rétttrúnaðarins. Þeir stefndu honum öðru sinni fyrir dóm. En þá buðu munkarnir í St. Gildas í fæðingarhéraði hans honum að gerast ábóti hjá þeim. Abelard þá boðið. Paraclete, sem var eign hans, breytti hann þá í nunnuklaustur, og fyrsta abbadís þess varð príorinnan í klaustrinu Argentenuil, Héloise.

Brátt varð Abelard, vegna tungu sinnar, að hrökklast frá klaustrinu í St. Gildas til Parísar aftur. Þar reyndist hættan sízt minni. Bernard Clairvaux hafði nú farið vandlega gegnum bækur hans — og fordæmt þær.

Endanlega skildi Abelard drepinu! Honum var stefnt til dóms í Sens. En í stað þess að sækja hann, hélt Abelard til Rómaborgar til að biðja sér griða hjá páfa. Á leiðinni þangað gisti hann í klaustrinu í Cluny. Abelard var þá sjúkur og langt leiddur, svo að ábótinn, Pétur góði, tók við honum. Vegna fyrirbæna hans var Abelard leyft að deyja í friði í klaustrinu. Fyrir dauða sinn skrifaði hann bréf „til systur Héloise, sem einu sinni var mér kær í þessum heimi." Andlátsbón hans var að mega hvíla í sömu gröf og hún. Sú ósk var ekki uppfyllt fyrr en mörgum öldum síðar (1817). Þá var ösku þeirra blandað saman og hún grafin í kirkjugarðinum við Père Lachaise í útjaðri Parísarborgar. Og á legsteininn er skráð: „Hér, undir sama steini, hvíla Pierre Abelard, stofnandi þessa klausturs, og fyrsta abbadísin, Héloise. Þau voru áður sameinuð í lærdómi, gáfum, ást, ófarsælu hjónabandi og iðrun — og nú, að við vonum, í eilífri hamingju."

## III

Pierre Abelard tók upp þá aðferð að ræða málin frá andstæðum sjónarmiðum, „dicta pro et contra", eins og bezt kemur fram í riti hans „Sic et non" (Já og nei). Á þann hátt reyndi hann að synda milli skers og báru milli dogma kirkjunnar og hinnar grísku heimspeki, sem hann dáði mjög. Taldi hann t. d. meiri skyldleika með kenningu Krists og hinna grísku heim-

spekinga en með kenningum Gamla testamentisins og hins nýja.

Abelard hélt því fram, að hinar marguntöluðu frummyndir væru ekki til nema í huga Guðs. Að vísu eru þær í hverjum einstaklingi, en þar eru þær ekki algildar. Ef svo væri, hlytu allir menn að vera eins, — en það eru þeir ekki. Þess vegna eru frummyndir sem slíkar ekki til þar. Og utan einstaklinganna geta þær hvergi verið til nema sem hugmynd. En sem slíkar eru þær raunveruleiki (í huga guðs) og ekki tómt nafn. Þannig valdi Abelard hinn gullna meðalveg milli kennara sinna, Roscellinusar, sem hélt fram, að frummyndir væru aðeins nafnið tómt og ekki til, og William Champeaux, sem hélt fram hinni upphaflegu kenningu um, að frummyndir væru sjálfstæður veruleiki.

Abelard er sannur skólastikus að því leyti, að hann trúði því, að opinberun og skynsemi væru í fullu samræmi hvor við aðra — jafnvel þótt menn gætu sennilega aldrei skilið til fulls, hvernig það mætti vera. En því, sem menn geta ekki skilið af hinu opinberaða orði, því verða menn að trúa. Þegar öllu er á botninn hvolft, öðlast menn þá ekki náðina vegna trúar? — Og ef menn skildu allt, — hvað væri þá eftir, sem menn þyrftu að trúa á? Án trúar er því ekki hægt að umbuna mönnunum! En Abelard talar ekki alltaf í þessum klerkslega tón. Í „Forspjalli guðfræðinnar“ (riti, sem var fordæmt á kirkjuþinginu í Sens 1140) talar hann af fyrirlitningu um þá, sem trúa öllu í blindni, sem

þeim er sagt að trúa. Guð hefur gefið okkur skynsemi. Hvers vegna ættum við þá að vera hræddir við að nota hana?

Abelard hafði sínar eigin hugmyndir um þrenninguna (fyrir þær er Introductio ad theologiam einkum fordæmd), byggðar að nokkru leyti á grískum kenningum.

Þrenningin í hans augum er aðeins þrír eiginleikar guðdómsins. Faðirinn er hinn æðsti máttur. Sonurinn er logos, hugur Guðs, sem geymir allar hugmyndir, hin æðsta vizka. Heilagur andi er heimssálin, sem er hin æðsta góðvild Guðs, er nær um alla tilveru.

Á þessu síðasta atriði byggir Abelard höfuðinntak siðfræði sinnar: Góðvildin er hin æðsta dyggð mannsins, og hún er náðin, sem veitir manninum hlutdeild í guðdómnum.

# Tómas Aquinas

UPP HALLARTRÖPPUR Rocca Secca gengur ung, ítölsk kona óstyrkum fótum í heimsókn til ungs manns, sem vill verða munkur.

Kastalinn Rocca Secca var höfðingjasetur Neapelríkis á Suður-Ítalíu. Hann stóð spölkorn utan við borgina Aquino. Í þessum kastala bjó Landúlfur greifi, frændi Friðriks Barbarossa. Greifynjan, Theodóra, var komin af norrænum konungum. Þessi ungi maður, sem vildi verða munkur, var sonur þeirra, Tómas Aquinas.

Tómas var borinn til auðs og mannaforráða. Hann var eftirlæti foreldra sinna, og við hann voru miklar vonir tengdar. Honum var því fengin hin bezta menntun, sem völ var á, og aðeins 5 ára gömlum var honum komið til náms til frænda síns, ábótans í klaustrinu Monte Cassino. Munkarnir lögðu hina mestu rækt við uppfóstrun sveinsins þau níu ár, sem hann dvaldist í klausturskólanum. Að þeim tíma liðnum var Tómas að ráði foreldra og kennara sendur til skólans í Napólí

og honum spáð miklum frama, jafnvel páfadómi. Ættin hafði fé og völd, hann gáfur og vinsældir. Tómas var fróðleiksfús, en festi þó ekki yndi meðal menntamannanna í Napólí. Hann leitaði aftur til einveru klaustursins, líkt og hin norræna arfleið hans krefðist, að leitað yrði á dýpri mið en hægt var í skrumi og glaumi hinnar suðrænu borgar. Og hvað stoðaði það manninn að eignast allan heiminn? Var ekki annað verðmeira, önnur verðmæti sannari en þau, sem mölur og ryð fá eytt og dauðinn heimtar aftur. Tómas taldi, að leiðin að þessum perlumiðum í djúpum sálarinnar væri leið svartmunksins, að hafna heiminum og lifa sem fátækur maður, sem reynir sitt bezta til að hjálpa meðbræðrum sínum. Þess vegna hvarf hann frá skólanámi sínu í Napólí og gekk í klaustur svartmunka (1244). Þetta olli foreldrum hans sárum vonbrigðum. Þau fengu þó ekki að gert. Móður hans var jafnvel neitað um að fá að heimsækja son sinn og tala við hann í klaustrinu. Foreldrar hans og bræður réðu þá ráðum sínum og urðu loks ásátt um, að nema hann á braut frá munkunum með valdi. Tveir bræður hans, sem voru yfirmenn í hernum, gerðu honum því fyrirsát á leið hans til Parísar, en þangað hélt Tómas fljótlega eftir, að hann gekk í regluna, til að afla sér frekari menntunar. Þeir náðu bróður sínum á sitt vald og fluttu hann nauðugan með sér heim í höll foreldra sinna. Þar var Tómasi haldið föngnum í meira en heilt ár. Allar fortölur höfðu verið reyndar, en

Tómas hélt fast við heit sitt við regluna og varð ekki haggað. Loks ákvað móðir hans að reyna, hvort fögur kona gæti ekki fengið hann til að skipta um skoðun.

Hin unga, ítalska fegurðardís opnar dyrnar hljóðlega. Fanginn lítur upp. Það brennur eldur á arni við hlið hans. Hann virðir fyrir sér þessa fögru, hálfnöktu konu. „Vík frá mér Satan" sagði meistari hans forðum á stund freistingarinnar. En lærisveinninn á enn ekki þann innri styrk, sem sigrar freistinguna með hógværð. Konan er mjög falleg, — en hann skilur um leið, að þessi kvenmaður hefur verið sendur honum til að láta hann falla í snöru heimsins — til að fá hann til að svíkja eiða sína og hætta leit sinni að hinum dýra fjársjóð, sem er ekki þessa heims. Á þessari stundu finnst honum, sem hann verði í eitt skipti fyrir öll að velja milli jarðarinnar og himnanna. Hann sprettur skyndilega á fætur, þrífur eldibrand logandi af arninum, hefur á loft og æðir mót freistaranum, sem skelfist þennan loga fordæmingarinnar og flýr. Ungi maðurinn brennir krossmark á dyr sínar, lokar að sér og hefur nám sitt að nýju.

Að minnsta kosti greifafrúin, móðir hans, skildi eftir þennan atburð, að til einskis var að reyna að telja syninum hughvarf. Hann var kallaður til að verða munkur og hafði ef til vill hlutverk að vinna. Hún léði honum á laun reipi, svo að hann gæti komizt undan út um hallargluggann og flúið á fund vina sinna.

Eftir þennan flótta var Tómas látinn óáreittur af ættingjum sínum. Hann hélt fyrst til Parísar til að

halda þar áfram námi sínu. Eftir þriggja ára nám í París vildi Tómas enn leita á dýpri mið. Hann fór með Jóhannesi Teutonicus, leiðandi menntamanni í svartmunkareglunni til Kölnar á fund eins mesta kennimanns miðaldanna, Alberts Bollstadt (1206–1280), sem nefndur var hinn mikli. Albertus Magnus var einn af þessum heimspekingum miðaldanna, sem bjó yfir menningararfi Arabans, heimspeki Gyðinga, Egypta, Persa og Indverja og barðist fyrir að þýða og skýra heimspeki Aristótelesar fyrir hinum kristna heimi miðaldanna. Til þessa manns fór Tómas Aquinas, hinn komandi leiðtogi allra kaþólskra manna, til að leita hjá honum hinnar dýru perlu, sem jafnvel dauðinn getur ekki endurkrafið. Og hvert var svarið, sem hann fékk hjá hinum mikla meistara? Hver var lykill hans að dyrum hins æðsta leyndardóms? „Þegar þú biður," sagði Albertus við lærisvein sinn, „lokaðu þá dyrum þínum, það er að segja dyrum skynfæra þinna. Lokaðu þeim fyrir öllum hugrenningum og hugmyndum. Ekkert er Guði jafnþóknanlegt og kyrrlátur hugur, sem er laus við flökt og er ekki haldinn af neinu. Slíkur hugur breytist á vissan hátt í Guð, vegna þess að hann getur ekki hugsað um neitt og elskað neitt nema Guð. Sá, sem skilur sjálfan sig til hlítar og hefur sig þannig yfir sjálfan sig, stígur í sannleika upp til Guðs."

Þetta var kjarni þeirrar vizku, sem Tómas og vinur hans, Jóhannes, höfðu lagt á sig þriggja mánaða göngu

til að nálgast. Ekki hafði Tómas verið lengi hjá meistaranum, þegar hinn síðarnefndi fór að sjá í Tómasi leiðtoga, sem valda skyldi straumhvörfum í andlegum málum. Hann vígði hann því inn í það aðalstarf sitt að þýða Aristoteles og samræma heimspeki hans og kristna trú. Þegar Tómas Aquinas sneri aftur til Parísar (1252) varð hann brátt konungur alls hins lærða heims þeirra tíma. Konungar veraldarvaldsins komu til hans og ræddu vandamál sín. Hann var dómari, sem skar úr þrætum jafnvel hinna lærðustu, — jafnvel sjálfur páfinn í Róm ráðfærði sig við hann um guðfræðileg efni. Eftir tilmælum Gregoríusar páfa X. skrifaði hann t.d. Summa contra gentiles, sem skráð var gegn heiðingjum. Engum manni, hvorki fyrr né síðar, hefur tekizt jafnvel að efla kenningu kirkjunnar. Descartes, sem fann flestum guðfræðiritum í einhverju áfátt, undanskilur rit Tómasar Aquinas. Slíkur maður var ómissandi í sjálfri Rómaborg. Tómas fluttist þangað 1265 og hóf þar að rita mesta verk sitt Summa theologiae. En hans var víða þörf. Í París bar mjög á kenningum, sem ekki samræmdust rétttrúnaðinum. Sumir fylgdu Averroës og settu heimspeki Aristotelesar ofar opinberunum. Aðrir röskuðu jafnvæginu milli skynsemi og trúar með einhliða túlkun á heimspeki Augustinusar. Tómas Aquinas hélt því til Parísar 1268 og átti í mörgum og hörðum orrahríðum við þessa menn rétttrúnaðinum til styrktar. Árið 1272 var Tómas loks leystur úr þessari herferð og kallaður heim til

hvíldar. En hvernig gat Tómas Aquinas, þjónn kirkjunnar, notið hvíldar í þessum stormasama heimi? Gríska kirkjan deildi við hina rómversku, og heiðingjar tróðu stræti Jerúsalem, hinnar helgu borgar. Gregorius X. varð að kalla saman kirkjuþing í Lyon, til að jafna þar ágreininginn innan kirkjunnar, — og leggja á ráðin um nýja krossferð. Páfi kallaði Tómas Aquinas til þessa þings. Hann var þá farinn að heilsu, þótt hann væri enn ungur að árum (49 ára að aldri), en hlýddi samt kallinu og lagði upp í förina með nokkrum vinum sínum, ríðandi á asna. Það var hans síðasta för. Hann lézt á leiðinni og náði aldrei til þings.

Með Tómasi Aquinas féll frá mesti heimspekingur miðaldanna. Hann hafði meiri áhrif á komandi kynslóðir en flestir aðrir. Nægir í því sambandi að benda á, að Leó páfi XIII. gerði heimspeki Tómasar hina opinberu heimspeki kaþólsku kirkjunnar, og það er hún enn í dag.

Fjöldi heimspekinga og leiðtoga urðu síðar lærisveinar hans, en frægastur þeirra allra var ítalska skáldið Dante. Í hinu mikla verki sínu Divina Commedia sér skáldið þá Albertus Magnus og Tomas Aquinas standa hið næsta hásætinu í ríki hinna útvöldu (Paradiso X, 94—99). — Slíkan sess skipaði Tómas Aquinas og skipar enn í vitund þeirra, sem finna dulmögn hins guðlega innblásturs í orði hans.

# Heimspeki Tómasar Aquinas

MEÐ TÓMASI AQUINAS nær heimspeki kaþólsku kirkjunnar hátindi sínum. Tilgangur hans, eins og annarra skólastikusa, er að sýna fram á, að skynsemin — og þá um leið hið rökræna samhengi tilverunnar, eins og það er séð í ljósi Aristotelesar, — sé í fullu samræmi við hið opinberaða orð kirkjunnar. Þetta samræmi, segir Aquinas, getum við þó aldrei skilið til fulls. Því, sem við skiljum ekki, verðum við að trúa. Þessu er þannig fyrir komið vegna þess,að aðeins fyrir trú sína getur maðurinn öðlazt náð, sem leiðir til sáluhjálpar.

Trú og heimspeki hljóta af þessum sökum að fara ólíkar leiðir. Heimspekin rekur spor hinna ytri staðreynda til heimahúsanna, — hins innsta sannleika, sem er Guð. Trúin byrjar, þar sem heimspekin endar, og endar, þar sem heimspekin byrjar. Leið hennar liggur frá Guði til hins skynjaða heims. Það er margt, segir Tómas, sem heimspekin getur aldrei gert mönnum skiljanlegt, t.d. kennisetningarnar um, að veröldin hafi verið sköpuð í tíma, um þrenninguna og um helgidóma kirkjunnar. Þess vegna ber að skilja slíkar kennisetningar frá heimspekinni, þar sem hún getur hvorki sannað né afsannað þessa hluti. Þessi aðskilnaður trúar og heimspeki var formlega viðurkenndur á dögum Tómasar við Parísarháskóla, þar sem sam-

þykkt var, „að enginn kennari í heimspeki skyldi ræða vandamál, sem heyrðu eingöngu guðfræðinni til.

Margir guðfræðingar eftir hans dag, með Duns Scotus í broddi fylkingar, töldu, að allt, sem við kæmi guðdómnum, væri trúaratriði og yrði því að skilja frá heimspekinni. Aquinas gekk ekki svo langt. Hann telur þvert á móti, að unnt sé að sanna tilveru Guðs heimspekilega og að það sé einmitt höfuðverkefni allrar heimspeki.

Tómas Aquinas leggur fram fjórar sannanir fyrir tilveru Guðs, sem höfðu að vísu áður verið lagðar fram í Austurlandaheimspeki og einnig af heilögum Augustínusi og Aristoteles.

Í fyrsta lagi bendir Tómas Aquinas á, að allt eigi sér einhverja orsök. Að baki alls, sem hrærist, hlýtur, segir hann, að vera eitthvað, sem sett hefur það á hreyfingu. Þessi orsakakeðja getur ekki verið endalaus. Einhvers staðar hlýtur hún að byrja. Þess vegna hlýtur hin fyrsta orsök einnig að vera til, og þessi fyrsta orsök tilverunnar er Guð. — Í öðru lagi er í hinni ytri náttúru ekkert stöðugt nema breytingin. Þar koma allir hlutir og hverfa. Allir hlutir eru til orðnir úr einhverjum öðrum hlut eða hlutum. Á vissan hátt eru þeir því ekki raunverulegir. Hinn innri veruleiki hlýtur því að felast að baki þeirra. Hann er grundvöllur allra hluta. Þessi grundvöllur er Guð.

Í þriðja lagi er allt í tilverunni á mismunandi þroskastigi. Allt er misjafnlega fullkomið. Eitthvað

hlýtur því að vera fullkomnast. Hið fullkomnasta er hin fyrsta orsök, sem allt er runnið frá: guðdómurinn.

Í fjórða lagi bendir Tómas Aquinas á, að allt í tilverunni eigi sér eitthvert takmark og að baki allra lögmála náttúrunnar hljóti að standa ákveðnir vitsmunir. Alheimurinn á sér líka tilgang. Hann nær honum ekki af sjálfum sér. Sá máttur, sem stjórnar samræmi allrar tilverunnar, er ekki blind tilviljun, heldur einhver alvizka. Þessi alvizka er Guð.

Þó að heimspekin geti þannig sannað tilveru Guðs, þá getur sá bezt þekkt Guð, sem á sér sanna trú og einfalt og einlægt hjarta.

Tómas Aquinas viðurkennir hinn opinberaða boðskap guðspjallanna, að Guð hafi skapað allt, einnig efnið, úr engu. Hann kennir, að þessi sköpun eigi sér einnig upphaf í tíma, þar sem tíminn er skapaður um leið og veröldin og því ekki til á undan henni. Guð er hreinn andi, segir Aquinas, og efnisheimurinn getur því ekki verið frá honum runninn, heldur hefur hann skapað hann úr engu.

Tómasi er ljóst, að þetta verður ekki sannað heimspekilega. — Þess vegna er þetta eitt þeirra mála, segir Tómas, sem menn verða að skilja frá heimspeki og styðjast í hennar stað við opinberun ritningarinnar. Þannig verður þessi kenning ekki heimspeki, heldur er hún trú.

Veröldin, sköpun Guðs, er hin bezta af öllum hugsan-

legum veröldum, því að verk hins fullkomna hljóta að vera fullkomin.

Guð skapaði efnisheiminn og æðri heima (ríki náðarinnar). Hann skapaði engla, mannssálir, dýrsálir og gróðursálir. Andinn hefur tekið sér bólstað í efninu og skapað gróður, dýr og menn. Gróðursálin og dýrsálin eru ekki eilífðareðli gæddar. Þær fæðast og deyja með líkama jurtarinnar og dýrsins. Mannssálin aftur á móti er ódauðleg. Hún er á þremur stigum. Fyrsta stig hennar stjórnar líffærunum. Við annað stig hennar er skynjun bundin. Hið þriðja er skynsemi og skilningur. Skilningurinn er óháður líkamanum og skilur hugmyndir. Þess vegna er sálin ódauðleg. Eftir líkamsdauðann lifa allir hlutar mannssálarinnar og mynda nýjan líkama. — Englarnir eru hreinir andar, sem byggja æðri heima.

Tómas Aquinas heldur því fram, að frummyndir séu veruleiki. Þær eru hugmyndir í huga Guðs. Annars staðar eru þær ekki *til sem sjálfstæður* veruleiki, heldur aðeins sem sameiginlegur kjarni einstaklinga. Sál mannsins getur skynjað þessar frummyndir jafnvel í því broti þeirra, sem maðurinn skynjar í sjálfum sér. Skynfæri manna og reynsla eru grundvöllurinn, sem þekking þeirra byggist á. En þetta eitt nægir ekki, til að sálin fái vitneskju um neinar frummyndir. Hinir æðri þættir vitundarinnar breyta skynjun og reynslu þannig, að hún verður eingöngu andleg (hugmyndir) eins og sálin, og þess vegna getur sálin skilið og skynjað hugmyndir guðdómsins í brotagleri skynj-

unar og reynslu. Frummyndir hljóta því að verða hið vísindalega viðfangsefni mannsins. Ef þær eru ekki til, geta ekki verið til nein vísindi eða örugg þekking. Þá er enginn sannleikur til.

Hugmyndir Guðs (frummyndir) taka sér bústað í efninu. Þær byggja upp öll náttúruríkin. Þannig skýrir Aquinas hið fullkomna samræmi allra hluta. Þær leiða alla þróun. Þannig skýrir Aquinas, hvers vegna allt stefnir að ákveðnu marki til fullkomnunar. — Frummyndir koma frá Guði, og þær blása eilífðarþrá í duft jarðarinnar og vekja vilja, sem stefnir til hins góða — til þess guðdóms, sem þær komu frá. — Eðli þessa guðdóms er góðvild, ást og hamingja. Þetta er því einnig hið sanna eðli þess, sem guðdómurinn skapar. Tilgangur mannsins er að finna þennan guðdóm í sjálfum sér, og í því er fullkomnun mannsins fólgin. Að þekkja Guð er því raunar sama og að þekkja sjálfan sig. Göfugasta verk mannsins er að hugsa. Göfugust allra hugsana er hugsunin um Guð. Með hugsun og hugleiðingum geta menn þekkt Guð. Þetta er þó ekki á allra færi. Menn geta líka þekkt hann vegna trúar sinnar. — En það geta ekki allir trúað, vegna þess að trúin er háð viljanum og hún getur orðið efanum að bráð. Menn geta þekkt Guð í bænum sínum, ef hjartað er opið og kann að elska. Hin æðsta þekking er þó innsæið. — Slíkri þekkingu á guðdómnum ná menn þó ekki í þessum heimi, — aðeins í æðri heimum. Og þar varir hún að eilífu.

Guð blessar mennina með því að gefa þeim trú, von og þó einkum góðvild, því að þetta þrennt lyftir manninum til himins og veitir honum sáluhjálp. Bænin er lykill þessarar náðar.

Öll tilveran birtist á mismunandi stigum. Lægra stigið er ævinlega efniviður hins hærra. Hið hærra stig verður hugsjón og takmark hins lægra. Hinn frumstæði maður er efsta stig náttúrunnar. En hann er heiðingi og því næsta stig fyrir neðan hinn andlega mann; hinn kristna mann. Þó er hann sá efniviður, sem hinn kristni maður verður til úr. Hlutverk kirkjunnar er með helgidómum sínum að bæta manninn og lyfta honum upp á hið andlega stig.

Á sama hátt og hinn kristni maður er æðri heiðingjanum, segir Tómas Aquinas, að guðfræðin sé æðri heimspekinni, kirkjan æðri ríkinu og páfinn æðri keisaranum. Maðurinn er félagsvera. Þess vegna verður hann að lifa í þjóðfélagi. Ríki er bezt stjórnað af konungi. Skylda konungs er að verja þegna sína og bæta hag þeirra, en þó fyrst og fremst að hjálpa þeim að ná hinu andlega takmarki sínu. Þess vegna er það höfuðskylda konungsins að styðja kirkjuna. Konungur og ríki verða að viðurkenna kirkjuna og páfann sem hið æðsta vald á jörðinni.

Öndvegisverki sínu, Summa theologiae, lauk Tómas Aquinas aldrei. Það gerði hann af ráðnum hug. Tómas skildi með djúpskyggni hins mikla anda, að hið síðasta orð varð eigi skrifað eða sagt af mannlegri

tungu. Fyrir hinum djúpa leyndardómi beygði vitrasti spekingur hinnar kaþólsku kirkju höfuð sitt í auðmýkt og hógværð, — hógværð, sem sumir fylgjenda hans aldrei skildu.

# Giordano Bruno

ÞAÐ GERÐIST á torgi einu í Rómaborg hinn 17. febrúar á því herrans ári 1600 eftir Krists burð. Á torginu stóð hlaðinn bálköstur. Kringum hann beið trylltur múgur.

„Guðleysingi," þrumaði tötralegur og rifinn betlari og ruddist upp að hliðinni á einum af fyrirmönnum Rómaborgar. Höfðinginn leit sem snöggvast á betlarann með velþóknun. Á þessum degi voru þeir bræður.

„Trúníðingur," öskraði ungur, rómverskur hermaður. „Trúníðingur og þorpari," og gamall, rómverskur fræðimaður, sem stóð við hlið hans, kinkaði kolli til samþykkis.

„Útsendari djöfulsins," gall í rolulegum manngarmi, sem plagaður hafði verið árum saman af andarteppu og takverkjum, sem hann kenndi árum hins illa. — Og það fór hrollur um konurnar, sem stóðu fyrir framan hann.

„Svikari," söngluðu nokkrir svartmunkar í kór. „Þú varst einn af okkur og nú .... Látum okkur þetta að

varnaði verða. Sjái hér allir menn, hvað of mikill lærdómur hefur í för með sér."

Múgurinn var trylltur. Hann heimtaði hefnd, — hefnd yfir óþokkann, sem sagði, að himinfestingin, sem skilur milli manna og engla, væri ekki úr gleri, — já, meira að segja ekki til! — hefnd yfir þann, sem vefengdi óskeikulleika hinnar kaþólsku kirkju, páfans og prelátanna, — hefnd yfir manninn, sem hló að spekingnum Aristoteles, — hefnd yfir guðleysingjann, sem sagði, að himinninn væri líka undir jörðinni, — hefnd yfir fíflið, sem sagði, að jörðin snerist.

Hver var hann, þessi glæpamaður, sem vakið hafði slíka reiði? Hverjir voru glæpir þessa manns, sem dæmdur hafði verið til að mæta dauða sínum á þennan hryllilega hátt?

Þarna birtust þeir loks, þjónar kirkjunnar og réttvísinnar. Þeir leiddu á milli sín fölleitan, en þó rólegan mann, næstum þóttalegan. Hendur hans voru bundnar. Þetta var skáldið Giordano Bruno. Skáldið og heimspekingurinn, sem barðist fyrir skoðanafrelsi, þar sem andlegt frelsi var glæpur. — Múgurinn starir um stund og þegir. Prelátar ganga fram á móti honum með lítinn kross í hendi. Enn er e.t.v. ekki of seint að auðmýkja þennan mann, fá hann til að beygja sig, viðurkenna villu sína og óskeikulleika kirkjunnar. Sá dauðadæmdi horfir á prelátann með krossmarkið. — Hugur hans hvarflar til Vesúvíusar, eldfjallsins, sem rís yfir fæðingarbæ hans, Nola, hjá Napólí á Suður-

Ítalíu. — Hann sjálfur var eins og þetta fjall, — hið innra fullur af eldi, sem brauzt öðru hverju fram með þrumugný. Þess vegna var hann hér.

Ungur hafði hann klæðzt kufli svartmunksins, — en fleygði honum brátt aftur. Hann orti ljóð, las bækur eftir vafasama menn eins og Cusanus, Lullus og Telesio. Hann hætti að vera kaþólskur bókstafstrúarmaður og fór að hugsa frjálst. Hann sagði forheimskun aldar sinnar stríð á hendur og réðst beint að sjálfum Golíat hinnar klerklegu heimspeki, Aristoteles. Kirkjan og Aristoteles kenndu m. a., að jörðin hreyfðist ekki, hún væri óhagganleg. Himinninn var sagður festing úr gleri, veröldin takmörkuð og jörðin miðdepill alheimsins.

En meðan páfuglar aldarinnar létu sér nægja að skreyta stél sitt með lánsfjöðrum Aristotelesar, kannaði Bruno verk annarra fornra meistara, hafði vakandi auga fyrir því, sem var að gerast í kringum sig, og skildi þýðingu þess: Kólumbus hafði fundið Vesturheim, Vaskó da Gama siglt suður fyrir Afríku til Indlands og Magellan siglt kringum jörðina. Jörðin var hnöttótt. Nú þýddi ekki lengur að mæla á móti því. Hún studdist ekki við neitt, hvíldi ekki á neinni undirstöðu, en sveif um geiminn. — Bruno hafði lesið eftir Tycho Brahe, að sólin, en ekki jörðin, væri miðdepill himintungla. Kopernikus hafði sagt, að jörðin væri reikistjarna í ákveðnu sólkerfi og sólin væri miðdepill þess. Kepler hafði sannað þetta og

reiknað út brautir þessara reikistjarna. Og Bruno vissi hið sama og samtíðarmaður hans Galileo — að jörðin snerist um sólina og sjálfa sig.

Brynjaður með öllum þessum vísdómi hóf hann árás á glerhvelfingar Aristotelesar. — Þær eru ímyndun ein, boðaði hann. Himingeimurinn er takmarkalaus. Jörðin er ekki heldur óhagganleg. Hún snýst. Það er allt á hreyfingu, allt breytingum háð. Kirkjuhöfðingjarnir urðu óttaslegnir. Árás á kirkjuna, sögðu þeir. Þetta mundi afsanna óskeikulleika hennar. Himinninn getur ekki verið undir jörðinni! Þetta er árás á trúna, sagði rannsóknarréttur kaþólsku kirkjunnar. Við því var engin refsing of þung.

Og nú stóð Giordano Bruno hér fyrir framan þennan preláta með krossmarkið í hendinni. Prelátinn rétti fram krossmarkið. Bandinginn vék höfðinu til hliðar. „Hann neitar að kyssa róðukrossinn," hvísluðu hinir næstu til þeirra, sem fjær stóðu. „Óþokkinn, trúníðingurinn, guðleysinginn." Múgurinn öskraði og formælti.

Kirkjuhöfðingjarnir höfðu samt ekki gefið upp alla von um að fá þennan bannfærða mann til að játa villu sína. Í návist dauðans verður margur fús til að létta á samvizku sinni, — og ekki mundi þessum af veita. Áttu þeir að trúa því, að hann væri svo forhertur að vilja heldur stíga á þetta bál en viðurkenna kirkjuna sem hinn óskeikula dómara í öllum málum. Þeir báru honum líkneski af Kristi, boðbera sann-

leikans, sem lét líf sitt á krossi fyrir nær 1600 árum. Bruno horfir á Kristsmyndina. Aftur taka skyndimyndir að renna fyrir innri sjónir bandingjans.

Úr klaustrinu hafði hann orðið að flýja. Hann fór til Genúa og talaði þar opinberlega gegn Aristotelesi og hélt því hiklaust fram, að jörðin snerist! Lærðir menn kölluðu það absurdissima, — hina herfilegustu fjarstæðu, sem gæti aðeins verið sprottin af illmennsku eða guðleysi. Bruno varð að flýja til Toulouse. Hann setti þar allt í uppnám með boðskap sínum og bjargaði sér undan reiði borgarbúa með því að flýja til Parísar. Götur Parísar voru enn sleipar af blóði Hugenottanna, sem kaþólskir höfðu þá nýlega „aðstoðað við að komast til þess himnaríkis, sem þeir trúðu á". Giordano Bruno hélt þó rakleitt upp í Svartaskóla og skoraði þar á lærða menn til einvígis, — gætti þó tungu sinnar betur en fyrr, svo að honum var jafnvel boðið prófessorsembætti við skólann, — ef hann aðeins vildi sækja hámessu kaþólskra. Hann hafnaði boðinu og fór til Englands. Hann lagði þar til atlögu við Oxford, þessa „ekkju sannra mennta", eins og hann kallaði hana í háði. Það fór eins og hann hafði búizt við. Þessi lærða borg, þessi ekkja fornmenntanna, vakti upp hinn látna bónda sinn, Aristoteles, drauginn, sem Bruno barðist alls staðar við, hvar sem hann kom. En Bruno sigrar Oxford eins og Svartaskóla og fær leyfi til að flytja þar fyrirlestra. Hann fræddi Englendinga um eðli alheimsins, ódauðleika sálarinnar og hinn

ótakmarkaða guðdóm. Syni Vesúvíusar þótti þó Englendingar seinir til og heldur tornæmir og gerðist allstórorður í þeirra garð. Kvað hann þolinmæði Jobs ofraun að þola fáfræði þeirra og forpokun. Englendingar risu þá upp hinir reiðustu og ráku hann úr landi.

Næst skaut honum upp í Latínuhverfinu í París. Í Svartaskóla hafði hann aldrei lagt öll spilin á borðið. Nú skyldi úr því bætt. Á Signubökkum deildi hann við garpa Parísar í þrjá daga samfleytt um, hvort jörðin snerist eða ekki. Forsjónin hélt yfir honum hlífiskildi, og hann slapp lifandi frá París á flótta til Þýzkalands!

Í Würtemberg, höfuðvígi Lútherstrúarmanna, fékk hann loks góðar viðtökur, og í þessari „Aþenu Þýzkalands" naut hann sín bezt. Þar sat hann tvö ár í góðu yfirlæti. Hann hafði sigrað höfuðvígi Lútherstrúarmanna. Prag, höfuðvígi kaþólsku kirkjunnar utan Ítalíu, ögraði honum nú í austri. Þangað hélt hann. Þar mætti hann aftur þessum forynjum miðaldanna, sem hann hafði orðið að flýja undan borg úr borg og land úr landi. Hann hrökklaðist enn undan til Þýzkalands. Þýzkur þjóðhöfðingi einn bauð honum að setjast að við hirð sína og gerast kennari ríkisarfans. En stríðsmaðurinn Giordano Bruno átti enn eftir að leggja til orustu við myrkravöldin. Nú skyldi flóttanum hætt. Hann skyldi standa eða falla í sjálfu höfuðvígi andstæðinga sinna, höfuðvígi Aristotelesar.

Þetta vígi var Padua, borg á Ítalíu. Hann kom, sá og lagði á flótta til Feneyja. Þar var hann hlekkjaður og settur í svartholið. Flótta hans var lokið. — Í fangelsum Feneyja sat hann hlekkjaður í sex ár. Síðan var hann samkvæmt þrálátum kröfum rannsóknarréttarins leiddur til Rómaborgar.

Forseti þessa helga réttar, San Severino, reyndi að fá hann til að afneita öllum kenningum sínum opinberlega. Þegar það tókst ekki, var Giordano Bruno í viðurvist allra kardínálanna og annarra kirkjuhöfðingja dæmdur „til eins vægrar refsingar og hægt væri og án þess að úthellt væri blóði". Þetta þýddi á máli þessara manna, að skáldið Giordano Bruno skyldi brenndur á báli.

„Ég býst við, að þið dómararnir séuð slegnir meiri ótta en ég, hinn sakfelldi," var hið eina, sem hann hafði sagt. Síðan leiddu þeir hann út.

Og nú stóð hann hér, fá skref frá bálkestinum, og horfði rólegum augum á höfðingja kirkjunnar, sem rétti að honum líkan meistarans frá Nazaret, sem bauð mönnum að leita sannleikans og elska náunga sinn, en þessi sama þjóð, Rómverjarnir, hafði krossfest fyrir nær 1600 árum — og þóttist tilbiðja síðan. Var þetta þrátt fyrir allt ekki enn sama þjóðin? Gátu þessir hræsnarar með því að beita fyrir sig Kristsmyndinni fengið skáldið Giordano Bruno til að beygja sig fyrir fjandmanni sannleikans í kufli lærdómsmannsins, fyrir þjóni ranglætisins í kápu

dómarans og morðingjanum í skikkju dýrlingsins? Aldrei. — Bruno vék höfðinu aftur til hliðar. Múgurinn öskraði aftur og formælti. — Hann líktist soltnu ljóni, sem fengið hefur blóð á tönnina. — Og samt, þegar Bruno leit á kirkjuhöfðingjann, vissi hann í hjarta sínu, að síðustu orð sín í rannsóknarréttinum voru sönn.

Þeir bundu hann við staurinn. Böðullinn lyfti kyndli á loft. Bruno horfði á logann? — Hafði honum skjátlazt? Voru kenningar hans villa ein, villa, sem réttlætti þennan dóm? Hverju hafði hann haldið fram?

„Jörðin snýst", hafði hann sagt. Stjörnurnar eru óendanlega margar sólir. Það eru engar glerhvelfingar yfir jörðinni. Alheimurinn er endalaus, ótakmarkanlegur. Guð er til, og hann er líka ótakmarkanlegur — og því ekki í mannslíki. En getur þá verið til tvennt, sem hvort tveggja var ótakmarkanlegt, Guð og alheimurinn? Það var rökvilla. Þetta tvennt hlaut að vera eitt. Guð og veröldin eru eitt. Guð er í allri tilverunni. Þetta er ekki að afneita Guði, öðru nær. Þessi guð er óendanlega voldugri guði kaþólsku kirkjunnar, fannst Bruno. Hann kallaði sig því stundum Philotheos til að leggja með því áherzlu á, að hann ætti enga samleið með þeim, sem afneituðu tilveru guðdómsins. Guð, sagði Bruno, er ekki skapari veraldarinnar í venjulegri merkingu þess orðs, vegna þess að veröldin var ekki sköpuð. Hún hefur alltaf verið til. Hann er ekki heldur hin fyrsta orsök, sem

setur veröldina á hreyfingu, því að hreyfingin er eðli tilverunnar og á sér því ekki upphaf fremur en hún. Guð er þó hin eilífa uppspretta allra hluta. Hann er einnig sú elfur, sem frá þessari lind fellur. Og samt er hann að baki hennar; einingin að baki margbreytileikans.

Dauði er ekki til, aðeins breyting á gervi og aðstæðum. Allt er líf; eining andstæðnanna tveggja, efnis og anda.

Hafði honum skjátlazt? Voru þessar kenningar villa? Kaþólska kirkjan sagði, að þessar skoðanir hans væru glæpur. Skoðanafrelsi var glæpur. Umburðarlyndi gagnvart andstæðum skoðunum var ekki til. Grimmdin fylgir í kjölfar þröngsýninnar. Það skildi Giordano Bruno nú. Hann skildi nú, að saga baráttunnar fyrir andlegu frelsi í ófrjálsum heimi er jafnan skráð blóði og eldi.

Andspænis þessum höfðingjum, múgnum og böðlinum með kyndilinn í hendinni, stóð skáldið Giordano Bruno hljóður og rólegur. — Hann hafði barizt með sannleikanum til hinztu stundar, og óhræddur skyldi hann ganga gegnum þennan eld á fund dómara síns og allra manna.

Logarnir læstust um viðinn. — Múgurinn beið í ofvæni eftir að heyra kvalaóp þessa fordæmda manns. Þau komu aldrei. Múgurinn sá aðeins logana og reykinn, sem leið upp í þennan dularfulla himin, sem þessi „villutrúarmaður“ hélt, að jörð okkar snerist í.

# René Descartes

COGITO, ergo sum. Ég hugsa, þess vegna er ég til. Þessi orð hafa margir heyrt og sumir jafnvel deilt um. — Sá, sem sagði þau, var franskur heimspekingur, René Descartes.

Gáfur og hæfileikar einir skapa ekki afreksmann, — sízt heimspeking. Aðeins mikil vinna, lærdómur og lífsreynsla skapa meistarann.

Bæði Plató og Aristoteles höfðu varið allri æsku sinni til að afla sér lærdóms og reynslu, áður en þeir hófu starfsferil sinn. Þeir og margir fleiri héldu, að bezt væri að skipta ævinni í þrjá áfanga: lærdómsár, utanferð til að kynnast heiminum og afla sér víðsýnis og nýrra hugmynda, og loks í manndómsár, starfsár.

Descartes hélt þessa gömlu braut. Hann byrjaði á að læra það, sem hann taldi sig geta lært, af bókum. Eftir það ferðaðist hann um heiminn, tók virkan þátt í baráttu aldarinnar og las hina torskildu bók lífsins

sjálfs. Loks slíðraði hann sverð sitt, sneri fari sínu heim og tók í kyrrþey að rita bækur.

Um fyrsta áfanga ævi sinnar, lærdómsárin, kemst Descartes sjálfur svo að orði (í Discours de la Méthode, premiére partie): „Fróðleiksþorsti minn var óslökkvandi.“ Fræði Jesúítaskólans voru ekki næg til að svala honum. — „Og það var þess vegna, sem ég yfirgaf lærifeður mína, strax og aldur minn leyfði, og hætti lestri bóka. Ég ákvað að leita aðeins þess vísdóms, sem væri að finna í mér sjálfum og hinni miklu bók náttúrunnar (le grand livre du monde). Þess vegna fór ég utan og notaði það, sem eftir var æsku minnar, til þess að kynnast hirðum og herjum, blanda geði við ólíkt fólk af ýmsum stéttum, safna margvíslegri reynslu og þó framar öllu öðru að reyna að auðgast að nýjum hugmyndum.“

René Descartes Duperron fæddist í lok 16. aldar (31. marz 1596) í La Haye Touraine í Norður-Frakklandi. Hann var aðalsættar, og var fjölskylda hans rammkaþólsk. Nokkrir ættingjar hans höfðu gegnt virðingarstöðum í þjónustu ríkis og kirkju.

Móðir Descartes lézt úr tæringu skömmu eftir fæðingu hans. Sjálfur þótti sveinninn svo veiklulegur, að honum var lítt líf hugað. Öll uppvaxtarár sín átti hann við vanheilsu að búa. Þegar jafnaldrar hans, hinir upprennandi frönsku aðalsmenn, gengu til leika eða þeystu um héruð á gæðingum sínum, læddist Descartes eftir vegarbrúninni, fölleitur, gugginn og síhóst-

andi. Jafnan hafði hann með sér einhverja doðranta undir hendi, latínubók og grískukver, skræður um stærðfræði, rökfræði og mælskufræði.

Í Jesúítaskólanum í La Fléche þótti hann afbragð annarra nemenda. En Descartes galt aðeins keisaranum það, sem keisarans var. Í raun og veru geðjaðist honum illa að fræðum þessa Jesúítaskóla. Trúfræðsla þeirra gerði hann í hjarta sínu mótmælanda. En það varaðist Descartes að láta uppi fyrr en löngu seinna. Sömu óbeit fékk Descartes á heimspeki þeirra. — Aðeins stærðfræðina gátu þeir ekki sett krossmark sitt á, og við hana lagði hann því mesta rækt. Hún ein veitti anda hans öryggi, fasta jörð til að standa á. Það var hægt að efast um allar þessar andstæðu kenningar heimspekinga og um skáldskap þessara nútíma-fagurkera, sem kölluðu sig endurreisnarmenn. Allt þetta líktist, fannst Descartes, skrautlegum höllum, sem reistar voru á sandi og leir. Höll stærðfræðinnar hins vegar, hélt Descartes, að væri reist á bjargi. Hún ein var óyggjandi sannleikur. Og hér myndast í afstöðu unglingsins Descartes til námsefnis Jesúítaskólans kjarni þess heimspekikerfis, sem hann síðar setti fram.

Þegar Descartes því yfirgaf menntaskóla Jesúítanna 16 ára að aldri, var hann í hjarta sínu trúlaus á guðfræði og heimspeki aldarinnar, þótt hann gætti þess vandlega að láta ekkert slíkt uppi við strangtrúaða ættingja sína eða Jesúítana. Descartes var heilsuveill og vildi lifa í friði. Samt ól hann þöglar vonir um, að ein-

hvern veginn mætti takast að komast út úr þessu kæfandi andrúmslofti miðaldahugsunarháttar, út úr þokunni undir heiðan himin, þangað sem staðreyndir væru virtar og rök í heiðri höfð, þangað, sem frelsi ríkti og hægt væri að tala og skrifa án þess að verða ofsóttur eða brenndur á báli eins og Bruno t. d.

Descartes fór að heiman og hélt til höfuðborgarinnar, Parísar. Hann var aðalsmaður og fór til hirðarinnar. En franska hirðin í byrjun 17. aldar reyndist honum þó ekki sá heimur andans, sem hann leitaði að. Aðalsmennirnir fyrirlitu bækur og alveg sérstaklega þá, sem sömdu bækur. — Þeir lifðu hégómlegu yfirborðslífi í andlegum dauða sínum. Þeir efuðust ekki um neitt: Kirkjan var alvitur, ríkisvaldið óskeikult. Allar nýjar hugmyndir voru í þeirra augum villa, sem afmá skyldi með sverði aðalsins og eldi kirkjunnar.

Descartes flúði fyrst frá þessum mönnum út í eitt af úthverfum borgarinnar, og þegar félagar hans uppgötvuðu samastað hans þar, tók hann þann kost að yfirgefa um skeið föðurlandið og kirkju þess. Hann fór til Hollands, gekk þar í herinn og barðist með mótmælendum.

Andi framþróunarinnar, andi nýrra tíma velur sér jafnan einhverja ákveðna þjóð á hverjum tíma og gerir hana vaxtarbrodd mannkynsins. Á fyrri hluta 17. aldar voru Hollendingar hin útvalda þjóð. Þar var meira borgaralegt frelsi en í nokkru öðru landi, og framfarir á öllum sviðum urðu þar því mestar. Verald-

leg harðstjórn var þar brotin á bak aftur, og kaþólska kirkjan hafði þar misst tök sín.

Þetta var land fyrir heimspekinginn Descartes. Hér stóð andlegt líf hæst, og hér var þjóðfélagsþróunin örust. En aðalsmaðurinn Descartes varð órólegur: Átti hann að segja skilið við kaþólsku kirkjuna, við fjölskyldu sína, við ætt sína? Blóð er þykkara en vatn. Nei, ætt sinni gat hann ekki brugðizt, ekki kirkju sinni og stétt. Þrjátíuárastríðið var hafið í Þýzkalandi, uppgjörið milli hins nýja og hins gamla, milli mótmælenda og kaþólskra. Og Descartes fór frá Hollandi og dró sverð sitt úr slíðrum í nafni hinnar kaþólsku kirkju sinnar og ættar sinnar og barðist nú í her keisara móti þeim málstað, sem hann barðist fyrir í Hollandi.

En þrjátíuárastríðið var einnig háð í sál Descartes, og þar veitti fylkingu hins nýja tíma betur: Í hinum andlega heimi álfunnar var hver höndin upp á móti annarri, mannkynið varð að komast út úr þokunni og finna hina sönnu trú, hina sönnu heimspeki. En hver var hún? Tilveran er öll í samræmi, allt lýtur ákveðnum, rökréttum lögmálum — líkt og stærðfræði, — stærðfræðin var óyggjandi. Hvers vegna gátu menn ekki orðið sammála um trúna og lífið eins og stærðfræðina? Var það ekki vegna þess, að þeim hafði aldrei dottið í hug að nota lögmál stærðfræðinnar sem lykil lífsskilningsins, nota stærðfræðina til að byggja upp hina sönnu heimspeki? Ef aðeins væri hægt að finna, hvernig stærðfræðin væri hliðstæð tilverunni, væri

hægt að gera trú og heimspeki jafnóyggjandi og stærðfræðina sjálfa.

Um þetta allt braut Descartes heilann, þar sem hann barðist undir merki keisarans og kaþólsku kirkjunnar, — og loks hætti hann að berjast og fór heim til Frakklands aftur og reyndi að gleyma þessum hugleiðingum í gleðskap Parísarborgar. Það tókst ekki. Hann ferðast á ný, fer til Ítalíu, til Rómaborgar. Á meðan er barizt í heimalandi hans, Frakklandi. Kaþólskir berjast við Húgenotta, mótmælendur. Descartes kemur heim nógu snemma til að taka þátt í síðustu viðureign þeirra, sem lýkur með því, að La Rochelle, höfuðvígi mótmælenda, fellur. En Descartes hlýtur að hafa verið undarlega innan brjósts. Richilieu hafði sigrað. Ríkisvaldið var einrátt og lagði allt einstaklingsfrelsi í fjötra. Kaþólska kirkjan hafði sigrað og lagði allt andlegt frelsi manna í fjötra. Og aðalsmaðurinn Descartes hafði hjálpað til þess að skapa þjóðfélagsaðstæður, sem dæmdu heimspekinginn Descartes til dauða! — þann Descartes, sem lagt hafði mótmælendum og hinum nýja tíma frelsisins lið í Hollandi.

En heimspekingurinn Descartes vill ekki deyja. Hann flýr Frakkland og kveður aðeins nánustu vini sína. Hann fer til Hollands, landsins, sem engan ofsótti fyrir að hafa nýjar hugmyndir og rita bækur. — Þannig hefst þriðja og síðasta tímabil hans: starfsárin.

Fjórum árum síðar hefur hann lokið fyrstu bók sinni, Cosmos. Bókin var komin í prentun, þegar

fregnir bárust um, að vísindamaður einn, Galileo að nafni, hefði verið fordæmdur af kaþólsku kirkjunni fyrir að halda fram þeirri villukenningu, að jörðin snerist. En nú hafði Descartes einnig í verki sínu, Cosmos, sett fram sömu skoðanir og Kópernikus og Galíleo. Descartes vissi, að kirkjan mundi því einnig fordæma þetta rit. Jafnvel bróðir hans hafði lýst yfir fyrirlitningu sinni á því starfi Descartes að rita bók. Átti hann nú líka að kalla yfir sig reiði kirkjunnar? Hann lét stöðva prentun bókarinnar og stakk henni undir stól.

Önnur fjögur ár liðu, áður en Descartes lét bók frá sér fara. Það var kver um heimspeki, sem hann kallaði Discours de la Méthode. Í þessari bók, sem er raunar aðeins kafli í stærra riti, Essais Philosophiques, er kjarni heimspeki hans fólginn, — og skal hennar nú að nokkru getið.

# Heimspeki Descartes

DESCARTES er kallaður faðir nútímaheimspeki, heimsmyndunarfræði og sálfræði. Framar öllu öðru var hann þó stærðfræðingur. Heimspeki hans öll var hömruð í smiðju rúmfræðinnar og tók á sig mynd teningsins. Hann sjálfur var hinn fyrsti punktur í þessum tening, guð var hin fyrsta lína, veröldin var flöturinn, siðfræði, trú, vísindi, listir og allir aðrir hlutir í ríki mannssálarinnar voru hæðarlínur, sem risu á þessum fleti.

Alla sanna þekkingu og alla sanna heimspeki hélt Descartes, að hægt væri að fella inn í reglur rúmfræðinnar. Hann segir m. a. í bók sinni, Descours de la Méthode: „Mér geðjaðist vel að stærðfræði vegna þess, hve sannanir hennar voru óyggjandi og sjálfsagðar, en þó hafði ég ekki enn sem komið var uppgötvað hið sanna hlutverk hennar.“ — Og á öðrum stað segir hann: „Þessar löngu keðjur af rökfræðilegum ályktunum, bæði einföldum og auðveldum, sem rúmfræðingar nota til að setja fram hinar erfiðustu sannanir, urðu til þess, að ég fékk þá hugmynd, að allt, sem kynni að birtast í vitund mannsins, *kynni að vera tengt saman á sama hátt* og að engin sannindi væru svo fjarlæg, að ekki mætti komast til þeirra að lokum, engin svo djúpstæð, að ekki væri hægt að uppgötva þau, ef menn gættu þess aðeins að veita engu því viðtöku, sem ekki

væri sannleikur, og ef menn gættu þess að draga jafnan rétta ályktun af staðreyndum."

En hvernig átti Descartes að koma heimspekinni yfir á þennan grundvöll skynseminnar? Kirkjan réð yfir hugum manna. Hina gömlu, grísku heimspeki hafði hún klætt í búning miðaldanna, og við hana bættist svo heimspeki kirkjufeðranna. — Descartes hafði vissa óbeit á þessari heimspeki. Hvernig gat hann sett fram sína nýju heimspeki án þess að lenda í beinni andstöðu við kirkjuna og stétt sína? Descartes tók það ráð að þvo spjald heimspekinnar hreint og byrja algerlega að nýju. En fyrst hann byrjaði ekki heimspeki sína á sama hátt og kirkjufeðurnir og hinir gömlu, grísku heimspekingar, á hverju gat hann þá byrjað? — Þegar stærðfræðingur fær dæmi til úrlausnar, verður hann að fá gefnar upp einhverjar ákveðnar stærðir, sem áður hafa verið sannaðar eða eru augljósar. En hver var þessi stærð, sem Descartes gat gefið sér upp? Var nokkuð það til, sem Descartes gat vitað með fullri vissu, að væri óyggjandi sannleikur? Var til nokkur sönnun fyrir því, að öll skynjun mannsins væri ekki tóm skynvilla? Hvernig getum við vitað, að heimurinn sé í raun og veru til, en sé ekki aðeins blekking eða gerningar einhvers ills anda? — Dreymir okkur ekki um lönd og borgir, og þegar við vöknum upp af draumi okkar, — hvar eru þá þessi lönd og þessar borgir? Þær eru hvergi til nema í draumi okkar. — Og getur nú ekki verið, að við vöknum upp af draumi lífsins einn góðan veðurdag

og spyrjum undrandi: Hver er þessi jörð okkar og þessi heimur, sem við lifðum í? — Og við verðum þá e.t.v. að svara á sama hátt: Hann var hvergi til nema í draumi okkar! — Og þannig, segir Descartes, getum við efazt um alla hluti í jörðu og á. — En er þá ekkert öruggt, enginn fastur punktur til að draga línu út frá?

Bíðum við. Eitt höfum við þegar uppgötvað, eitt er þó a.m.k. alveg víst: Við efumst. Að efast er að hugsa. Því meira sem við efumst, þeim mun meira hugsum við. Þannig getum við fullyrt, að við hugsum: Maðurinn hugsar. Að hugsa er að vera til! Og þannig hefur Descartes tekizt að festa hinn fyrsta punkt á þetta auða spjald heimspekinnar: Cogito, ergo sum. Ég hugsa, þess vegna er ég til!

En í raun og veru efaðist Descartes aldrei um tilveru sína eða veraldarinnar. Hann aðeins læzt efast. Sannir efasemdamenn eins og Sextus og Montaigne efuðust, vegna þess að þeim tókst ekki að komast að neinni niðurstöðu. Descartes læzt efast til þess eins að komast sem auðveldlegast að fastri niðurstöðu.

Þetta er ekki heldur aðferð kirkjufeðranna: Ég trúi til þess að geta skilið, höfðu þeir sagt. Ég verð að efast til þess að geta skilið, segir Descartes. Þannig heldur Descartes með þessu inn á nýjar brautir, sem leiða til þeirrar heimspeki, sem við á okkar tímum köllum „nútímaheimspeki".

En þessi fræga setning Descartes: Cogito, ergo sum, sem er fyrsti punkturinn í heimspeki hans, segir þó í

sjálfu sér ekki mikið, og sem sönnun um tilveru er hún einskis virði. Fjölmargir heimspekingar alveg frá dögum Gassendi hafa orðið til að ráðast á þessa setningu og sýnt fram á, að ekki sé hægt að sanna á þennan hátt tilveru mannsins rökfræðilega án þess að gera sig sekan um „petitio principii", eins og Gassendi orðar það, — þ.e.a.s. höfuðforsendunni: „Það, sem hugsar, er til," er slegið fastri, en hún er ekki sönnuð. Sem rökfræðileg sönnun er því Cogito, ergo sum aðeins hringur, þar sem við komum aftur til sama staðar og við héldum frá. Þessi gagnrýni er þó ástæðulaus, þar sem Descartes hefur aldrei ætlað sér að fara að sanna sína eigin tilveru rökfræðilega. Hún er augljós staðreynd utan og ofan við alla rökfræði og engar efasemdir geta skyggt á þessa staðreynd. Descartes þurfti nauðsynlega á þessum punkti að halda, og fyrir honum þarf enga sönnun. Meðvitundin, sjálfsvitundin, sannar sig sjálf. — Þannig verður sjálfsvitund mannsins grundvöllur alls sannleika, allrar þekkingar. Descartes biður okkur að kanna okkar eigin vitund og hin skýru svör hennar, því að þau eru þekking og sannleikur. — En er þetta nokkuð annað en það, sem Sókrates og margir aðrir höfðu áður kennt: „Þekktu sjálfan þig." Á vissan hátt er þetta líkt. En hvernig eiga menn að fara að því að þekkja sjálfa sig? Með því að kanna eðli hugsana sinna? Það gerum við öll — án verulegs árangurs. Með því að leita í djúp hugans? Venjulegir menn verða venjulega ekki miklu nær við slíkar til-

raunir. Með því að kanna rás hugsana sinna og tengsli þeirra? Það hafði þegar verið gert, og rökfræði Aristotelesar varð niðurstaðan. — En hvað leggur þá Descartes til málanna? Hann biður okkur að hlýða á svör okkar eigin vitundar. Allt, sem við skiljum ljóst og greinilega, er sannleikur, staðreyndir. Allar augljósar hugmyndir eru sannleikur, staðreyndir, sem mynda grundvöll allra vísinda. Í leit okkar að þessum staðreyndum gefur Descartes okkur þessar fjórar reglur:

1) Að veita aldrei neinu viðtöku öðru en staðreyndum, sem eru svo augljósar, að engin ástæða sé til að efast um þær.

2) Að skipta hverju viðfangsefni niður í eins margar greinar og hægt er. Eftir því, sem viðfangsefnið er greint í fleiri hluta, er auðveldara að kanna hvern einstakan hluta þess til hlítar, en það verður aftur til þess, að meiri þekking næst á viðfangsefninu í heild (analysis).

3) Að framkvæma allar rannsóknir á skipulagsbundinn hátt, þannig að byrjað sé á hinu einfaldasta og þá um leið augljósasta atriði og rekja sig síðan áfram smátt og smátt til hinnar margbrotnustu þekkingar (synthesis).

4) Að vera nákvæmur í öllum útreikningum og taka allt með í reikninginn, svo að tryggt sé, að mönnum sjáist ekki yfir neitt, sem máli skiptir.

Þar sem vitundin er grundvöllur allrar vissu, hlýt-

ur allt, sem við skiljum skýrt og greinilega, að vera staðreynd, nema hugmyndin sé ímyndun ein.

Þessar fjórar reglur eru sú hlið heimspeki Descartes, sem einkum snýr að sálfræðinni, og vegna þeirra m. a. hefur hann verið nefndur faðir sálfræðinnar.

Hin augljósa tilvera sjálfsvitundarinnar verður þannig, eins og áður er sagt, fyrsti punkturinn, sem Descartes setur á þetta auða spjald heimspekinnar. Og nú getur hann dregið línu út frá þessum punkti, línu, sem er samnefnari allra punkta. Punkturinn er sjálfsvitundin, línan er guð, samnefnari allrar vitundar.

Hvort hin persónulega afstaða Descartes til kaþólsku kirkjunnar hefur stýrt penna hans í hinni rökfræðilegu sönnun hans á tilveru guðs, skal ekki rætt hér, þó að við komumst varla hjá að álíta, að undir niðri hafi Descartes vitað, að allar tilraunir til að *sanna* tilveru guðdómsins rökfræðilega hafa alltaf mistekizt og hljóta að mistakast, vegna þess að hið ótakmarkaða verður ekki takmarkað og skynsemin nær aðeins til sinna eigin afmörkuðu heima. — En hvað Descartes kann að hafa hugsað um þetta í einrúmi, skiptir hér ekki máli. Descartes lifði á þeim tímum og við þær aðstæður, að hann *varð* að láta það verða sitt fyrsta verk í heimspeki sinni að sanna tilveru guðs í anda kirkjufeðranna. Samt varð þó Descartes að taka tillit til síns eigin boðorðs: „Aðeins það, sem ég skil ljóst og greinilega, get ég verið viss um, að sé til.“ Nú er það augljóst,

segir Descartes, að ég er til, vegna þess að ég hugsa. En hvað er hugsun? Hún er hugmyndir, sem við fáum; fylking hugmynda; ríki hugmynda. En hver er konungur í þessu ríki hugmyndanna? Hver af þessum hugmyndum okkar er mest og voldugust? Sú, sem nær hæst og stendur dýpst, hugmyndin um fullkomleikann, hið eilífa og ótakmarkaða, í einu orði sagt: hugmyndin um guð. Descartes hafði komizt að þeirri niðurstöðu, að sú hugmynd, sem við skildum skýrt og greinilega, væri veruleiki. Ætti þá sjálfur konungurinn í ríki hugmynda okkar að vera blekking ein? Slíkt er óhugsandi, segir Descartes, og þetta eitt nægir til að sanna, að guð sé til. — En er þá ekki hugsanlegt, að þessi hugmynd sé aðeins ímyndun, því að getum við ekki skilið hugmynd skýrt og greinilega, sem er aðeins ímyndun? Descartes segir, að þessi hugsun geti ekki verið ímyndun. Og hvers vegna ekki? Fyrst og fremst vegna þess, að hugmynd, sem er ímyndun, er fóstur hugans. Hugur okkar er takmarkaður og fóstur hans þess vegna háð þessum takmörkunum. Hugmyndin um guð aftur á móti er án takmarkana: Hún er hugmynd um hið fullkomna, hið eilífa og ótakmarkaða. Ergo: Þessi hugmynd getur ekki verið ímyndun, fóstur hugans. Hún hefur aðeins getað komið frá guði. Ergo: Guð er til.

Og Descartes hefur einnig aðra sönnun á takteinum. Sú sönnun byrjar á hinu einfalda og sjálfsagða eins og allar aðrar sannanir hans. „Við lifum," segir hann, „en hver er orsök lífs okkar? — Þið svarið og

segið, að það séu foreldrarnir. En hver var orsök þeirra? Afar okkar og ömmur, og þannig er hægt að halda áfram að rekja sig frá einni orsök til annarrar, — þangað til við hljótum að komast til botns í þessari orsakakeðju og komast til hinnar fyrstu orsakar. Og hvað er þessi fyrsta orsök allrar tilveru annað en það, sem við köllum guð? — Allir hlutir eiga sér hina fyrstu orsök. Ergo: Guð er til.

Og Descartes setur fram þriðju sönnunina um tilveru guðdómsins: Ef við nú skiljum, að eitthvað sé í öllu og nái til alls, þá hlýtur það að vera veruleiki í mér og í þér og öllu öðru. Og nú skiljum við skýrt og greinilega, að tilvera guðs er falin í sjálfri hugmynd okkar um guð: Það er að segja guðsvitundin er í sjálfsvitundinni, og þess vegna er jafnaugljóst, að guð er til eins og það, að maðurinn er til. Þetta er ein af dýpstu hugsunum Descartes og hefur haft mikil áhrif á marga síðari tíma heimspekinga.

Þessar þrjár sannanir Descartes um tilveru guðdómsins geta þó margir greindir og rökvísir menn ekki skoðað sem neinar óyggjandi sannanir, heldur aðeins sem röksemdafærslur.

Í fyrsta lagi, segja þessir menn, er alls ekki sannað, að hugmyndin um guð komi frá guði. Það er alls ekki sannað, segja þeir, að hugurinn, sem skynjar heim hins takmarkaða, búi ekki sjálfur til mótsögn þess, — hið ótakmarkaða og fullkomna, hugmyndina um guð. Sumir menn hafa ekki þessa hugmynd, segja þeir. Aðrir

hafa tekið hana frá hinum fullorðnu, sem skýrðu þeim frá öllu þessu í bernsku.

Í öðru lagi vilja þessir menn ekki fallast á, að Descartes hafi tekizt að sanna guð stærðfræðilega með því að halda fram, að það hljóti að vera til hin fyrsta orsök og að guð sé þessi orsök. Það er ósannanlegt, segja þeir, að þessi fyrsta orsök sé til, — og þó að hún væri til, er það enn ósannað, að hún svari nákvæmlega til hugmyndarinnar um guð. — Og að lokum, segja þeir, ef guð er augljós og óumdeilanlegur veruleiki í sál mannsins, hvers vegna eru þá til menn, sem efast um tilveru guðs?

Við skulum yfirgefa þessar deilur guðfræðinga og heimspekinga. Þær leiða ekki til neins. Þær sanna ekkert og afsanna ekkert, rökfræðilega. Eins og áður er sagt, eru allar tilraunir til að takmarka hið ótakmarkanlega vonlausar. Skynsemi manna nær ekki út fyrir sjálfa sig til neins, sem stendur henni ofar.

Í upphafi heimspeki sinnar lézt Descartes ekki vita, hvort þessi heimur Þrjátíuárastríðs og storma væri veruleiki. Hugsazt gæti, að hann væri blekking, tóm leiksýning einhvers ills anda. Heimspekilega séð gat hann aðeins fullyrt: Cogito, ergo sum. Ég hugsa, þess vegna er ég til. En þetta, eins og við höfum nú séð, taldi hann, að sannaði tilveru guðs. Og nú fyrst, eftir að hann hefur sannað tilveru guðs, telur hann sig hafa leyfi til að fullyrða, að heimurinn sé til. Fyrst guð er til, segir hann, getur ekki verið um neinn ill-

an anda að ræða, sem lætur okkur skynja það, sem ekki er til. Guð getur ekki blekkt okkur. Sannleikurinn er sjálft eðli hans. Ergo, veröldin er til. Hún er flöturinn, sem línur guðdómsins mynda.

Þannig verður guðshugmynd Descartes tengiliður milli sjálfsvitundarinnar og hinnar ytri tilveru. Allt þetta á rót sína að rekja til guðdómsins.

En fyrst allt á nú rót sína að rekja til guðs, hvers vegna, spyrja menn, er þá hið illa til, hvers vegna hið ranga og ósanna?

Descartes svarar þessu á sinn hátt: Maðurinn á sér að vísu skilning, jafnvel guðlegan skilning, — en þessi skilningur er takmarkaður. Maðurinn á sér einnig vilja. Viljinn er ekki takmarkaður á sama hátt og skilningurinn. Þess vegna nær viljinn stundum langt út fyrir skynsemina. Og þar sem þannig er ástatt, að vilji og vitsmunir haldast ekki í hendur, verður villan til. Þegar vilji mannsins fer á undan vitsmunum hans, fer maðurinn villur vegar. Ef hann bæri aðeins gæfu til að láta viljann bíða eftir vitsmununum, væri hinu illa og hinu ranga afstýrt. En hvers vegna gefur guð okkur þá vilja, sem rekur okkur í snörur villu og yfirsjóna? Viljinn skapast af hvötum okkar. Þessar hvatir eru okkar lífsnauðsyn, því að án þorsta t. d. vissum við ekki, hvenær við ættum að drekka, án hungurs vissum við ekki, hvenær við ættum að neyta matar o. s. frv. Þannig eru hvatir óhjákvæmilegar, þótt þær geti orðið skaðlegar. Hvatir skapa viljann.

Þess vegna er vilji óhjákvæmilegur. Guð hefur gefið manninum bæði vilja og vitsmuni, og það er hlutverk mannsins að sjá svo um, að þetta tvennt verði samferða, en farist ekki hjá. — En hvers vegna, malda andmælendur Descartes í móinn, skapaði alfullkominn guð ekki alfullkominn heim? Hvers vegna er vit mannsins t. d. ekki í algerðu samræmi við vilja hans? — Og hér vandast málið, — nema ef við ættum að láta okkur detta í hug, að þrátt fyrir allt hafi guð enn ekki lokið þessari sköpun sinni.

Námsefni Jesúítaskólans, sem Descartes hafði, eins og áður er sagt, litlar mætur á, hefur samt sett mark sitt á skoðanir Descartes, og skýrast kemur þetta í ljós, þegar hann ræðir um sambandið milli guðs og veraldarinnar, efnið og andann, sálina og líkamann. Sú skoðun hans, að andi og efni, líkami og sál eigi ekkert sameiginlegt, er sama heimspeki og Tómas Aquinas hafði sett fram áður, á sama hátt og hin stærðfræðilega sönnun hans á tilveru guðdómsins er að mestu samhljóða St. Anselm. Gríska heimspekin (Plato) talaði um hold og anda, tvær andstæður, sem ættu ekkert sameiginlegt. Miðaldakirkjan tók í sama streng og boðaði krossferð gegn holdinu, andstæðu andans. Og Descartes segir í beinu áframhaldi af þessu, að líkaminn sé allt það, sem sálin sé ekki, og sálin allt það, sem líkaminn sé ekki. Í líkamanum er ekkert til nema efni. Sálin er ekkert nema hugsun. Sálin á sér ekkert rúmtak. Allt í líkamanum á sér rúmtak. Sálin er frjáls,

líkaminn fjötraður af umhverfi og staðháttum. Á sama hátt er ekkert sameiginlegt með efni og anda, en hvort tveggja er til, hlið við hlið, en getur þó aldrei samlagazt og orðið að einu. Þetta er kölluð tvíhyggja. Þessa tvíhyggju Descartes hafa margir síðari tíma heimspekingar reynt að brjóta niður, en út í það er of langt mál að fara hér. Menn verða af rökfræðilegum ástæðum að telja, að tilveran sé af einni rót. Síðari tíma heimspekingar skiptu sér því í tvær meginfylkingar, sem deildu um það, hvort þessi rót væri efnið eða andinn. Sumir sögðu, að ekkert væri til nema efnið (efnishyggjumenn). Aðrir sögðu, að ekkert væri til nema andinn (idealistar). En báðum þótti sjálfsagt að byggja þessa skiptingu á kenningu miðaldakirkjunnar og Descartes um efni og anda. Þriðja leiðin er að viðurkenna tilveru anda, orku og efnis, en skoða þó allt þetta sem eitt og hið sama í innsta eðli sínu. Þessa leið hafa einnig margir heimspekingar farið og jafnvel vísindamenn á síðustu tímum.

Heimspeki Descartes hafði geysileg áhrif á andlegt líf Vesturlanda. Deilur hans bergmáluðu um alla álfuna. Hann réðst ekki beint á hið gamla. Reyndi hann ekki meira að segja að verja miðaldakirkjuna? Sú vörn hafði þveröfug áhrif: La Mattric sækir til hennar grundvöll kenningar sinnar um „vélmennið“, Locke, David Hume og Kant byggja allir á kenningu Descartes um efni og anda, sál og líkama sem fullkomnar andstæður. Á hinn bóginn verður Des-

cartes einnig fyrirrennari heimspekinga eins og Spinoza, Berkeley og Schopenhauers, sem leggja áherzlu á, að ekkert sé til nema andinn. Af þessum orsökum hefur Descartes orðið tengiliður milli miðaldaheimspekinnar og nútímans.

Flestar kenningar Descartes hafa sætt harðri gagnrýni, en þær hafa gefið mönnum nóg til að hugsa um. Allir finna þar eitthvað til að samþykkja og eitthvað til að rífa niður. Og einmitt á þennan hátt sáði þessi varfærni maður, Descartes, fræjum stórra byltinga í akur vestrænnar menningar.

Með því að lifa heilbrigðu lífi og með því að gæta ýtrustu varkárni í sambandi við rit sín tókst Descartes að lifa fram á sextugsaldur. Frægð hans barst víða, og Karl I. Englandskonungur og Katrín Svíadrottning buðu honum til hirða sinna. Descartes þekktist síðara boðið og fór til Svíþjóðar 1649. Drottning hafði lesið bækur Descartes, og nú fór hún fram á, að hann kæmi til sín morgun hvern um fimmleytið og ræddi við sig heimspeki. Það varð svo að v era. Descartes var vanur að liggja fram eftir á morgnana, auk þess var hann vanur mildara loftslagi. Þessir köldu morgnar hjá drottningunni urðu honum um megn. Hann kvefaðist, fékk síðan lungnabólgu og sagði skilið við þennan heim. — Drottningin lét grafa hann í grafreit fyrir útlendinga. — Nokkrum árum síðar var hann grafinn upp og jarðneskar leifar hans fluttar til Parísar og grafnar í St. Geneviéve du Mont. Síðan

voru þær enn fluttar til Saint-Germain des Prés, þar sem þær hvíla nú.

Descartes hafði raunar með ritum sínum unnið manna mest að því að víkja „trú“ miðaldakirkjunnar úr hásæti og lyfta skynseminni þangað í hennar stað. Descartes vissi alltaf, hvílíka mótmælaöldu og ofsóknir slíkt hlaut að vekja. Þess vegna var hann svo varkár í ritum sínum, og þess vegna taldi hann sig bezt geymdan í Hollandi. Og varkárni Descartes var ekki ástæðulaus. Mótmælaaldan kom, — en of seint til að senda Descartes til himins í „eldvagni“. Hann hafði þá lokið hlutverki sínu og lá óhagganlegur í gröf sinni í St-Germain des Prés.

# Benedikt Spinoza

SPINOZA var göfugastur og mildastur meðal manna, og samt var hann bannfærður og ofsóttur fyrir að kenna mönnum að leita sannleikans og virða frelsið. Hann lifði á 17. öld. Sú öld var öld stórra átaka milli kyrrstöðu og dauða hins andlega heims miðaldanna og anda hins nýja tíma.

Höfuðvígi miðaldanna var þá Spánn, en vaxtarbroddur mannkynsins, land hins nýja tíma, Holland. Á Spáni lagði alveldi kaþólsku kirkjunnar allt andlegt frelsi í fjötra og hélt mannsandanum fanga í dimmum myrkvastofum einræðisins. — Allir, sem í trúmálum lutu ekki boði hennar, hrökkluðust úr landi eða voru pyndaðir í fangelsum eða brenndir á báli. Rannsóknarrétturinn hafði vakandi auga með hverjum manni. Einn var þó sá flokkur manna á Spáni og Portúgal, sem varð alveg sérstaklega hart leikinn í þessum trúarofsóknum. Það voru Gyðingar. — Öldum saman hafði þjóðbraut þeirra að austan og sunn-

an legið til Spánar og Portúgals, og á 16. öld skiptu þeir þúsundum. Þeir héldu þar lengi fast við trú sína, og margir þeirra höfðu verið pyndaðir og brenndir; hinir, sem eftir lifðu, játuðu í orði kveðnu kaþólska trú, en héldu þó leynilega við trú feðranna. Þeir undu því hag sínum stórilla á Spáni og voru farnir að svipast um eftir nýjum samastað. Á síðari hluta 16. aldar fréttu þeir af lítilli þjóð í norðri, sem að sögn hafði ekki aðeins rænt landi sínu úr ríki Ránar, heldur hafði hún einnig sigrað harðstjórann spænska og brotizt undan valdi kaþólsku kirkjunnar. Þessi þjóð, hermdi sagan, bauð nú hverjum manni trúfrelsi, — einnig Gyðingum. Sagt var og, að þessi litla þjóð væri að verða ein auðugasta þjóð álfunnar og mesta verzlunarþjóð heims. Og Gyðingarnir ályktuðu, að hér mundi þjóð við sitt hæfi, þjóð, sem byði þeim trúfrelsi, athafnafrelsi og velmegun. Hópum saman flykktust þeir um og eftir aldamótin 1600 til þessa nýja, fyrirheitna lands. Í Hollandi reistu þeir svo samkunduhús í Amsterdam, þar sem þeir iðkuðu trú feðra sinna óáreittir af kirkju og ríki. Gyðingarnir komu ár sinni vel fyrir borð, þeir stunduðu verzlun og iðnað í borginni (Amsterdam) og nutu atorku sinnar í þessu nýja landi frelsisins. Meðal þessa fólks voru foreldrar manns, sem síðar varð af sumum nefndur „annar Gyðingur mannkynssögunnar“. — Þetta var heimspekingurinn Spinoza.

Baruch Despinoza eða Benedikt Spinoza, eins og hann kallaði sig síðar, er fæddur í Amsterdam árið

1632. Faðir hans var kaupmaður og bjó skammt frá portúgalska samkunduhúsinu, sem var hin andlega miðstöð þessara hollenzku Gyðinga. Spinoza lék sér við þetta hús sem barn, og þegar hann stálpaðist, sat hann í skólastofum þess og drakk í sig sál þess, hina semetísku menningu, sem var orðin gömul, áður en vestræn siðmenning leit dagsins ljós. Spinoza drakk í sig áhrif þessa húss ásamt Gamla testamentinu á hebresku. Hann las einnig Talmud og Kabbala og kynntist auk þess ritum „síðari tíma" heimspekinga frá alexandríska tímabilinu. Sveinninn þótti einstakur í sinni röð. Hann lærði allar bækur skólans utan að, og loks var enginn ritningarstaður í þessum gömlu fræðum, sem Spinoza hafði ekki á takteinum. Fyrirmenn samkunduhússins tóku að líta á Spinoza sem líklegan foringja og leiðtoga í andlegum málum.

En hinn nýi andi aldarinnar var einnig á sveimi yfir þessu gamla húsi hins gyðinglega rétttrúnaðar. Og Spinoza lagði eyrun við rödd hans. Það var rödd Brunos og Descartes, er spurði og spurði sífellt nýrra spurninga og lét hinar gömlu kennisetningar aldrei í friði. Og Spinoza fór sjálfur að spyrja lærifeður sína í samkunduhúsinu erfiðra spurninga, sem þessir lærðu menn gátu ekki svarað. Hann lét jafnvel Gamla testamentið ekki í friði: „Hvers vegna," spurði Spinoza, „er t. d. hvergi minnzt á ódauðleika sálarinnar í Gamla testamentinu?" Gyðingarnir fullyrtu, að það væri, og útskýrðu það fyrir honum. Spinoza vissi eins

mikið og þeir og þótti skýringar þeirra reka sig á vegg staðreyndanna og þótti þær líkjast röksemdum manna, sem urðu að trúa og voru fyrir fram ákveðnir í að trúa sínum kennisetningum og var því alveg sama um sannleikann. — Spinoza hélt áfram að spyrja og malda í móinn. — Öldungarnir lásu honum pistilinn og ávítuðu hann fyrir virðingarleysi fyrir gráum hærum og ræktarleysi við samkunduhúsið: Hélt Spinoza, að hann vissi betur en Móses og spámennirnir? — Þessar ræður vöktu andúð Spinoza. Hann tók því að leita út fyrir sali samkunduhússins og þennan fornlega hugmyndaheim hins sanntrúaða Gyðings.

Á hinn bóginn fór Spinoza eftir öllum lögum þjóðar sinnar í veraldlegum málum. Það var t. d. skylda hvers ungs Gyðings að læra einhverja iðn, sem hann síðar gæti stundað og unnið fyrir sér með. Þeirri skyldu brást Spinoza ekki. En hann valdi ekki hinar gömlu, almennu iðngreinar, heldur hina nýjustu og óvenjulegustu, sem þá var til: Hann fágaði stækkunargler í sjónauka og smásjá, sem hvort á sínu sviði drógu tjaldið frá áður óþekktum heimum: heimi óendanlegrar stærðar og óendanlegrar smæðar.

Spinoza tók, eins og áður er sagt, að leita út fyrir samkunduhúsið og lagði lag sitt við „fríhyggjumenn“, sem sumir kölluðu „guðleysingja“. Helztur þessara kunningja hans var Van der Ende. Spinoza lærði hjá honum latínu og las úr safni hans bækur eftir Giordano Bruno og Descartes.

Allt þetta olli miklum vonbrigðum hjá fólki hans, Gyðingunum, því að þeir höfðu gert sér vonir um, að Spinoza yrði einn af forystumönnum þeirra, — yrði Rabbí.

Loks kærðu tveir skólabræður hans, sem farið höfðu halloka fyrir honum í kappræðum, hann fyrir öldungum samkunduhússins og sögðu, að Spinoza talaði gegn trú feðra sinna. Spinoza var kallaður fyrir dóm. Öldungarnir ávítuðu hann þunglega. Spinoza andmælti þeim og glotti að hótun þeirra um bannfæringu. Öldungarnir urðu hljóðir við og sendu hann burtu. Þeir hugsuðu ráð sitt. Hér stoðuðu auðsælega engar fortölur og hótanir. Sérstök sendinefnd var send heim til Spinoza. Erindi hennar var að bjóða honum 1000 gyllini á ári, ef hann aðeins vildi hafa hljótt um skoðanir sínar og láta sjá sig öðru hverju í samkunduhúsinu! Spinoza svaraði þessu með háðsyrðum, og Gyðingarnir fóru heim við svo búið. Þegar ekkert af þessu dugði, reyndu þeir að myrða hann. Kvöld eitt, þegar Spinoza var á heimleið, réðst að honum dökkleitur maður með hníf í hendi. Spinoza tókst að bera af sér lagið, og skar hnífurinn aðeins yfirhöfn hans.

Þessir sömu Gyðingar höfðu orðið að þola á Spáni kúgun og andlega fjötra. Hér í Hollandi höfðu þeir notið umburðarlyndis og andlegs frelsis. Það hefði því mátt ætla, að Gyðingar þekktu manna bezt, hve dýrmætt frelsið er, og skildu og viðurkenndu öðrum fremur rétt hvers manns til að ráða sjálfur skoðunum sín-

um. Eftir afstöðu þeirra til Spinoza að dæma var þó ekki svo að sjá. Þvert á móti er augljóst, að þá vantaði ekki viljann til að krossfesta Spinoza. En hér í Hollandi voru þeir aðeins lítill flokkur manna, og líf manna var hér verndað af ríkisvaldinu. Þeir urðu þess vegna að láta sér nægja að bannfæra Spinoza og útskúfa honum úr sínum félagsskap.

Daginn, sem sú athöfn fór fram, lét enginn sig vanta í samkunduhúsið. Athöfnin hófst með því, að kveikt var á fjölda svartra kerta — og tekið fram lögmál Móses. — Æðsti presturinn tók þá til máls og las upp bannfæringuna. Kafli úr því plaggi sýnir betur en nokkuð annað, hvers konar veröld það var, sem heimspekingurinn Spinoza hafði verið að forðast. Presturinn þuldi:

„Að lögum dýrlinga og engla bannfærum við, útskúfum, bölvum og formælum Baruch de Espinoza með samþykki öldunganna og allrar þessarar helgu samkundu, í viðurvist hinna helgu bóka, bölvum við honum með hinu sama anaþema og Jósúa bölvaði Jeríkóborg .... enginn ykkar tali við hann munnlega eða skriflega, enginn ykkar sýni honum nokkra miskunn eða dveljist í sama húsi og hann eða komi nær honum en fjögur fet, og enginn lesi neitt, sem sá maður skrifar.“

Bumbur voru barðar, um leið og söfnuðurinn tók þessi svörtu kerti og lét vax þeirra renna dropa fyrir dropa út í stórt ker fullt af blóði. Æðsti presturinn gaf merkið, og söfnuðurinn hrópaði: „Anaþema Mara-

napa!“ Þá voru öll ljós slökkt í blóðinu, og söfnuðurinn hrópaði í myrkrinu: „Amen! Amen!“

Þannig bölvuðu Gyðingar þeim Gyðingi, sem brauzt undan gömlum erfðakenningum og leyfði sér að hugsa frjálst. Síðar meir hafa Gyðingar hafið Spinoza upp til skýjanna sem hinn mesta andans mann, sem uppi hefur verið, en þá var Spinoza löngu dauður.

Spinoza var manna rólyndastur og hugrakkastur, en hér í Amsterdam var líf hans nú í beinni hættu. Hann fór því huldu höfði og flutti sig út fyrir borgina og settist upp hjá vini sínum einum, sem fylgdi ofsóttum sértrúarflokki mótmælenda. Spinoza leitaði verndar hjá þessum flokki og fluttist með honum til Rhynsburg (nálægt Leiden). Þar stundaði Spinoza þá iðju að fága stækkunargler. Þess á milli las hann heimspeki, einkum Descartes. — Hann þótti brátt svo lærður í þessum ritum, að ungir menntamenn tóku að koma til hans og mælast til, að hann kenndi sér heimspeki og útskýrði rit Descartes. Þetta varð til þess, að Spinoza fann hjá sér hvöt til að kryfja heimspeki Descartes enn nákvæmlegar til mergjar. Hinir ungu menntamenn tileinkuðu sér skoðanir Descartes gagnrýnislaust og stöðnuðu í kerfi hans. Spinoza, kennarinn, var aftur á móti skapandi og hafði glöggt auga fyrir veilunum í heimspeki Descartes. Hann óx að lokum upp úr þessari heimspeki og lagði grunninn að sinni eigin.

Þetta varð til þess, að dýrkendur Descartes urðu

honum gramir og snerust gegn honum. Hann fann, að hann átti ekki lengur neina samleið með sínum fyrri félögum. Hugur hans fór að beinast frá þessu þorpi, Rhynsburg, og til höfuðborgarinnar Haag, miðdepli andlegs lífs álfunnar. Áttu þessar bækur, sem hann hafði verið að semja í kyrrþey hér í þessu þorpi, ekki erindi þangað, sem einmitt nú var verið að gera út um framtíð vestrænnar menningar? Jú, þangað þurftu bækur hans að komast, — en tæplega mundi sá staður heilsusamlegur höfundi þeirra, eftir að menn hefðu séð þær. Spinoza fluttist frá þorpinu Rhynsburg til þorpsins Voorburg; það lá í útjaðri Haag. Hann fullgerði þar bækur sínar og leitaði fyrir sér um prentun þeirra. Eftir sjö ára dvöl í Voorburg kom fyrsta rit hans á prent. Það rit fjallaði um trúmál og stjórnmál. Höfundar var ekki getið. Nafn útgefandans var gervinafn, — nafn prentsmiðjunnar ekki til! Spinoza þóttist þekkja öld sína og vita, hver áhrif þessi bók mundi hafa. Hann reyndist sannspár. Gyðingar og kaþólskir bannsungu hana, mótmælendur bönnuðu hana, áhangendur Descartes réðust gegn henni.

Bók, sem vakið gat slíka háreysti, hlaut að hafa skorið á meinsemd aldarinnar. En hver var þá boðskapur þessarar bókar?

Descartes og lærisveinar hans voru byrjaðir að draga ýmsar gamlar hugmyndir, sem taldar voru óyggjandi sannindi, fyrir dóm skynseminnar. Fyrir þeim dóm-

stóli átti hugmyndaheimur miðaldanna sér engrar náðar að vænta. Þessi dómstóll var fyrst og fremst í Hollandi — í Haag. Enn voru öfl miðaldanna sterk jafnvel í borg frelsisins, Haag, og utan Hollands drógu þessi öfl saman her (í Frakklandi) til að gera innrás í Holland og brjóta þennan dómstól skynseminnar niður. Eitt var þó, sem hvorki Descartes né lærisveinar hans höfðu enn þorað að draga fyrir dóm skynseminnar. Það var Biblían. En það var einmitt það, sem Spinoza gerði. Ritningin er, sagði Spinoza, sjálfur kjarni, sjálf undirstaða allra hugmynda vestrænnar siðmenningar. Fyrst menn á annað borð eru farnir að láta ljós skynseminnar falla inn í rökkursælan heim viðtekinna erfðakenninga, hvers vegna skyldum við þá ganga fram hjá sjálfum kjarna þeirra, ritningunni?

Og Spinoza hvarf 1600 ár aftur í tímann til að leita þar hins sanna boðskapar Krists. Og hann hvarf aftur önnur 1600 ár aftur í tímann til að leita þar hins sanna kjarna Gamla testamentisins. — Spinoza skildist, að trúarbrögð allra þessara sundurlausu og oft ofstækisfullu safnaða væru annað en sönn trú. Trúin er mild og umburðarlynd. Áhangandi erfðakenninganna, hins dauða bókstafs trúarbragðanna, var harður og einsýnn. Átti grimmd trúarofstækismannsins nokkuð skylt við vísdóm spámannanna eða mildi Krists? Þetta var ekki að afneita boðskap spámannanna og Krists, heldur því, sem menn héldu, að væri boðskapur þeirra.

Hinn sanni kjarni þeirra var allt annar. Misskildar erfðakenningar höfðu gert almættið að stríðsguði ákveðins þjóðflokks. Það var guð samkunduhússins. Þær höfðu gert hann að manni, með mannlegum takmörkunum. Þannig var guð kaþólskra og mótmælenda. Allt þetta voru mannasetningar. Hinn sanni guð Krists og spámannanna var eitt með allri tilveru.

Slíkur var boðskapur þessarar bókar Spinoza, og hann hitti markið. Það mátti heyra á undirtektunum, sem og fyrr er frá skýrt.

En Spinoza eignaðist einnig vini og stuðningsmenn — meðal stjórnmálamanna. Þessir vinir hans veittu honum svo mikla vernd, að hann sá sér fært að flytjaast í eigin persónu til Haag. Valdamestir þessara vina hans voru de Witt bræðurnir. Þeir veittu honum einhverja fjárhagslega aðstoð, sem þó entist ekki lengi, þar sem bræðurnir voru myrtir í múgæsingum tveimur árum eftir komu Spinoza til borgarinnar. Sama ár (1772) sendi Loðvík 14. Frakkakonungur her sinn inn í Holland til að brjóta niður þetta lýðveldi frelsisins, þar sem „trúvillingar" og „fríhyggjumenn" höfðu frelsi til að unga út bókum sínum og reisa dómstól skynseminnar til höfuðs veraldlegu einveldi konunga og andlegu einræði kirkjunnar.

Frönskum stjórnmálamönnum, einkum Colbert, var einnig ósárt um að losna við samkeppni Hollendinga í verzlun sinni, ekki sízt í Indlandi. Englendingar áttu sömu hagsmuna að gæta og fóru með Frökkum í stríð-

ið við Hollendinga. Þannig fór Spinoza einmitt til þess staðar, þar sem gert var út um frelsi og famtíð vestrænnar siðmenningar.

Spinoza var ákveðinn lýðveldissinni og fór á fund franska innrásarhersins, að því er virðist sem eins konar erindreki til að tala máli Hollendinga. Hann fékk þó enga áheyrn hjá hershöfðingjanum og varð að snúa aftur við svo búið.

Þegar heim kom til Haag, gaus upp sá kvittur, að Spinoza væri njósnari Frakka. Vildi þá húsráðandinn, þar sem Spinoza leigði, að hann færi úr húsinu, svo að ekki yrðu unnin á því nein spjöll, ef múgurinn skyldi koma og gera honum sömu skil og de Witt bræðrunum.

En Spinoza róaði hann. „Það eru margir háttsettir menn," sagði hann, „sem þekkja tilgang farar minnar. Ef múgurinn safnast saman við hús þitt, þá mun ég út ganga á fund hans." — Til þess kom þó aldrei, og enn um stund gat Spinoza fágað gler sín og skrifað um heimspeki og stjórnmál.

Spinoza átti við harðan kost að búa, hann hafnaði auði og vegtyllum. Honum hafði verið boðin prófessorsstaða í heimspeki við háskólann í Heidelberg, — en vildi ekki fórna henni frelsi sínu. Föðurarf sinn hafði hann látið ganga til systra sinna. Auðæfi, sem vinur hans einn, Simon de Vries að nafni, vildi ánafna honum, lét hann ganga til bróður Símonar. Honum var boðinn lífeyrir af vinum Loðvíks 14., ef hann aðeins vildi skrifa nafn þess konungs á næstu bók sína! „Ég

hef ekki í hyggju að ánafna þeim kóngi neitt," sagði Spinoza, og þar með var því máli lokið.

Fátækt Spinoza og atvinna hans veikti mótstöðuafl hans gegn tæringunni, sem þjáði hann í 20 ár. Hann minntist ekki á þessa veiki sína og kvartaði aldrei. Endalokin vofðu þó yfir honum óhjákvæmileg. Frelsi hafði hann til að brjótast undan trúarlærdómum feðra sinna, til að fara fram úr Descartes, til að hugsa sjálfstætt og bjóða harðstjórn byrginn. Og þó var frelsi hans takmarkað af einhverju, sem hann réð ekki við, — tæringunni, dauðanum. Og nú fann Spinoza dauðann nálgast.

Sunnudagsmorgun einn fór Spinoza snemma á fætur og ræddi við hjónin, sem hann leigði hjá, eins og ekkert hefði í skorizt. Spinoza vissi þó, að þetta var hans síðasti dagur. Kvöldið áður hafði hann sent eftir lækni einum, vini sínum. Þessi læknir skipaði nú að láta sjóða gamlan hana, svo að Spinoza gæti fengið súpu um hádegið. Annars var Spinoza vanur að annast mat sinn sjálfur. Hjónin fóru til kirkju, og þegar þau komu aftur, var Spinoza látinn.

Árið eftir kom Holland ósigrað frá viðureign sinni við einvaldskonunginn í Frakklandi. Hinn nýi tími frjálsrar hugsunar hafði ekki verið sigraður, jafnvel ekki þó að sökkva yrði í sjó aftur því litla landi, sem hann hafði haslað sér völl á. Vestræn menning var á leið út úr nóttinni. Nýir menn hófu á loft kyndil frelsisins og vísuðu mönnum veginn upp og fram. Af öll-

um þessum merkisberum á vestræn menning á 17. öld engum meira að þakka en Benedikt Spinoza. — Hann var mildastur og göfugastur manna, en þó ofsóttur og bannfærður fyrir að kenna mönnum að leita sannleikans og virða frelsið.

# Heimspeki Spinoza

Spinoza hafði í æsku numið bæði austræna heimspeki Gyðinga og heimspeki Vesturlanda fyrir sinn dag, einkum Descartes. Hann óx upp úr hvoru tveggja, — en þó er þetta sá texti, sem hann leggur út af. Hann byrjar líkt og Descartes, en fer brátt sínar eigin leiðir. Cogito, ergo sum, hafði Descartes sagt. Og Spinoza er á sama máli! Cogito, ergo Deus est (Ég hugsa, þess vegna er guð til), er næsta spor Descartes, en þar skilja leiðir. Spinoza þótti sú niðurstaða enginn heimspekigrundvöllur, enginn „substans", grundvöllur eða undirstaða. Undirstaða allra hluta hlaut að vera til. Hana þarf ekki að sanna. Ef menn á annað borð viðurkenna, að náttúran í kringum þá sé til — eða að eitthvað sé til, þá hlýtur það að eiga sér undirstöðu. Hún er hinn innsti veruleiki alls, sem er til, og sá veruleiki er í öllu. Þess vegna sannar tilveran sjálf, að til sé undirstaða. Þessi innsti veruleiki (guð) getur ekki byggzt á neinu nema sjálfum sér. Hugurinn skilur ekki þennan algera veruleika (guð), heldur aðeins einhverja eiginleika hans. — Skilningurinn leggur því veruleikanum til eðli, sem er ekki hið algilda eðli hans. Undirstaðan á sér þannig *eiginleika*, sem hugurinn heldur, að séu allt eðli hennar, en eru aðeins brot af veru hennar. Þriðja dráttinn í heimsmynd Spinoza mætti

kalla *ummyndanir,* þ.e.a.s. allar birtingar hins innri veruleika, undirstöðunnar (guðs) í hinum ytra heimi. Tilvera þeirra byggist á einhverju öðru en þeim sjálfum og er skynjuð af einhverju öðru en þeim sjálfum. — Þetta, sem sagt er hér að framan, er skilgreining hinna þriggja þátta í heimsmynd Spinoza: 1) undirstöðunnar eða hins innsta veruleika, guðs. 2) eiginleika, 3) ummyndana.

Sú undirstaða allra hluta, sem trúarbrögðin kalla guð, segir Spinoza, hlýtur að vera sín eigin orsök. Ef hún ætti sér aðra orsök, væri sköpuð af einhverju öðru en sjálfri sér, væri hún ekki undirstaða. — En er hún þá sjálfsköpuð? Hefur hún skapað sig sjálf? Ef svo væri, þá væri hún þó samt sem áður sköpuð og ætti sér því upphaf. En það, sem á sér upphaf, á sér þá um leið undirstöðu. Þetta þýddi, að undirstaðan væri þá til á undan sjálfri sér! En Spinoza á ekki við, að undirstaðan (guð) sé sjálfsköpuð í þessari merkingu. Með því að segja, að undirstaðan (guð) sé sjálfsköpuð (causa sui) á hann við, að undirstaðan sé ósköpuð, hafi aldrei verið til. Til eru heimspekingar, sem deila á þessa skoðun Spinoza og halda því fram, að ef þessu væri þannig háttað, væri undirstaðan ekki orsök — og ekki heldur afleiðing, því að afleiðing, sem á sér ekki orsök, getur ekki verið til! — En hér virðast þessir heimspekingar fórna staðreyndunum á altari rökfræðinnar. — Tíminn t. d. er ekki sjálfskapaður, vegna þess að hann byrjar aldrei. Hann er ekki heldur nauð-

synleg orsök eða afleiðing sjálfs sín. En þetta sannar ekki, að hann sé til og sé ekki ótakmarkaður. Sama er að segja um rúmið. Sama er að segja um allt, sem verður ekki, heldur er.

Orsök í heimspeki Spinoza þýðir ekki sama og þegar við segjum, að foreldri sé orsök barns eða lampi sé orsök birtu. Það er ekki orsök í tíma og rúmi, sem Spinoza talar um. Orsökin liggur í hlutunum sjálfum líkt og hvítan í mjólkinni eða roðinn í blóðinu. Á máli Spinoza væri mjólkin orsök hins hvíta litar síns og blóðið hins rauða litar síns. — Þetta þýðir, að orsök undirstöðunnar er hliðstæð undirstöðunni sjálfri.

Undirstaðan (guð) er án allra takmarkana. Ef hún væri takmörkuð, mundi hún vera takmörkuð af annarri undirstöðu eða öðrum undirstöðum og því hvíla á þeim, sem þýddi, að hún væri ekki undirstaða.

Þessi undirstaða allra hluta hlýtur því að vera ein. Descartes hafði kennt, að guð væri persóna, aðskilin frá annarri tilveru. Þannig verður hjá honum um tvær sjálfstæðar undirstöður að ræða: andann og efnið, hugsunina og rúmið. Samt segir Descartes, að guð sé hin eina undirstaða. — Hér bjargar Spinoza læriföður sínum út úr mótsögninni með því að benda á, að hvorki efni né andi, rúm né hugsun sé nein undirstaða, heldur aðeins eiginleikar, sem virðast undirstaða vegna skilnings takmarkaðra vitsmuna á eðli hins ótakmarkaða. Allt þetta (efni og andi) hvílir á undirstöðunni, en er ekki undirstaðan sjálf nema í

vissum skilningi. Undirstaðan (guð) í heild er ofar mannlegum skilningi, því að þetta tvennt, sem maðurinn skilur (rúm og hugsun), er aðeins dropi í sæ veruleikans, sem við þekkjum næstum ekki neitt.

Spinoza segir, að ótakmarkanlegir eiginleikar myndi þessa undirstöðu (guð). Hver þessara eiginleika myndar ótakmarkaðan alheim í vissum skilningi. Eiginleikinn rúm t. d. myndar hinn ótakmarkaða alheim efnisins, eiginleikinn hugsun myndar á sama hátt hinn ótakmarkaða alheim hugsunarinnar. En rúm er hins vegar ekki algert í þeim skilningi, að til er annað og fleira en rúm, t. d. hugsun. Og hugsun á sama hátt er ekki alger í þeim skilningi, að til er annað og fleira en hugsun, t. d. rúm. Maðurinn þekkir aðeins tvo eiginleika undirstöðunnar (guðs). Þessir eiginleikar eru rúm og hugsun. Þar með er ekki sagt, að þeir geti ekki verið fleiri. Spinoza álítur þá óendanlega marga, því að undirstaðan hlýtur að vera samnefnari allrar tilveru. En hvað eru þá þessir eiginleikar? Eru þeir raunverulegir eiginleikar guðdómsins, — eða eru þeir aðeins fram komnir vegna skilnings ákveðinna vitsmuna — og yrðu því blekking án þeirra?

Hið síðarnefnda sjónarmið virðist fljótt á litið sennilegri skýring og rökréttari. Spinoza segir, að „algerlega ótakmörkuð undirstaða sé óskiptanleg". Ef við gefum þessari undirstöðu eiginleika, sem væru sjálfstæður veruleiki óháður utanaðkomandi vitsmunum, værum við þá ekki þar með búin að takmarka hana og

um leið búin að gera undirstöðu og eiginleika eitt og hið sama?

Allt um þetta er engum blöðum um það að fletta, þegar betur er að gáð, að Spinoza á við hið fyrra, að undirstaðan (guð) sé samsett af óendanlega mörgum eiginleikum, sem hver um sig myndar á vissan hátt óendanlegan alheim, eins og fyrr segir.

Á þennan hátt virðast opnast fyrir okkur endalausar víðáttur til allra hliða, sem ná óendanlega langt út fyrir alla mannlega reynslu. Að þetta er skilningur Spinoza, er ljóst m. a. af því, að hann segir, að undirstaðan *sé* rúm og að við getum fengið *rétta* hugmynd um vissa hluta undirstöðunnar.

En kemst þá Spinoza í mótsögn við sjálfan sig með því að gera eiginleikana að undirstöðunni og með því að gera hinn ótakmarkaða guð óendanlega takmarkaðan af óendanlega mörgum eiginleikum? — Eiginleikinn er undirstaða á vissum skilningi, þó að hann sé aðeins brot hennar. En hvað þá um síðara atriðið? Þar sló gagnrýnin því föstu, að óendanlega margir eiginleikar þýddu óendanlega margar takmarkanir. En er það rétt? Í raun og veru er þessi gagnrýni aðeins leikur með orð. Ótakmarkanlegur guð þýðir ekki sama og guð, sem hefur engan eiginleika. Ef svo væri, væri guð tóm, — ekkert! Hinn ótakmarkaði guð er þvert á móti guð *allra* eiginleika, samnefnari allrar tilveru. Þessir eiginleikar eru óendanlega margir og hver þeirra óendanleg veröld í sjálfri sér.

Þetta þýðir því allt annað en að guð eigi sér ákveðna eiginleika (eins og í heimspeki Descartes), sem takmarka hann jafnvel niður í mannlegt gervi og mannlega eiginleika.

Guð Spinoza er algerlega takmarkalaus, hann er eitt með allri tilveru. Allir eiginleikar eiga sér sama grundvöll. Andi og efni, hugsun og rúm er í innsta eðli sínu eitt og hið sama, þar sem það á sameiginlegan grundvöll. Á þetta vill Spinoza leggja þyngsta áherzlu með kenningu sinni um eiginleika og leiðrétta með því fyrirrennara sinn, Descartes, sem kenndi, að hugsun og rúm væru algerar andstæður, sem gætu ekki átt neitt sameiginlegt.

Undirstaðan (guð) hefur hvorki skynsemi né vilja, sagði Spinoza, og kom sú kenning mörgum úr skorðum. Samt talar Spinoza um hugsun, sem einn af eiginleikum undirstöðunnar. Guð Spinoza birtist í allri náttúrunni. Það er t. d. ekki skynsemi dýrsins eða þekking þess á líffærafræði, sem fær sár þess til að gróa. Það er ekki skynsemi, sem heldur himintunglum á braut sinni og byggir upp og heldur við allri tilverunni. Skynsemi og vilji eru aðeins birting í veröld mannsins og allt of fátækleg og takmörkuð orð til að nota þau um öfl, sem þessum leik stjórna.

Eins og áður er sagt, er hver eiginleiki undirstöðunnar (guðs) heimur út af fyrir sig. Þessum heimi (eiginleikanum) skiptir Spinoza aftur niður í ummyndanir. Ummyndanir þess eiginleika t. d., sem kallaður

er rúm, eru hreyfing og kyrrstaða. Ummyndanir þess eiginleika, sem kallaður er hugsun, eru skynsemi og vilji.

Þannig eru hreyfing, skynsemi, vilji og allur hinn ytri heimur skynjunar okkar ekkert annað en ummyndanir af undirstöðunni (guði).

Í upphafi virðist sem í heimspeki Spinoza sé aðeins um þetta tvennt að ræða, undirstöðu og ummyndanir hennar. Kenning hans um eiginleika virðist fyrst og fremst fram komin til að afsanna með henni kenningu Descartes um, að hugsun og rúm væru algerar andstæður, sem ekkert ættu sameiginlegt.

Ummyndanir eru tvenns konar: a) Ótakmarkaðar ummyndanir. Eins og lesandinn man, var undirstaðan (guð) og algerlega ótakmarkanleg. Hver eiginleiki hennar var einnig sagður ótakmarkanlegur. Á sama hátt eru ummyndanir öðrum þræði ótakmarkanlegar. Hreyfingin (sem er ummyndun eiginleikans rúm að dómi Spinoza) á sér þannig ekkert upphaf og engan enda. Aðeins hreyfingin veldur hreyfingu, kyrrstaðan getur ekki verið orsök hennar. Þess vegna er hin fyrsta hreyfing ekki til. Veröld hreyfingarinnar „efnisheimurinn" á ekki heldur algert upphaf né alger (absolut) endalok. Ummyndanir eiginleikans hugsunar voru að sögn Spinoza skynsemi og vilji. Þessar ummyndanir báðar eru ótakmarkaðar eins og eiginleikinn (hugsun).

b) En ummyndanir eru líka takmarkaðar. Hinn

ótakmarkaði eiginleiki rúmið fóstrar þannig takmarkaða einstaklinga og hluti. Á sama hátt fóstrar hinn ótakmarkaði heimur andans takmarkaða huga (manna og dýra a.m.k.). Hin ótakmarkaða ummyndun skynsemi fóstrar takmarkaða skynsemi hins takmarkaða hugar. Hin ótakmarkaða ummyndun, vilji, fóstrar takmarkaða ummyndun, einstaklingsvilja hins takmarkaða huga.

Í sambandi við þessa tvo flokka ummyndana talar Spinoza um, að hugsanlegt sé, að allar ummyndanir geti horfið aftur til uppruna síns, undirstöðunnar (guðs), og síðan birzt aftur sem nýjar ummyndanir í öðrum eiginleika og þess vegna í algerlega fjarskyldri mynd.

Með þessu reyndi Spinoza að sýna fram á villu Descartes, sem talar um líkama og sál sem eilífar andstæður. Spinoza er á einu máli og Descartes um það, að efni (líkaminn, heilinn) geti ekki hugsað og að hugsun hafi ekki eiginleika efnisins eða geti framkvæmt störf líffæranna. En hann bendir á, að fyrst líkami og hugur mannsins séu hvor tveggja ummyndanir samræmdra eiginleika (rúms og anda), séu þau (líkami og hugur) einnig samræmd, þannig að líkaminn svari nákvæmlega til sálarinnar. Hugur kornbarnsins er t. d. nákvæmlega jafnóþroskaður og líffæri þess. Vöxtur og hnignun líkamans og hugans haldast síðan nákvæmlega í hendur o.s.frv. Þetta, segir Spinoza, að sé hluti

hins alheimslega samræmis, sem stafar af því, að allt á sömu undirstöðu.

Þetta eru þrjár meginuppistöður í heimsmynd Spinoza: Tilveran öll er ein heild. Hinn innsti veruleiki hennar, undirstaða allra hluta, er guð, og hann er því í allri tilverunni. Guð er algerlega ótakmarkaður. Hann er samnefnari allra eiginleika tilverunnar. Þessir eiginleikar eru ótakmarkanlegir. Hver eiginleiki er veröld út af fyrir sig. Maðurinn þekkir aðeins tvo af eiginleikum guðdómsins: hugsun og rúm. Hver eiginleiki er aftur heimur af ummyndunum. Vit og vilji eru ummyndanir eiginleikans hugsunar. Kyrrstaða og hreyfing eru ummyndanir eiginleikans víðáttu eða rúms. Ummyndanir eru ekki í neinu sambandi við ummyndanir annarra eiginleika, nema hvað þær eiga allar sameiginleg upptök í hinum innsta veruleika.

# Wilhelm Leibniz

TVEIMUR ÁRUM fyrir friðarsamningana í Westfalen (1648), sem skiptu Þýzkalandi niður í fjölda smáríkja, fæddist sveinbarn í Leipzig. Hann var vatni ausinn og nefndur Gottfried Wilhelm Leibniz. Þegar sveinninn óx upp og tók að gera sér einhverja grein fyrir þeim heimi, sem hann var borinn til, uppgötvaði hann framar öllu öðru þetta tvennt: Þýzkaland var í molum, öll hin ytri veröld var í molum. Hin innri veröld, heimur hugmyndanna, var líka í molum. Þar skynjaði hann ósjálfrátt baráttuna milli einstaklingshyggju norðursins og heildarhyggju suðursins með Loðvík XIV. Frakkakonungi í hásæti.

Leibniz gerði sér far um að skilja suðrið, en var þó maður norðursins: Mennirnir eru ekki hluti af heild eða hjól í vél. Þeir eru einstaklingar. Einstaklingurinn á fullan rétt á að vera einstaklingur. Öll tilveran er byggð upp af einstaklingum. — Öll heimspeki Leibniz spratt síðar upp úr þessum jarðvegi, og hún ber hans

því glögg merki. Leibniz var ánægður með þennan heim. „Ég er fæddur til hins bezta af öllum hugsanlegum heimum," skrifar hann, — og víst er um það, að enginn heimspekingur hefur átt jafnmiklu veraldarláni að fagna og Leibniz. Hann hafði allt það í ríkum mæli, sem sagt er, að geri líf manna eftirsóknarvert. Hann var auðugur lögfræðingur og embættismaður, sem gegndi háum virðingarstöðum. Hann var valdamikill stjórnmálamaður og fékk fleiri orður og viðurkenningar frá þjóðhöfðingjum og stofnunum en aðrir menn. Hann var frægur stærðfræðingur og vísindamaður og talinn af mörgum mesti heimspekingur samtíðar sinnar. Þeirri frægð hélt hann, meðan hann lifði. Slík var auðna þessa manns. Ef til vill var hún of mikil til að kalla fram í Leibniz þann anda allan, sem í honum bjó, og meiri en svo, að ætlazt verði til, að hún mótaði í smiðju sinni raunsæjan heimspeking.

Leibniz var fæddur 21. júní 1646. Faðir hans var prófessor í heimspeki við háskólann í Leipzig, og á heimili hans ólst sveinninn upp meðal bókastaflanna, sem faðir hans hlóð í kringum sig. Hann hlýddi oft á tal lærðra manna, sem í hús hans komu. Þegar sveinninn var aðeins sex vetra, var faðirinn byrjaður að tala við hann á latínu og léði honum bækur úr bókahillum sínum. Sveinninn sneiddi þar hjá öllu þunnmeti og las bækur eftir Plató, Xenophon og Cicero. Og hann las sögu Rómaveldis skráða af rómverskum fræðimönnum. Því næst byrjaði hann að fást

við heimspeki kirkjufeðranna. Um fermingaraldur hafði hann gleypt allt þetta í sig og var að springa úr lærdómi. Þá, fimmtán ára að aldri, innritaðist hann í lagadeild háskólans og tók að búa sig undir að taka doktorsgráðu í lögum. Hann gleymdi þó ekki heimspekinni og las um leið þá Bacon og Descartes, Campanella og Galileo. Fimm árum síðar hafði hann lokið laganámi sínu og bjóst til að taka doktorsgráðuna. En prófessorarnir við Leipzigháskóla höfðu aldrei heyrt getið um tvítugan doktor og vísuðu honum frá. Leibniz sá þannig, að enginn yrði spámaður í sínu föðurlandi. Hann fór því til háskólans í Altdorf og tók doktorsgráðuna þar. Til Leipzig kom hann aldrei framar. Í Altdorf stóð hann sig með þeim ágætum, að honum var þar þegar í stað boðin prófessorsstaða við háskólann, en Leibniz hafnaði því, líkt og Spinoza hafði áður gert. Hann mat frelsið meir, frelsi til að skrifa bækur. Og einmitt hér í Nuremburg hafði hann bók í smíðum. Hann sýndi handritið einum vina sinna, Jóhanni barón von Boineburg, sem var ráðherra í stjórn kjörfurstans í Mainz. Ráðherranum leizt vel á ritið (Nova Methodus docendi discendique juris) og hvatti Leibniz til að gefa það út og tileinka það húsbónda hans, kjörfurstanum, Leibniz fylgdi ráðum vinar síns og færði kjörfurstanum ritið að gjöf. Var það upphaf langrar vináttu milli Leibniz og kjörfurstans. Var Leibniz boðin staða við að endurskoða ríkisreikningana fyrir furstann, og tók Leibniz því boði.

Þannig hófst stjórnmálaferill Leibniz. Hann sá, að hinu sundraða þýzka ríki stóð mikil hætta af veldi Loðvíks XIV, sem hann taldi vera að draga her saman gegn Þýzkalandi. Leibniz beitti sér því í ræðu og riti fyrir „Rheinbund,“ sameiningu þýzku ríkjanna. Um leið samdi hann ótilkvaddur áætlun fyrir Frakkakonung um nýja krossferð gegn heiðingjum. Vildi hann með því beina athygli Lúðvíks XIV frá kristnum Evrópuþjóðum til heiðinna landa utan Evrópu. Hvers vegna ekki að ráðast á Egyptaland til dæmis og leggja það undir sig en að fara með stríð á hendur Þjóðverjum eða Hollendingum? Frakklandskonungi barst í hendur rit Leibniz um þetta efni og virðist hafa tekið málið til yfirvegunar, því að hann gerði boð fyrir hinn þýzka heimspeking til að fá frekari skýringar á þessari ritsmíð. Leibniz kom til Parísar 1672, en mætti þar frönskum hersveitum á norðurleið — til að ráðast á Holland. Hann fékk aldrei áheyrn hjá herkonungnum. En í París hitti Leibniz aðra menn, sem voru konungar í ríki andans. Hann kynntist meðal annars Malebranche (1638—1715), djúphyggjumanni, sem taldist foringi þeirra, sem fylgdu Descartes að málum, heimspekingnum Arnauld (1612—1694) og stjörnufræðingnum Huyghens (1629—1693). Þessir menn höfðu margt að ræða, sem við kom vísindum, stærðfræði og heimspeki. Þeir skiptust á hugmyndum og auðguðu hverir aðra. Í París undi Leibniz því vel hag sínum og dvaldist að

heiman í fjögur ár. Árangurinn af stærðfræðirannsóknum Leibniz var meðal annars sá, að hann fann upp reikningsvél, sem gat deilt, margfaldað og reiknað út rætur. Var vél þessi sýnd opinberlega í París. Þegar Leibniz árið eftir fór til Englands, hafði hann þessa vél sína meðferðis, og var hún sýnd þar á vegum konunglega vísindafélagsins í Lundúnum. Leibniz var gerður heiðursfélagi þessa félags og komst auðveldlega í kynni við helztu vísindamenn og andans menn í Englandi. Hann kynntist Oldenburg, sem þá var ritari vísindafélagsins. Þýðingarmeiri voru þó kynni hans og stærðfræðingsins Pell, sem sýndi honum stærðfræðilegar uppgötvanir sínar, sem hann setti fram í riti sínu, Logarithmatechnica. Newton hitti hann þó aldrei. Þegar hann kom aftur til Parísar sökkti hann sér niður í stærðfræðirannsóknir. Síðasta árið, sem hann var í París, 1676, hafði hann gert eina af mestu uppgötvunum í sögu stærðfræðinnar. Hann fann upp differentialreikning. Margir héldu þó því fram, að Newton hafði verið búinn að gera þessa uppgötvun 1665, en hann setur hana ekki fram fyrr en 1693. Leibniz prentaði sína uppgötvun 1684. Víst þykir, að hvorugur hafi vitað um hinn og báðir hafi gert þessa uppgötvun um svipað leyti. Um hitt, hvor hafi verið á undan, er jafnvel enn deilt.

Árið 1676 hélt Leibniz aftur heim til Þýzkalands. Hann lagði þó leið sína um London til að hitta aftur vini sína þar og hélt þaðan yfir Holland um Amster-

dam til þess að geta heilsað upp á Spinoza. Þeir höfðu margt að ræða, og virðist Leibniz hafa dvalizt hjá Spinoza í mánaðartíma og vafalaust auðgazt af þeim samræðum. Leibniz var þá um skeið lærisveinn og aðdáandi Spinoza. Síðar snerist hann að nokkru leyti gegn þessum fyrirrennara sínum í ritum sínum, en virðist hafa nálgazt hann meir aftur hin síðustu ár sín.

Þegar heim til Þýzkalands kom, réðst Leibniz í þjónustu hertogans af Brunswick-Lüneburg, Jóhanns Fredericks, og settist að við hirðina í Hannover. Störf hans fyrir hertogann voru margvísleg. Hann var bókavörður, sagnfræðingur ættarinnar, meðlimur leyndarráðsins og sérstakur erindreki hertogans. Störf hans höfðu því í för með sér mikil ferðalög víða um lönd. Í einni af þessum ferðum kom Leibniz til Rómaborgar. Þar í páfagarði var honum boðið að gerast bókavörður Vatikansins, ef hann aðeins vildi taka kaþólska trú. Leibniz hafnaði hvoru tveggja. Hins vegar gerði hann ítrekaðar tilraunir til að sætta sjónarmið kaþólskra og mótmælenda og fá þá til að sameinast. Var þessum tilraunum vel tekið í fyrstu, þar sem bæði kaþólskir og mótmælendur vonuðu hvorir um sig, að hinir kæmust á sitt mál. En þegar til þess kom að fá þá til að fórna einhverju af kennisetningum sínum, til þess að sameiningin gæti tekizt, reyndust báðir óhagganlegir. Enginn árangur varð því af þessari tilraun Leibniz nema rit hans Systema Theologicum, sem

hann skrifaði árið 1686. Það rit var ekki gefið út fyrr en eftir dauða hans.

Þrátt fyrir allar annir Leibniz lá heimspekin honum þó þyngst á hjarta. Um 1690 komst hann í kynni við rit Lockes: Essay on the Human Understanding, og varð það til þess, að Leibniz samdi mikið rit til að andmæla þeirri heimspeki, sem þar er sett fram. Leibniz fór þó miklum viðurkenningarorðum um Locke og kallaði þetta rit hans „eitt af beztu ritum okkar tíma". Þannig bar Leibniz fulla virðingu fyrir helzta andstæðingi sínum í heimspeki, og þegar Locke andaðist, stakk Leibniz handriti sínu um heimspeki Lockes undir stól, þar sem hann taldi sér ósæmandi að ráðast á látinn mann. Það rit birtist fyrst löngu eftir dauða hans eða 1765.

Vegur Leibniz fór sífellt vaxandi. Hver titillinn eftir annan bættist við nafn hans. Hann varð heiðursfélagi í vísindafélögum og umgekkst æðstu menn heima og erlendis. Hann var aðalhvatamaður að stofnun Berlínarháskóla árið 1700. Pétri mikla Rússakeisara sendi hann fyrirmæli um að stofna háskóla í Pétursborg, og var það gert. Hins vegar varð honum ekkert ágengt í menningarmálum Vínarborgar vegna andstöðu Jesúíta.

Leibniz giftist aldrei, og þó að hann ætti fjölda kunningja og vina, varð enginn honum mjög nákominn. Og þegar hann á síðustu árum varð að draga sig í hlé vegna vanheilsu, þá hurfu allir þessir vinir hans, jafn-

vel lærisveinar hans og hinir ákögustu aðdáendur. Þegar dauða hans bar að höndum, virtist enginn muna eftir því, að Leibniz hefði nokkurn tíma verið til. Það fylgdi honum enginn til grafar, nema einkaritari hans Eckhart að nafni.

Dauði hans virðist þannig skuggaleg andstæða hins bjarta lífsferils hans, sem var svo auðugur að völdum, frama og vinum. Eða er allt þetta ytra glys og gengi aðeins svikull draumur, sem maðurinn fyrr en varir hrekkur upp af til veruleikans? — — — Þess veruleika, „að maðurinn er alltaf einn": einangraður Monad, sem býr í völundarhúsi sinnar eigin tilveru, opnar aldrei dyr sínar fyrir framandi gesti og hefur heldur engan glugga til að sjá út um, — en skynjar þó á einhvern óskiljanlegan hátt alla veröldina í sjálfum sér.

# Heimspeki Leibniz

DESCARTES hélt því fram, að efni og andi, líkami og sál, gætu ekki átt neitt sameiginlegt, vegna þess, eins og hann sagði, að andi væri ekkert annað en meðvituð hugsun og efnið væri ekkert annað en víðátta. Leibniz byrjar heimspeki sína með að gagnrýna þessa kenningu: Ef andinn er ekkert annað en meðvituð hugsun, hættir hann þá að vera til, þegar maður sefur draumlausum svefni eða verður meðvitundarlaus? Ef efni er ekkert annað en víðátta, hvað eigum við þá að kalla rafmagnið, ljósið eða hitann, aðdráttaraflið, miðflóttaaflið eða orkuna yfirleitt? — Spinoza hafði áður gagnrýnt þessa kenningu Descartes, að efni og andi ættu ekkert sameiginlegt, og benti á, að bæði efni og andi væru aðeins tveir eiginleikar, sem ættu báðir sömu undirstöðu. Spinoza var hins vegar sammála Descartes um, að efnið hefði víðáttu, en andinn hefði ekki víðáttu. Og hér byrjar Leibniz einnig að gagnrýna Spinoza: Ef undirstaðan er bæði efni (og efnið hefur víðáttu) og andi (andi, sem er ekki víðátta), hvernig getur þá sami hlutur (undirstaðan) bæði haft víðáttu og ekki víðáttu? Og hér hyggst Leibniz koma Spinoza til hjálpar með að sameina anda og efni, líkama og sál. Leibniz benti á, að efnisheiminn bæri ekki að skoða sem rúm fyrst og fremst, heldur

sem *orku*, og er það samhljóða vísindum okkar tíma. Í stað þess að tala um efni sem rúm eða víðáttu og lenda í sama vanda og Descartes talar Leibniz um efnið sem orku. Það er ef til vill vafasamt að tala um hugsun sem víðáttu, en það er engin mótsögn í að tala um hugsun sem orku. Efnisheimurinn er fyrst og fremst orka. Hugsunin er líka orka. Efni og andi eru því engar andstæður, heldur mætist þetta tvennt alls staðar sem eining. Öll tilveran er byggð upp af þessum einingum anda og efnis. Leibniz kallar þessar einingar mónada (orð, sem virðist fyrst koma fyrir hjá Pýþagórasi). Mónadarnir eru orkustöðvar. Orkustöðvarnar eru sálir. Hver sál er kjarni einhvers einstaklings. Þannig er efnisheimurinn ekki dauð víðátta, heldur lifandi afl, orkustöðvar, mónadar, óendanlega margir og sjálfstæðir. Þeir eru undirstaðan, þó ekki hin heilsteypta undirstaða Spinoza, heldur eins og óendanlega margir punktar, ekki venjulegir punktar að vísu, því að þeir hafa ekkert rúmtak í sjálfu sér, þótt orka þeirra fylli allt rúm, ekki heldur stærðfræðilegir punktar, þar sem þeir hafa til að bera orku, líf og sjálfsvitund. Við skulum eins og Leibniz kalla þá mónada.

Hver mónadi er einstaklingur, og engir tveir mónadar eru eins. Mónadinn er algerlega sjálfstæð heild. Hann er sjálfum sér nógur og óháður öllum öðrum mónödum. „Mónadinn," segir Leibniz, „hefur engan glugga, sem nokkuð getur komið inn um eða

farið út um." En hvernig veit hann þá um veröldina? Hann veit það samkvæmt heimspeki Leibniz vegna þess, að alheimurinn er í hverjum mónad.

Í hverju strái er himingróður,
í hverjum dropa reginsjór.

Þannig kveður Einar Benediktsson, og þannig er um mónada Leibniz. Tilveran er óendanlega stór, en hún er einnig óendanlega smá. Maðurinn er t. d. mónad (sál), en í líkama hans eru aftur milljónir mónada og þannig áfram. En hve smár sem mónadinn er, er þó í honum mynd alheimsins, því að á spegilborði hverrar sálar standa allir hlutir.

Í raun og veru er ekkert til nema andinn. Orka og efni eru ummyndanir hans. Mónadinn er því sál. Vitund þessarar sálar er ekki alltaf meðvituð hugsun. Hún getur eins verið „dulvitund," og það er einmitt hún, sem er einráð hjá lægri mónöðum. Í þeim mónad, sem kallaður er maður, er vitundin aðeins eyja í hafi hins dulvitaða, og það kemur jafnvel oft fyrir hjá manninum, að það flæði alveg yfir þessa eyju meðvitundarinnar. Það gerist í djúpum draumlausum svefni eða þegar við missum meðvitund. Það er einmitt þessi dulvitund mónadanna, sem stjórnar lögmálum samræmisins og hræringum hinnar ósjálfráðu náttúru.

Mónadinn hefur einnig vilja, ekki fyrst og fremst í hinni venjulegu merkingu þess orðs, heldur er viljinn orkan, sem stjórnar starfsemi og hreyfingu tilver-

unnar. Hann á upptök sín í dulvitundinni og birtist í náttúruríkjunum sem lögmál.

Allir mónadar hafa til að bera „vit.“ En þetta, sem Leibniz kallar vit, stendur þó á mörgum og ólíkum stigum. Það getur jafnvel verið algerlega dulvitað og til aðeins sem vísir eða fræ. Hjá öðrum mónöðum er það skýrt eins og kristall fullur af ljósi. Enginn mónad skynjar að vísu neitt út fyrir sjálfan sig beinlínis, en hann þarf þess ekki heldur, því að alveran er í honum sjálfum. Það er því eingöngu undir skilningi hans komið, hvernig heimsmynd hans verður. Eins og áður er sagt, skynjar mónadinn ekkert beint. Það, sem hann heldur vera ytri skynjun, eru aðeins innri hræringar. Hins vegar er hinn ytri veruleiki til. Ef maður gengur til dæmis yfir götu, þá neitar Leibniz því ekki, að bæði maðurinn og gatan sé til. Hann neitar því aðeins, að hægt sé að skynja þau. Hugmynd mín skapast af innri hræringu í vitund minni. Að þessi innri hræring og hinn ytri veruleiki fari þannig nákvæmlega saman, skýrir Leibniz með því, sem hann kallar „fyrir fram ákveðið samræmi.“ Þó að mónadinn skynji ekkert út fyrir sjálfan sig, hefur hann þó á þennan hátt skilning, sem fræðir hann um hina ytri tilveru eingöngu vegna hins „fyrir fram ákveðna samræmis.“ Auk þessa skilnings, sem fræðir hann um hið ytra, hefur hann skilning, sem fræðir hann um sjálfan sig. Hin fyrri tegund skilningsins vekur hina síðari, sjálfsþekkinguna.

Mónadar Leibniz mynda samfellda línu frá hinu „lægsta til hins hæsta“. Þessi lína er mynduð af óendanlega mörgum punktum. Það er að vísu bil á milli þeirra, því að hver mónadi er sjálfstæð heild, en þegar litið er yfir tilveruna, þá sjást þessi bil ekki, vegna þess hve vel þessir mónadar falla hver að öðrum. Neðst í þessari línu eru mónadar steinaríkisins. Þeir eru hópsálir. Næst eru mónadar jurtaríkisins og hinna lægri dýra, þá mónadar æðri dýra. Loks eru sálarmónadar og andamónadar, sem skilja guðdóminn og mynda því borg Guðs. Guð er hinn æðsti mónad.

En nú komumst við ekki lengur hjá að gera þá fyrirspurn, hvernig sá mónad, sem nefndur er Wilhelm Leibniz, fer að því að vita svo mikið um aðra mónada og hvernig hann getur kennt öðrum mónödum heimspeki, þar sem mónadinn Leibniz, samkvæmt kenningu hans, hefur „enga glugga“ og ekkert getur því borizt frá öðrum til hans og ekkert komizt frá honum til annarra mónada? Og hér er vissulega um höfuðerfiðleika heimspekingsins að ræða. Leibniz sjálfur svarar þessu með kenningu sinni um hið fyrir fram ákveðna samræmi. Samkvæmt því eru hinar innri hræringar vitundarinnar í nákvæmu samræmi við það, sem gerist utan mónadsins. Þessu má líkja við réttar klukkur, sem vita ekki um starfsemi hver annarrar, en sýna þó alltaf sama tímann. Að stilla þessar klukkur í upphafi, þannig að þær slái alltaf í takt, var verk þess anda, sem skóp þetta lögmál samræmisins. Þessi skýring

þykir mörgum langt sótt, og hún krefst þess, sem fáir heimspekingar sætta sig við, að hún sé meðtekin sem trú án skilnings. Þá virðist mörgum erfitt að skilja, hvernig Guð getur bæði verið mónad og um leið skapari og stjórnandi allra mónada. Og þar sem ekkert getur borizt utan að inn til neins mónads, hvernig geta þeir þá haft nokkra hugmynd um hinn æðsta mónad? „Fyrir fram ákveðið samræmi" er aftur svar Leibniz. En erum við nokkru nær? Og hvernig getur mónadinn syndgað og brotið af sér gagnvart öðrum, ef hann getur ekki haft samband við neitt nema sjálfan sig? „Fyrir fram ákveðið samræmi" verður hér haldlítil skýring. Við komumst ekki fram hjá vegg staðreyndanna, þeirra, að við lifum í samfélagi við aðra menn, við aðra mónada og að þeir hafi áhrif á okkur og við á þá.

En hvað sem öllu þessu líður, hefur heimspeki Leibniz samt reynzt frjór gróður í lystigarði vestrænnar, einkum þýzkrar, menningar. Frá honum liggja margir þræðir til síðari tíma. Hann er „faðir þýzkrar heimspeki" og fyrirrennari Wolffs og Kants. Frá honum liggja einnig þræðir til þeirra Schopenhauers og Fichte.

Leibniz segist vera fæddur til hinnar beztu af öllum hugsanlegum veröldum. Hvað sem fyrir mónadinn kemur, verður honum til góðs, — í sannleika er allt, sem fyrir hann kemur, hið bezta, sem hann getur hent. Öll tilveran er þannig sigurverk, sem sett hefur verið í

gang og gengur síðan þannig, að hvert hjólið grípur inn í annars gang af óhagganlegri nákvæmni. Þetta var heimspeki aldarinnar. Hinir þrír miklu heimspekinar 17. aldar: Descartes, Spinoza og Leibniz, trúðu því, að Guð hefði ritað alla hina miklu bók tilverunnar á máli stærðfræðinnar og hana væri því hægt að lesa með augum rökfræðingsins.

Vestræn siðmenning á þessum heimspekingum það að þakka, að þeir unnu öðrum fremur að því að leysa skynsemina úr fjötrum trúarbragðanna og kenna mönnum að hugsa frjálst og leita hins sanna.

# John Locke

JOHN LOCKE var fæddur í Wrington í Englandi 29. ágúst 1632. Um þær mundir voru umbrotatímar í Englandi. Þjóðin krafðist mannréttinda. Þegar Locke var aðeins tíu ára snáði, skarst í odda milli konungsins og þingsins, og borgarastyrjöld skall á. Faðir hans vígbjóst og fór að heiman til að berjast móti kóngi og með mannréttindum og auknu frelsi. Þegar þessu stríði lauk, sá Locke, að hægt var að brjóta alveldi krúnunnar, og hann sá hana beygja sig fyrir uppreisnarmönnum — þessum uppreisnarmönnum, sem hann sá og talaði við á heimili sínu. Og þessir menn voru djarfmæltir eins og sigurvegarar, sem koma heim úr stríði. Það andrúmsloft, sem þannig varð til á heimili unglingsins John Locke, fylgdi honum síðan alla ævi. Alla tíð upp frá þessu barðist hann gegn yfirvöldum og leiðtogum, andlegum og veraldlegum. Á æskuárum sínum barðist hann gegn yfirvöldum skólans og á fullorðinsárum sínum gegn

yfirvöldum ríkis og kirkju og gerðist forystumaður í baráttunni fyrir andlegu frelsi og umburðarlyndi gagnvart andstæðum skoðunum.

Fjórtán ára að aldri var John Locke sendur í Menntaskólann í Westminster (London). Faðir Lockes var púritani,*) og þessi skóli var andlegt höfuðvígi þeirra. En það nægði ekki til að milda uppreisnareðli Lockes. Hann fékk ekki aðeins óbeit á þessum skóla, heldur menntaskólum yfirleitt. Þessir skólar, ályktaði hann, forheimska menn með því að troða þá fulla af dauðum bókstaf á latínu og grísku. Að hvaða haldi kemur slíkur lærdómur í lífinu?

Sannri menntun verður ekki þröngvað upp á nokkurn mann! Hún verður aðeins eign frjálsra manna, sem drekka af lind þekkingarinnar, vegna þess að þeir eru þyrstir, — og leita þess, sem þeir þarfnast. Sönn menntun hlýtur þess vegna fyrst og fremst að vera sjálfsmenntun. Engir nema þeir, sem eru tregir til að afla sér hennar, græða neitt á skólunum. Skólinn eykur ekki heldur manngildi og bætir hvorki siðferði né breytni.

John Locke þótti enginn fyrirmyndarnemandi í Westminster. Hins vegar fylgdist hann manna bezt með því, sem fram fór utan skólaveggjanna, og tók jafnvel þátt í þeim atburðum. Hann fylgdist af alhug með þeim öflum, sem steyptu Karli konungi I.

*) „hreintrúarmaður".

af stóli og lögðu hann undir fallöxina. Öldurnar í þingsölunum og utan þeirra risu hátt, og breytingar urðu tíðar. Árið, sem Locke útskrifaðist, hafði Oliver Cromwell náð öllum stjórnartaumum í sínar hendur. Þetta voru byltingatímar, sem altóku huga menntaskólanemandans í Westminster. Locke náði samt prófi og innritaðist í Oxfordháskóla.

Oxford hefur bæði fyrr og síðar verið fræg fyrir virðingu sína fyrir öllu, sem er gamalt og viðurkennt. Á stúdentsárum Lockes var þar ríkjandi heimspeki miðaldanna. Locke þótti þar þröngt til veggja og lágt til lofts. Stúdentarnir voru andlega ánauðugir gömlum erfðakenningum, og þeir voru haldnir ofstæki gagnvart allri „villutrú". Andlegt frelsi var þar ekki til. Púritanarnir, sem barizt höfðu fyrir frelsi gegn einveldi krúnunnar, voru hér engu betri. „Þeir, sem ákafast tala um frelsi," sagði Locke um þá, „misþyrma því allra manna mest sjálfir." Locke sneri baki við miðaldaheimspekinni og Aristotelesi, og fræðimenn Oxford, þessi ígulker hins dauða bókstafs, voru honum hvimleiðir. Álit þeirra á Locke var ekki heldur á marga fiska. Skólabróðir hans, fornfræðingurinn Anthony Wood, skrifar um hann: „Þessi John Locke var uppreisnargjarn, hávaðasamur og óeirinn. Þegar við, hinir stúdentarnir, skráðum hjá okkur í tímum ýmis atriði úr fyrirlestrum prófessoranna, hæddist þessi sami Locke að okkur fyrir þetta. Hann var

símasandi og mesti vandræðagripur." Þannig leit fulltrúi hins gamla á spámann hinnar nýju aldar.

En þótt andlegt frelsi væri ekki mikið meðal hinna akademísku borgara í Oxford þeirra tíma, átti þó trúfrelsið sína fulltrúa meðal hinna beztu manna skólans. Í þeirra hóp var John Owen, kennari Lockes. Og hér voru þó a. m. k. engir heiðursmenn, sem börðu nemendurna til bókar, líkt og gert hafði verið í Westminstermenntaskólanum. John Locke færði sér það frjálsræði í nyt og las það eitt, sem honum sjálfum sýndist. Það voru einkum bókmenntir, þar á meðal rit Descartes, sem hann tók langt fram yfir miðaldaheimspekina, þótt hann væri þeim ekki sammála í mörgum greinum. Verndari hans og ævivinur, Lady Masham, ritar síðan um þessi kynni Lockes af Descartes og telur, að þau hafi vakið hann til meðvitundar um getu sjálfs sín til skilnings á heimspeki og jafnvel afreka á því sviði. Hinn vaknandi heimur vísindanna lét hann ekki heldur ósnortinn. Hann tók af lífi og sál þátt í tilraunum og vísindum „Royal Society", sem stofnað var um þessar mundir í Oxford (1660). Guðfræðina lét hann sér ekki heldur óviðkomandi, heldur las hana af samvizkusemi. Sumir segja, að Locke hafi jafnvel um eitt skeið ætlað sér að verða prestur. Þó virðist honum hafa þótt hún jafnsteinrunnin og miðaldaheimspekin. Hann vildi standa föstum fótum í veruleikanum. Hann vildi komast til sannleikans, hins augljósa sannleika. Hann hafnaði í læknisfræðinni.

Loks lauk hann prófi án þess að geta sér verulegs námsframa og tók að kenna grísku og mælskufræði á staðnum. En hugur hans var farinn að beinast að stjórnmálum. Hvað var að gerast í Englandi? Cromwell hafði látizt 1658, og leiddi það til upplausnar í landinu, sem varð enska lýðveldinu að falli. England hverfur aftur undir drottinvald kóngs og kirkju, og Karl II. sezt í hásætið. Í fyrstu virðist Locke vona, að festa komist með þessu á stjórnarfarið, sem veiti mönnum frið og öryggi. Og byltingamaðurinn lýtur höfði: „Hvað mér viðvíkur," ritar hann um þessar mundir, „þá er enginn, sem hefur meiri virðingu og ást á yfirvöldum en ég." En brátt verður „þessi sami málgefni John Locke" þögull sem steinn. Hann fann skóinn kreppast að fætinum. Orð sögð gegn yfirvaldi urðu aftur hættuleg þeim, sem talaði.

En þó að fátt væri sagt, brutust þó í honum hugmyndir um nýtt þjóðfélag, sem tryggði einstaklingnum frelsi og öryggi, þar sem umburðarlyndi og skilningur kæmi í stað kúgunar og hleypidóma. Vegna þessa innra ástands réðst hann einkaritari í þjónustu Sir William Swan, ensks sendiherra, og fór með honum 1664 til Þýzkalands. Kynntist Locke í þessari ferð mönnum og málefnum, og þegar hann kom heim árið eftir og byrjaði að stunda lækningar í Oxford, var hann orðinn margfróður um stjórnmál. Þessi stjórnmálaáhugi og kunnátta varð segull, sem dró til sín ný tækifæri.

Einn voldugasta stjórnmálamann Englands, Askley lávarð, sem síðar varð jarl af Shaftesbury, bar að garði í Oxford. Lávarðurinn hafði kýli á bringu og leitaði sér lækninga á staðnum hjá lækni einum, Thomson að nafni. Gosdrykkur var reyndur til að hreinsa blóðið. Vegna mistaka var umræddur drykkur eitt sinn ekki við höndina, og læknirinn bað Locke því að fara til lávarðarins og afsaka þessi mistök. Tóku þeir þá tal saman. Locke réð þá m. a. lávarðinum til að láta skera kýlið, og var svo gert. Aðgerðin dugði, og fékk lávarðurinn fullan bata. Vegna þessa atburðar kynntust þessir tveir menn og fundu, að þeir áttu margt sameiginlegt, m. a. urðu báðir að leyna þeirri óbeit, sem þeir höfðu undir niðri á yfirdrottnun krúnunnar, og þeirri þröngsýni og ofsóknum, sem henni fylgdi. Varð kunningsskapur þeirra brátt vinátta, sem hélzt, meðan báðir lifðu.

Vegna vináttu sinnar við lávarðinn yfirgefur Locke Oxford og flyzt í hús hans í London (Exeter House).

Í þessu húsi fann Locke sjálfan sig til fulls eftir dvölina í hinu akademíska andrúmslofti Oxfordborgar. Hann blandaði geði við menn af öllum stigum og barðist fyrir frjálsri hugsun og málfrelsi, sem Karl II. reyndi að afmá. Í Exeter House safnaði hann um sig nokkrum heimspekingum, sem komu þar saman til að rökræða „trú og siðfræði". Í þessum rökræðum sínum komust þeir brátt að landamærum hins óþekkjanlega. Tókust þeir þá einnig á hendur að draga skýra

markalínu milli þess, sem unnt er að þekkja, og hins ókannanlega. Árangur þessara viðræðna birtist ekki fyrr en tuttugu árum síðar í riti Lockes: Essay concerning Human Understanding.

Á þessum árum gekk Locke þó ekki heill til skógar. Hann hafði fengið astma og átti jafnan við vanheilsu að búa upp frá því.

Bæði Shaftesbury og Locke féllu skjótt í ónáð hjá konungi vegna hinna frjálslyndu skoðana sinna, og varð þá Locke að fara úr landi (1675) og dvaldist fjögur ár í Frakklandi. Þegar heim kom, var vinur hans nýkominn frá dómstólunum, þar sem hann hafði verið ákærður fyrir drottinsvik — en náðaður. Árið eftir var hann sagður hafa tekið þátt í samsæri gegn konungi og var þá settur í fangelsi. Hann komst þó undan og flúði til Hollands, en lézt þar skömmu síðar.

John Locke fluttist þá enn til Oxford, en hafði sig ekki í frammi. Stjórnin óttaðist hann þó og sendi njósnara til að gefa skýrslu um lifnaðarhætti hans þar. Hið eina, sem hann uppgötvaði, var, að Locke „lifði refslegu og óskiljanlegu lífi, væri 2 daga heima og 3 að heiman, og enginn vissi, hvert hann færi eða hvenær hann færi og kæmi.“ Stjórnin fékk þá annan njósnara til að gefa sér skýrslu um hagi Lockes. Var það sjálfur biskupinn í Oxford og deildarstjóri Kristskirkju. Hann varð heldur einskis vísari. „Mjög oft,“ segir hann í skýrslu sinni, „hef ég bæði í einkaviðræðum og í annarra áheyrn að yfirlögðu ráði byrjað að tala um niður-

lægingu jarlsins af Shaftesbury, en aldrei var með því hægt að egna hann (Locke) til að skipta sér neitt af því eða finna á honum, í orðum hans eða fasi, að hann skipti þetta nokkru máli." Þannig hafði gyðja skynseminnar kennt þessum „málgefna vandræðagrip," að þögnin er gull, — jafnvel líf og frelsi.

Stjórnin gat því ekki fundið neina ástæðu til að heiðra fangelsi sín með fangavist þess manns, sem gerði Englendinga að forystuþjóð vestrænnar menningar. Ekki vildi þó Locke freista hennar um of og yfirgaf land, svo lítið bar á 1683, sama ár og vinur hans, Shaftesbury, lézt í Hollandi. Locke fór til Haag eins og hundruð annarra, sem ofsóttir voru í heimalandi sínu vegna skoðana sinna.

Englandsstjórn reyndi jafnvel þar að hafa hendur í hári hans og fá hann framseldan. Varð Locke því að flytjast inn á landsbyggðina.

Locke var nú 54 ára að aldri. Hann hafði verið síkrifandi í Englandi, en aldrei fengið neitt gefið út. Hér kom hann fyrstu verkum sínum á prent. Meðal þeirra var Epistola de tolerantia (Bréf um umburðarlyndi), sem hann skrifaði á þeirri „dauðu tungu," latínu. Hér kynntist hann einnig verkum Spinoza að einhverju leyti og lagði síðustu hönd á mesta afrek ævi sinnar, bókina Essay concerning Human Understanding.

Á þessum sex árum, sem Locke var í útlegð í Hollandi, fóru vinsældir Stúartanna stöðugt minnkandi

í Englandi. Ekki aðeins þingið og alþýða manna, heldur einnig aðallinn varð konungi andvígur. Var ólga mikil í landinu, og lá við byltingu. Stjórnin hafði sett Locke á svartan lista með 85 „þjóðhættulegum“ mönnum í útlegð í Hollandi. Og víst var um það, að þessi flokkur reri öllum árum að því að steypa stjórninni. Árangurinn kom í ljós, þegar Vilhjálmur af Óraníu hélt með her manns til Englands, steypti konungi landsins, tengdaföður sínum, Jakobi II., og settist sjálfur að völdum 1689.

Útlögunum, hinum 85 þjóðhættulegu mönnum, í Hollandi, var þá aftur leyft að hverfa heim og var fagnað sem þjóðhetjum. John Locke var þar fremstur í flokki. Í fyrsta sinn var hann frjáls maður, sem gat talað og skrifað án ofsókna yfirvalda. Hann var nú 57 ára að aldri, og þau 15 ár, sem hann átti eftir ólifuð, voru beztu og athafnasömustu ár ævi hans þrátt fyrir mikla vanheilsu. Bækurnar, sem hann hafði skrifað, en gat ekki gefið út, komu nú hver á fætur annarri. Þær voru ekki aðeins um heimspeki, heldur einnig um stjórnmál, hagfræði og uppeldismál. Þessar bækur vöktu gífurlega athygli, og varð Locke brátt á allra vörum.

Átjánda öldin var að fæðast. Einnig hún var borin með þrautum. Hæst lét í prestunum og háskólaborgurunum, úttroðnum af lærdómi. Stillingfleet biskup yfir Worchester reis upp fyrir hönd þeirra, sem litu á bókstaf ritningarinnar sem óyggjandi sann-

indi. Áttust hann og John Locke lengi við í ritdeilum. Vegna kröfu sinnar um umburðarlyndi lenti hann í deilum við ýmsa stjórnmálamenn og öndvegisrit hans, Essay concering Human Understanding, var með sérstakri athöfn fordæmt af Oxfordháskóla. Þessari akademísku bannfæringu er nú löngu létt og John Locke talinn ágætastur allra, sem til þessa fræga menntasetMurs hafa komið. Þessi mótstaða gat vitanlega ekki kveðið Locke niður fremur en fæðingarhríð stöðvar barnsburð.

Locke hafði sigrað eftir langa og stormasama ævi. Hann fluttist út á landsbyggðina frá Lundúnum, sem hann þoldi illa vegna vanheilsu sinnar, til hinnar gömlu vinkonu sinnar, Lady Masham, og manns hennar, Sir Francis.

Haustið 1704, þegar síðustu laufin voru að falla í garði Lady Masham og John Locke var að rita svar við einni af þeim árásum, sem gerðar höfðu verið á rit hans um umburðarlyndið, talaði dauðinn einnig til heimspekingsins John Lockes. Og eins og allir, sem lengi hafa staðið í návígi við dauðann í samtíð sinni, tók hann karlmannlega kveðju þessa gests.

## Heimspeki Lockes

„Ég hugsa, þess vegna er ég til," sagði Descartes. „En hvaðan koma þessar hugsanir?" spyr Locke. Sannleikurinn býr í manninum sjálfum, sögðu Plató og Sókrates: — Þekktu sjálfan þig, og uppgötvaðu sál þína, því að í henni búa hinar fullkomnu hugmyndir um góðvild, sannleika, fegurð og réttlæti. Þessar hugmyndir eru þar meðfæddar hverjum manni, þótt þær kunni að vera dulvitaðar og maðurinn viti því ekki um þær. John Locke ræðst á kenninguna um þessar meðfæddu hugmyndir og spyr: Ef sannleikurinn er til í manninum sjálfum, ef hann kemur innan að, hvernig getum við þá lært nokkuð nýtt? Skynjun og reynsla gætu þá ekki frætt okkur um neitt nýtt, ekki gefið okkur neina nýja hugmynd, aðeins, þegar bezt léti, staðfest þá hugmynd, sem við áður áttum í huga okkar og kom innan að. Og þó að sagt sé, að hugmynd kunni að vera dulvituð, heldur Locke áfram, er það þá ekki mótsögn í sjálfri sér? Að segja, að hugmynd sé í huga okkar, og halda því um leið fram, að hugurinn viti ekki um hana, er sama og að segja, að hún sé til og sé ekki til, því, það, að eitthvað sé í huga manns, þýðir einfaldlega, að við vitum eða skiljum eitthvað. Nei, við komum ekki með neinar hugmyndir inn í þennan heim! Það eru ekki til neinar hugmyndir, sem koma innan að, engar hug-

myndir, sem fæddar eru í vitund mannsins, óháðar skynjun og reynslu. Allar hugmyndir, sem við geymum í hugskoti okkar, hafa komið utan að gegnum skynfærin. Hugurinn án skynjunar skynfæranna er auður og tómur, líkt og óskrifað blað eða myrkur klefi, sem engin ljósglæta fellur inn um. Þannig er hugur kornbarnsins, áður en skynfærin skrá þar stafróf sitt. Þannig væri einnig hugur manns, sem ekkert skynjaði. Hver mynd, sem augað tekur, er ljósrák, sem fellur gegnum rifu á þessum dimma klefa hins vaknandi skilnings. Hvert hljóð, sem eyrað nemur, dregur örlítið tjaldið frá glugganum. Hver snerting, sem barnið verður fyrir, hreyfir hurðir ofurhægt frá stöfum. Allt þetta, sem leitar á skynfærin, opnar að lokum dyr og glugga á húsi skilningsins, og heimur hinna mannlegu hugmynda hefur þá fæðzt.

En þessi ytri skynjun er manninum þó ekki nægileg til að eignast hugmyndir. Vísindin geta til dæmis fundið upp tæki, sem taka mynd af einhverju í hinni ytri veröld. En þessi mynd verður aðeins dauð og óvitandi mynd. Hún gæti aldrei orðið hugmynd, sem vissi um sína eigin tilveru. Vísindin geta fundið upp tæki, sem tekur á móti hljóðum og snertingu, en þessi hljóð og þessi snerting gætu aldrei orðið neitt annað en hljóð og snerting, aldrei hugmynd, sem vissi um sína eigin tilveru. Augljóst er því, að skynfærin ein eru ekki nægileg til að skapa þær hugmyndir, sem við einu nafni köllum hug. Locke talar því um hina innri

skynjun eða íhugun. Þessi íhugun safnar saman myndum skynfæranna, leggur mat á þær, raðar þeim niður, greinir þær sundur og setur þær saman. Þessi íhugun er því ekkert annað en það, sem almennt er kallað skilningur. Locke heldur því þannig fram, að ekkert sé til í vitund eða skilningi mannsins, sem hafi ekki áður farið um skynfæri hans. Þeir, sem fylgja heimspeki Platós og Sókratesar, bæta við: — „nema skilningurinn sjálfur!" — Maðurinn fæðist með skilningsgáfu til að taka á móti skynjuninni, segja þeir. Locke hefur hvergi mælt gegn því, að skilningurinn sé til. Hann segir aðeins, að þær hugmyndir, sem til hans berast, komi aðeins utan að, en séu aldrei meðfæddar eða komi innan frá. Ágreiningurinn er því ekki um það, hvort til sé skilningur, heldur hvaðan hugmyndirnar berist honum. Koma þær að einhverju leyti innan að; eru þær eðlislægar og til án ytri skynjunar, þótt hin ytri skynjun kalli þær að nokkru leyti fram? Eða koma þær eingöngu utan að gegnum hlið skynfæranna? Frá sjónarmiði Lockes er algerlega skotið fram hjá markinu með því að segja, að ekkert sé í skilningnum, sem ekki hafi fyrst verið í skynfærunum, — nema skilningurinn sjálfur. Locke hefur aldrei afneitað skilningnum sem slíkum, aðeins fullyrt, að til hans bærist ekkert innan að, að engin hugmynd væri til, sem er manninum meðfædd. Allt, sem til hans berst og vekur hann, kemur utan að um skilningarvitin, sem ein geta veitt honum efniviðinn í hugmyndir sínar: Án

skilningarvitanna verður því vitundin algerlega auð og formyrkvuð. Þó að skilningurinn sé þannig formyrkvaður án skynfæranna, er þó ekki þar með sagt, að þau skapi hann. Þvert á móti, eins og sýnt er fram á hér að framan, geta skynfærin aldrei skapað hugmynd eða hugsun. Sá leyndardómur, hvað skilningurinn er í sjálfu sér, virðist okkur því jafnhulinn eftir að hafa lesið heimspeki Lockes, enda frá hans sjónarmiði ekki hægt að þekkja þann leyndardóm.

Þetta, hvaðan hugmyndir okkar koma, er hið fyrsta af þremur helztu vandamálunum í heimspeki Lockes. Hinar tvær eru: — Hvernig getum við vitað, hvort hugmyndir okkar eru sannar, hvernig getum við vitað, hvort skynfærin blekkja okkur ekki? Og að lokum: — Hvar eru takmörk mannlegs skilnings? Athugum fyrst fyrri spurninguna. Eru hugmyndir okkar sannar, eða erum við blekkt af skynfærunum? Locke biður menn fyrst að gera sér grein fyrir því, hvers eðlis hugsanirnar séu. Sézt þá, að um tvenns konar hugmyndir er að ræða: einfaldar hugmyndir og margbrotnar hugmyndir. Einföld hugmynd eins og t. d. þéttleiki verður til þannig, að við sjáum hlut, finnum þyngd hans og hugsum um leið: „Þetta er þungt." Skynjun (tilfinning) og íhugun (skilningurinn) mynda hugmyndina í sameiningu, um leið og við þreifum á hlutnum. Þannig eignumst við aragrúa af hugmyndum, það er að segja hugmyndir um alla þá hluti, sem við yfirleitt þekkjum. Hugurinn getur raðað þessum

einföldu hugmyndum niður á óendanlega margbreytilegan hátt og þannig skapað úr einföldum hugmyndum flóknar hugmyndir. En í flóknustu hugmynd okkar er þó aldrei neitt, sem ekki er byggt á einföldum hugmyndum, sem skynjunin og reynslan gáfu okkur. Þessar hugmyndir okkar hljóta því að reynast svo margbreytilegar, að ekki er hægt að skipa þeim öllum í einn flokk og kalla þær allar annaðhvort sannar eða blekkingu. Jafnvel einfaldar hugmyndir okkar, þær sem skapast við beina skynjun, eins og t. d.: „Þetta er blátt.“ — „Þetta er hnöttótt.“ — „Þetta er þungt,“ — o. s. frv., eru ekki allar jafnsannar vísindalega frá sjónarmiði Lockes. Það fer eftir eiginleika hugmyndanna, hvort þær eru heimspekilega sannar eða ekki. Sannar eru þær hugmyndir, sem eru óháðar skynjuninni og yrðu alltaf sami ytri raunveruleikinn, hvernig sem á þær væri litið. Í þeim hópi eru t. d. hugmyndirnar rúm, lögun, fjöldi og þéttleiki eða þyngd. Tökum t. d. hveitikorn. Kljúfum það eins oft og okkur þóknast. Hvernig sem við förum að, munu þessir eiginleikar vera fyrir hendi. — Aðrir eiginleikar, eins og litur, hljóð, lykt og bragð, eru háðir skynfærunum og ekki til án þeirra: Án sjónar gæti enginn litur verið til, án heyrnar ekkert hljóð o. s. frv. Hið fyrrnefnda verður alltaf til, vegna þess að það er sjálfstæður veruleiki. Hið síðara breytist, kemur og fer og er háð skynfærunum.

Og nú er tímabært að spyrja, hvort þessi heimur

skynfæranna sé þá í raun og veru til í sjálfum sér? Er víst, að allar þessar hugmyndir okkar séu annað en blekking? Locke svarar því hiklaust, að viss þekking okkar geti verið raunveruleg og sönn. Að vísu eru, eins og fyrr segir, hugmyndir eins og: „Þetta er blátt" (litur). „Þetta er salt" (bragð). „Það er kalt" (tilfinning). „Þetta er birkiilmur" (lykt), — ekki vísindalega sannar hugmyndir.

Allt þetta verður til í vitund mannsins vegna eiginleika skynfæranna, og sú hugmynd, sem þau skapa um þessa hluti, er ekki til í hlutunum sjálfum, heldur eingöngu í vitund þess, sem þá skynjar. En annað, sem menn skynja, svo sem þyngd, lögun og hreyfing, er hinn sanni veruleiki þessara hluta, og þess vegna hin sanna, vísindalega þekking. Hins vegar viðurkennir Locke, að skilningurinn nái aldrei út fyrir sínar eigin hugmyndir. Og þar sem hugmyndirnar byggjast á skynjun og skynjunin á takmörkunum skynfæranna, þá er ekki óhugsandi, að allar hugmyndir okkar séu aðeins sannar frá vissu sjónarmiði, en eigi sér ekki neinn stað í þeirri veröld, sem er utan þessara takmarka skynfæranna. Og hér skapast vandamál, sem Berkeley reynir að leysa með þeirri kenningu, að ekkert sé til nema hugmyndir. John Locke aftur á móti leggur áherzlu á, að hin ytri veröld sé til í raun og veru, þótt við þekkjum hana ekki réttilega, nema hugmyndir okkar svari nákvæmlega til þessum veruleika.

En hvað er þetta þá, sem við vitum, og hver eru takmörk þekkingar okkar?

Hið fyrsta, sem við getum vitað, er, að við, eins og Descartes sagði, erum til. Það er hafið yfir allar deilur. Við vitum líka, að veröldin er til, því að þótt við þekkjum ef til vill ekki veröldina eins og hún er, þá er það þó hún, sem vekur skynjun okkar og skapar þar með allar okkar hugmyndir. Þetta sést bezt á því, að blindur maður getur ekki eignazt hugmyndina „blátt" eða „rautt", jafnvel ekki frá öðrum. Heyrnarlaus maður getur ekki fengið neina hugmynd um lag eða hljóm. Og algerlega tilfinningalaus maður gæti ekki þekkt þær hugmyndir, sem við köllum til dæmis heitt eða kalt. Þetta sannar, að það er hin ytri veröld, sem vekur hugmyndir okkar, en það sannar aftur, að hún er til.

Þessi ytri tilvera getur með sínum algildu eiginleikum vakið eða skapað afleidda eiginleika í skynjun og hugmyndaheimi mannsins. Þessi niðurstaða beinir Locke aftur út á þá braut að rekja keðju orsakanna, líkt og Descartes, til hinnar fyrstu orsakar, sem setur allt á hreyfingu og lætur síðan veröldina ganga af sjálfri sér. Locke talar því, að vísu eins og hálfnauðugur, um persónulegan guð, sem hann segir, að sé hin fyrsta orsök veraldarinnar. Á sama hátt og Locke tileinkar sér kenningu Descartes um hina fyrstu orsök, nálgast hann kenningu Spinoza um undirstöðuna, sem hann í fyrri hluta bókar sinnar, An Essay Concerning Human

Understanding, hyggst kveða niður. Locke hélt því fram, að hin ytri veröld fyllti skilningarvitin og skilningarvitin bæru síðan myndir sínar til skilningsins. En hvað er þessi skilningur, sem tekur á móti þessum skynmyndum og gerir þær að hugmyndum? Hvað er það, sem hugsar? Locke getur ekki vitað það. Hann kallar það „hið óþekkta eitthvað“. En hvað er þetta óþekkta eitthvað annað en undirstaðan, undirstaða, sem við getum ekkert vitað um fremur en Guð eða sálina, sem þó hvort tveggja er til að áliti Lockes. Er það þá ekki einmitt þetta tvennt (undirstaðan (guð) og sálin), sem er að baki allra hugmynda okkar? En þessi spurning er ekki á dagskrá, því að hér dregur Locke línu, sem hann bannar öllum komandi heimspekingum og vísindamönnum að stíga yfir. Hér eftir verða allir heimspekingar og vísindamenn að skilja, að þeir þekkja ekkert nema sínar eigin hugmyndir byggðar á skynjun, reynslu og rökvísi. Utan þess þekkja þeir ekkert og geta ekki þekkt neitt. Allar tilraunir í þá átt eru fyrir fram dæmdar. Heimspeki líkt og vísindin verður eftirleiðis að halda sig innan þessa hrings. En þetta boðorð hefur þó verið brotið, líklega af öllum heimspekingum, og víst er um það, að ekki gat Locke að öllu leyti haldið það sjálfur. Samt sem áður er þetta boðorð upphaf hinnar vísindalegu heimspeki, sem hefur ekkert að segja um sálina, ekki heldur Guð, ekki heldur um neitt að baki hugmyndum okkar, jafnvel ekki þótt það kynni að skapa þessar hugmyndir og vera hin innri

orsök þeirra, vera með öðrum orðum það, sem hugsar. Hin nýja heimspeki verður eingöngu að halda sig innan síns hrings og fjalla eingöngu um skynjun okkar, reynslu og rökhyggju. Hún verður að vinna sannleikann úr þessum málmi einum með aðferð stærðfræðingsins, sem þó hefur glatað trú Descartes, Leibnez og Spinoza á, að stærðfræði sé nokkur himnastigi til æðri skilnings eða lykill að dyrum alvizkunnar. Heimspeki á þessu stigi þróunar sinnar líkist barni, sem hættir sér í fyrsta sinn út úr húsi sínu, fellur á götunni, kemur sært heim og neitar að fara út aftur.

En þó að líta megi á Locke sem einn þeirra heimspekinga, sem leggja grunninn að reynsluheimspekinni, fer því fjarri, að Locke neiti öllu nema því, sem við reynum eða skynjum, og viðurkenni sannleiksgildi allrar reynslu. Hann afneitar reynslunni til dæmis, þegar hann talar um eðlismun upphaflegra og afleiddra eiginleika, og neitar, að hinir síðarnefndu séu til í raun og veru. Við teljum okkur hafa jafnáreiðanlega reynslu fyrir því til dæmis, að blóðið sé rautt og það sé jörð undir fótum okkar. Locke aftur á móti teldi hið fyrra ekki raunverulegt (það er afleiddur eiginleiki, litur), en hið síðara raunverulegt (upphaflegur eiginleiki, víðátta og viðnám). Í öðru lagi talar Locke um „ég-ið“ og viðurkennir þar með það, sem t. d. Hume og aðrir reynsluheimspekingar kasta fyrir borð. Hann talar líka um Guð og telur hann stjórna allri tilverunni. Og hann heldur því fram, að til séu ákveðin sið-

ferðislögmál: að eitt sé rétt og annað rangt og að guð umbuni mönnum og refsi þeim eftir breytni þeirra, þ.e.a.s. eftir því, hvort þeir lifi í samræmi við þessi lögmál eða brjóti þau. Af þessu má sjá, að Locke hugsaði og viðurkenndi of marga hluti til að vera hreinn reynsluheimspekingur. Hann vísaði engu máli frá sér á þeim forsendum, að það tilheyrði ekki sinni grein eða væri utan við vísindi eða „rétta" heimspeki. Hann leitaði hins sanna í hverju máli og viðurkenndi rétt annarra til hins sama. Umburðarlyndið varð fyrsta og síðasta orðið í kenningu hans, og fyrir hans starf meira en nokkurs annars manns varð England eftir valdatöku Vilhjálms af Oraníu annað landið í heiminum til að viðurkenna rétt mannsins til að hugsa frjálst og láta skoðanir sínar í ljós. Hollandi hafði bætzt nýr og öflugur bandamaður í baráttunni fyrir frelsinu. Nú varð England einnig „skálkaskjól fríhyggjumanna," sem urðu að flýja land vegna skoðana sinna. Og þetta frelsi varð Englendingum nú sama lyftistöngin og það hafði áður verið Hollendingum. Vegna þessa frelsis varð England andlegt og veraldlegt forysturíki álfunnar. Og víst verður þess lengi minnzt, að sá, sem barðist þar bezt fyrir hugsjón hins nýja tíma, var heimspekingurinn John Locke.

# George Berkeley

EFTIR ensku byltinguna 1688 öðluðust Englendingar í fyrsta sinn þau dýrmætu mannréttindi að mega hugsa frjálst og láta skoðanir sínar í ljós án verulegra refsinga af hálfu ríkisvaldsins eða kirkjunnar. Öll þau öfl, sem bæld höfðu verið niður af þessum drottinvöldum, brutust því fram af tvöföldum krafti líkt og gos, sem kastar af sér steinrunnu fargi. Gamlar kenningar og trúarhugmyndir voru gagnrýndar undir smásjá skynsemi og vísinda. Kirkjan átti mest í vök að verjast. Stundum var ráðizt á hana af illvild og grunnfærni, stundum af eldmóð manna, sem leituðu hins sanna og vildu afhjúpa alla blekkingu. „Trúleysingjar" og „fríhyggjumenn", eins og margir hafa kallað þá, notuðu óspart hið nýfengna frelsi, og hver stórbókin rak aðra frá þeirra hendi. Nægir t. d. að benda á rit eins og Christianity not Mysterious (1696) eftir John Toland, A Discourse of Freethinking (1713) eftir Arthur Collins og A Discourse concerning Reason with regard

to Relegion (1730) eftir Thomas Chubb. Efnishyggjan fór vaxandi, og trú manna á sálina og annað líf þvarr, þar sem þessi trú var byggð á kenningum kirkjunnar, kenningum, sem margir voru farnir að efast um. Hinir gömlu feður rétttrúnaðarins hristu sínar gráu hærur yfir rangsnúnum tíðaranda og kenndu um frelsinu. En þeim skjátlaðist. Frelsið leiðir alls staðar til framfara, andlegra og veraldlegra, og það knýr sannleikann fram í dagsljósið. Rit þessara nýju manna stóðu að anda og sannfæringarkrafti framar hinni venjulegu ræðu klerksins. — Hún gat ekki svarað rökum þessara manna. Ef kirkjan átti að halda velli, urðu þar að koma fram nýir menn og betri. Og þeir komu. Þannig lyftir frelsið alls staðar andlegum þroska. Frægastur þessara manna, sem reis upp til varnar sálunni og ódauðleikanum, var írskur biskup, George Berkeley, sem Henri Bergson (franskur heimspekingur, 1859—1941) kallaði „föður nútímaheimspeki".

George Berkeley fæddist í Kilcrene, nálægt borginni Kilkenny á Írlandi, 12. marz 1685 og ólst upp í Dysartkastala í nánd við Thomastown. — Ungur að árum fór hann til Dyflinnar og settist á skólabekk í Trinity College. Vakningaralda gekk þá yfir borgina (um aldamótin 1700), og nýtt vín var komið á hina gömlu belgi menntastofnunarinnar. Nýir menn höfðu innleitt þar nýja siði. Nemendur voru hvattir til að endurskoða viðteknar hugmyndir, og Peter Browne (settur rektor skólans 1699) útbreiddi þar hina nýju heimspeki John

Lockes, en gagnrýndi hana þó um leið. Berkeley las af kappi námsgreinar sínar: latínu, grísku, heimspeki, rökfræði og stærðfræði og lærði auk þess frönsku og hebresku á eigin spýtur. Áður en hann náði tvítugsaldri, hafði hann skrifað bók á latínu um vísindaleg efni. Slíkar voru þær kröfur, sem gerðar voru til menntamanna í byrjun 18. aldar. Berkeley gerði einnig í tómstundum sínum tilraunir með eitt og annað viðvíkjandi eðlisfræði og sálfræði. Meðal annars braut hann mjög heilann um eðli dauðastundarinnar. Sú saga er sögð, að eitt sinn, er hann og vinur hans Contarini (föðurbróðir Goldsmiths) sáu mann hengdan á torgi einu í Dyflinni, hafi Berkeley beðið vin sinn að hengja sig í tilraunaskyni. Contarini er sagður hafa orðið við þessari bón. Berkeley missti meðvitundina í snörunni og hafði þar nær látið líf sitt. Hann hresstist þó brátt aftur. Sagan er vafalaust ein þeirra mörgu sagna, sem komust á kreik um Berkeley og eiga rót sína að rekja til gamansamra skólabræðra. Í ýmsum ævisögum, sem skráðar eru um Berkeley, er þessi saga sögð, þó að enginn fótur finnist fyrir henni, og um leið er oft brugðið upp mynd af honum sem „ofvita“, sem reikar viðutan um stræti borgarinnar og brýtur heilann um þá heimspeki sína, að ekkert efni geti verið til. — Þeir, sem illgjarnastir eru, láta hann á þessu sveimi sínu reka sig harkalega á einhvern steinvegg borgarinnar og tauta um leið og hann þerrar blóðið af nefinu: „Gerir ekkert, gerir ekkert til. Það er ekkert efni

í þessu.“ Þessi mynd af ofvitanum er vitanlega aðeins skopstæling. Berkeley var fullkomlega heilbrigður unglingur, sem skynjaði veruleikann engu síður en hver annar. — Hann ól aðeins með sér nýjar hugmyndir um þennan veruleika, hugmyndir, sem voru öðrum framandi og því misskildar og stundum hafðar að háði.

Skólaferill Berkeleys var hinn glæsilegasti og námsafrek hans voru verðlaunuð. En auk þess var Berkeley fæddur heimspekingur, sem um tvítugt setti fram í dagbók sinni (sem gefin var út löngu síðar) frumlega lausn á þeirri ráðgátu, sem frægustu heimspekingar eins og Descartes, Spinoza, Leibnitz og Locke gátu að hans dómi aldrei leyst á viðunandi hátt. Þetta var ráðgátan um „sambandið milli anda og efnis“. Lærisveinninn við Trinityskólann gerðist brátt kennari. Hann flutti fyrirlestra um guðfræði, grísku og hebresku. Merkari voru þó ritstörf hans. Aðeins tuttugu og fjögurra ára að aldri skrifaði hann An Essay towards a New Theory of Vision (Dublin 1709). Með þeirri bók leggur hann grunninn að heimspeki sinni. Árið eftir kom út eftir hann annað rit, A Treatise concerning the Prinsiples of Human Knowledge. Í þeirri bók segir hann sitt síðasta orð um sambandið milli anda og efnis. Hún er lokaniðurstaða hans eftir fimm ára íhugun. Og þar fellir hann endanlegan dauðadóm yfir efni og efnishyggju.

The Principles er bezta rit Berkeleys, og er hvergi hægt að finna höggstað á því, ef það er rétt skilið og

þar engu bætt við. Bókin fékk þó daufar undirtektir, og þeir fáu, sem lásu hana, misskildu hana og höfðu hana og höfund hennar að háði fyrir að halda því fram, að ekkert efni væri til.

Berkeley sárnaði þessi misskilningur og setti heimspeki sína fram á nýjan og aðgengilegri hátt í Three Dialogues between Hylos and Philonous. Það rit kom út tveimur árum eftir The Principles og er talið með læsilegri bókum um heimspeki. Þar setur Berkeley fram á ljósan hátt rök hinnar algeru hughyggju, sem knésetja skyldu alla þessa háværu efasemdamenn og guðleysingja aldarinnar. Eftir þessi miklu afrek hins hálfþrítuga manns fór Berkeley til Englands með handritið að Three Dialogues between Hylos and Philonous til þess að fá það prentað þar og kynnast um leið andans mönnum á Englandi.

Berkeley kom, sá og sigraði. Í Lundúnum þeirra tíma stóð „hressingarskáli" skáldanna opinn hverjum þeim, sem kunni að tala og skrifa. Eftir Berkeley höfðu þegar komið 4 bækur, og hann var manna mælskastur. Landar hans tveir, báðir heimskunnir menn, Richard Steele (fæddur í Dyflinni 1672) og Swift, sem var af írsku bergi brotinn og stundað hafði nám við sama skóla og Berkeley, höfðu báðir kynnzt bókum hans, og er talið, að Swift hafi fengið hugmynd sína um Gúllíver við lestur bókarinnar Essay on Vision. Þessir tveir vinir Berkeleys kynntu hann öðrum meisturum enskra bókmennta. Næstu 10 mánuðina er Berkeley

ýmist að finna í leikhúsi með skáldunum Addison og Pope, í Pall Mall kaffistofunni með Steele og frænda(?) sínum, Berkeley lávarði, í bókhlöðum háskólans með Smalridge, við skál með Swift — eða í návist sjálfrar Englandsdrottningar (Karolínu) í kappræðum um trúmál við Samuel Clarke. Hvar sem Berkeley kom, vakti hann athygli og gat sér mikið nafn. Hann varð umdeildur. Addison, sem Berkeley kallar mikinn heimspeking, setti eftir kynni sín af Berkeley fram skoðanir í ætt við heimspeki hans í kvæði sínu The spacious firmament. Byron orti um Berkeley og neitar að taka mark á þeirri heimspeki, sem afneiti efninu. Pope minnist hans einnig í ljóði og eignar honum þar allar dyggðir, sem finnast undir sólinni. Aðrir, eins og hinn frægi læknir Arbuthnot, gerðu góðlátlegt gys að Berkeley. Arbuthnot skrifar Swift meðal annars: „Aumingja heimspekingurinn hann Berkeley hefur nú hlotið hugmyndina bata, sem var mjög erfitt að koma inn í kollinn á honum, vegna þess að hann gekk með hugmynd um undarlegan sjúkdóm, og þessi hugmynd var svo þrálát, að erfitt reyndist að útrýma henni."

Bezti vinur Berkeleys var þó Swift. Þeir voru manna ólíkastir, en þó bundnir órjúfandi böndum, og hélzt vinátta þeirra, meðan báðir lifðu. Swift kynnti Berkeley fyrir einum kunnasta stjórnmálamanni Englendinga á þeirri tíð, Peterborough lávarði. Lávarðurinn var um þær mundir á förum frá Englandi, þar sem

hann hafði ýmsum störfum að gegna utanlands. Átti hann að þessu sinni meðal annars að vera sérstakur sendiherra Englands við krýningu nýs konungs á Sikiley. Það var venja lávarðarins að hafa sérstakan prest í þjónustu sinni. Annars var lávarðurinn ekki sagður neinn sérstakur trúmaður, — sumir sögðu jafnvel, að hann væri alveg trúlaus. Messa heimspekings var honum þó ekki mótfallin. Hann fór þess því á leit við Berkeley, að hann gerðist prestur sinn. Berkeley, sem hafði mikla löngun til að kynnast öðrum þjóðum, tók boðinu.

Í París komst Berkeley í kynni við heimspekinginn Malebranche, þá fjörgamlan mann. Biskupinn Joseph Stock segir í bók sinni um Berkeley, að deilurnar milli þessara tveggja heimspekinga hafi orðið svo harðar, að þær hafi lagt Malebranche í gröfina. Vera má, að ákaft hafi verið deilt, en hins vegar lézt Malebranche ekki fyrr en tveim árum eftir þessar viðræður, þá 77 ára að aldri. Frá París var haldið suður til Lyon. Þar sá Berkeley í fyrsta skipti líf Suðurlandabúa, sem létu hverjum degi nægja sína þjáningu, léku sér að flugeldum og dönsuðu kringum gullkálfinn. Berkeley þótti lítill samanburður á rauðvíni og glaumi suðursins og sínu eigin neftóbaki og alvöru hins norræna manns: „Englendingar þurfa lítið að óttast þessa úrkynjuðu þjóð,“ skráði hann í dagbók sína um þessar mundir. Lávarðurinn fór sjóleiðis til Ítalíu, — þjónar hans lögðu á brattann yfir Alpana. Það var hávetur, klofsnjór og

hríðarveður. Þeir félagar riðu fyrst á hestum, en voru síðar bornir á burðarstólum yfir mestu ófærurnar. Berkeley féll af baki fjórum sinnum, braut sverð sitt, úrið — og neftóbaksdósirnar. „Fullhertur gegn jörðu, veðri og sæ, frosti og snæ" náði Berkeley loks til Genúa. Hann kunni þá betur að meta hið suðræna land og skrifar nú í dagbók sína: „Ef þig dreymir ljósa daga, hlýja sól og bláan himin, þá komdu til Ítalíu!" Frá Genúa hélt þessi brezki hópur til Sikileyjar til að krýna hinn nýja konung.

Haustið 1716 lagði Berkeley aftur upp í meginlandsför frá Englandi. Að þessu sinni fór hann sem fylgdarmaður sonar Ashe biskups í Clogher. Aftur fór Berkeley um hávetur yfir Alpafjöll, þar sem soltinn úlfur leitar að bráð og snjóflóð falla úr hlíðum. Aftur heimsótti hann Ítalíu, dáðist í Róm að málverkum eftir öndvegissnillinga eins og Titian, Carracci, Raphael, Correggio, Rubens, Guercino, Reni og Paul Veronese, hann andaði að sér ilmi sígrænna myrturunna í hinni suðrænu paradís, Napólí, og nasaði af brennisteinseimi fordæmingarinnar á gígbarmi Vesúvíusar.

Þegar Berkeley sneri aftur heim til Írlands eftir fjögurra ára dvöl erlendis, tók hann doktorsgráðu í guðfræði og varð prófastur í Derry. Ferðir hans höfðu gert hann víðsýnan heimsborgara, næman á fagrar listir og bókmenntir. Heimspekin var þó köllun hans. Hún var boðskapur, sem hann varð að boða, ekki

aðeins í Evrópu, heldur einnig í hinum nýja heimi. Ameríku. Berkeley dreymdi stóra drauma um að koma upp trúboðs- og menningarmiðstöð, sem lyft gæti anda hinnar frumstæðu, en vaxandi álfu. Til þessara framkvæmda skorti hann þó fé. Það kom skyndilega eins og sent af himnum ofan! — Ein af vinkonum Swifts arfleiddi Berkeley (sem að sögn hafði aðeins séð hana einu sinni á heimili Swifts) fyrirvaralaust og án allra skýringa, að auðæfum, sem áður höfðu verið Swift ætluð. — Með mælsku sinni tókst Berkeley einnig að fá stjórnina til að lofa stórfé til þessa fyrirtækis. Við þetta bættust framlög nokkurra einstaklinga, sem áhuga höfðu á málinu. Um þessar mundir kvæntist Berkeley og sigldi því næst með fjölskyldu sinni til Ameríku.

Ætlun hans var að reisa menntasetur á Bermúdaey, m. a. til að kristna og mennta Indíána. Sjóferðin var löng: Skip hans hreppti veður stór og var um skeið talið af. Hann náði þó loks landi í Virginíu og hélt þaðan til Newport í Rhode Island. Skammt þaðan reisti Berkeley sér hús og kallaði Whitehall. Þar hugðist Berkeley bíða eftir því, að stjórnin efndi loforð sitt um fjárveitinguna til hins fyrirhugaða menntasetturs á Bermúdu. Það átti þó ekki fyrir þeim stað að liggja að verða gróðurreitur kristinnar heimspeki. Bermúda var valin af hugsjónamanni, sem ókunnugur var staðháttum. Íbúarnir á Bermúdu voru að vísu hraustir, þar sem þeir höfðu lítið annað til að nærast á en lauk

og kál. Og loftið var hreint vegna storma og fellibylja, sem æddu um landið. — Hins vegar voru þar engir Indíánar til að kristna. Þá var fyrst að finna langt inni á meginlandinu, og sjálfur Don Quixote hefði gefizt upp við að fá þá til að koma til Bermuda til að taka kristna trú og læra heimspeki. Berkeley skildi, að Rhode Island, en ekki Bermúda, var hinn rétti staður fyrir menningarsetur. En fjárframlaginu hafði verið lofað til framkvæmda á Bermúdu. Þetta varð stjórninni tylliástæða til að senda aldrei neitt fé til þessa fyrirtækis, og menntasetrið, sem Berkeley hafði ætlað að reisa til eflingar heimspeki og menningu í hinum nýja heimi, var aldrei reist. Köllun hans mistókst. En var förin þá til einskis farin? Öðru nær, hún hafði djúp og varanleg áhrif. Það nægir í því sambandi að vitna í ummæli prófessors Rand við Harvardháskóla, sem hann viðhafði meira en 200 árum eftir að Berkeley yfirgaf Ameríku: „Þau áhrif, sem ferð Berkeleys hafði á andlegt líf Ameríku, hafa haft langvarandi gildi. Þótt honum mistækist að reisa eitt sérstakt menntasetur, tókst honum það, sem betra var, að örva andann í hinni nýju álfu, fyrst með dvöl sinni hér og hollum ráðum, síðar með því ástfóstri, sem hann tók við æðri menningu hennar, og hinni hugrænu heimspeki, sem hann gaf henni. Bæði bókmenntir okkar og listir hafa auðgazt vegna dvalar hans hér .......... Eftir för hans til Englands gaf hann, sem kunnugt er, háskólunum Harvard og Yale

bókasöfn .......... Kólumbíuháskóli var að verulegu leyti reistur eftir fyrirsögn hans í bréfi til vinar síns, Samuel Johnsons, sem var fyrsti rektor skólans. Ráðum hans var einnig fylgt við stofnun Pennsylvaníuháskóla .......... Kaliforníuríki reisti háskóla sinn í borg, sem ber nafn hans, Berkeley".

Af þessu má sjá, að nokkur árangur hefur orðið af för Berkeleys til Ameríku, þó að fjárupphæðin, sem honum hafði verið lofað, kæmi aldrei og hann yrði því að snúa vonsvikinn til Bretlands aftur.

Í Bretlandi lét Berkeley það verða sitt fyrsta verk að endurgreiða öllum, sem lagt höfðu fé í Bermúdufyrirtækið. Hann vann brátt hylli manna sem fyrr í félagslífi Lundúnaborgar, og drottningin var svo hrifin af hinni nýju bók hans, Alciphron, sem hann hafði skrifað í Vesturheimi „gegn efasemdamönnum og trúleysingjum", að hún gerði hann að biskup í Cloyne á Írlandi. Þá stöðu skipaði hann flestum betur, hann vann öll störf sín af stakri samvizkusemi, — en heimspekin var honum þó hugstæðust. Til að geta sinnt henni reis hann úr rekkju um þrjúleytið hvern morgun og iðkaði fræði sín, þar til aðrir menn risu úr rekkju og skyldustörfin hófust. Hann fylgdist vel með öllu í umdæmi sínu og lét sig efnahag og afkomu manna miklu skipta. Verulegum hluta launa sinna deildi hann milli fátækra.

Þessar miklu annir hans urðu heilsu hans ofraun.

Hann fluttist 1753 til Oxford til sonar síns, sem stundaði þar nám. Þar lézt hann skömmu síðar.

Þessum einkennilega manni hefur verið vel lýst með orðum Francis Atterbury, biskups í Rochester: „Slíkur skilningur, slík þekking, slíkt sakleysi og lítillæti hélt ég aðeins fyndist hjá englum, þar til ég kynntist þessum manni.“

Heimspekingurinn Berkeley verður þó langlífastur, því að á verki hans er innsigli andans — hins alþjóðlega og hins eilífa.

# Heimspeki Berkeleys

John Locke efaðist aldrei um, að efnið og hin ytri veröld væri til. Mynd mannsins af veröldinni, sagði hann, er að nokkru leyti rétt og nokkru leyti röng. Hann flokkar hugmyndir eftir því, hvort þær séu aðeins til í skynjun mannsins eða hvort þær séu einnig sjálfstæður, ytri veruleiki. Meðal hinna síðartöldu eru hugmyndirnar rúm, lögun og hreyfing. Þessir sjálfstæðu eiginleikar eru að dómi Lockes óháðir allri skynjun og mundu vera til jafnt fyrir það, þótt enginn væri til að skynja þá. Aðrir eiginleikar, eins og litur, hljóð, bragð og ilmur, eru aðeins til vegna skynfæra okkar. Eiginleikinn rautt t. d. verður til vegna eiginleika augans. Ef ég t. d. nota græn gleraugu, verður hann blár. Hann er því ekki alltaf hinn sami, heldur breytist vegna breyttrar skynjunar.

George Berkeley tekur þessa flokkun til endurskoðunar. Hann er samþykkur öllu, sem Locke segir um fyrri flokkinn, en bendir á, að fyrri flokkurinn sé í engu frábrugðinn hinum síðari. Rúm, tími, lögun, þyngd og hreyfing séu ekki heldur til nema sem hugmyndir og háð skynjun alveg á sama hátt og litur, hljóð, bragð og ilman. Til að sýna fram á, að þessi skipting Lockes í sjálfstæða og ósjálfstæða eiginleika sé röng, notar Berkeley sömu rök í sambandi við

síðari flokkinn og Locke notar sjálfur um hinn fyrri. Locke bendir á, að litur í auga hins litblinda og litur í auga venjulegs manns sé ekki hinn sami og eins, að hljóð sé aðeins til í eyra hins heyrandi manns, en ekki hins daufdumba. Hins vegar hélt Locke, að öðru máli væri að gegna um lögun hl utanna, rúmtak þeirra eða stærð, hreyfingu, þyngd og þéttleika. Þessir eiginleikar breyttust aldrei og væru því óháðir skynjun. Berkeley mótmælir þessu og segir, að þessir eiginleikar séu engu síður háðir skynjun en hinir. Í augum barnsins eru t. d. hlutirnir stærri og vegalengdirnar meiri en í augum hins fullorðna. Smásærri lífveru hlýtur að virðast það stór veröld, sem mannsauganu virðist aðeins lítill vatnsdropi. Auk þessa eru hinir svokölluðu sjálfstæðu eiginleikar aðeins til sem hugmynd í vitund þeirra, sem þá skynja og skilja. Hvar væri hin sýnilega veröld, ef hvergi væri sjón og skilningur? Hugmynd er það, sem er skynjað og skilið. Þess vegna er ekkert annað til en hugmyndir í vitund mannsins, öll tilveran er ekkert annað en hugmyndir og hugir til að skynja þær. Efni er ekki til. Það skynjar enginn. Menn segja, að til séu t. d. hús, fljót og fjöll — úr efni. Berkeley segir, að þessir hlutir séu að vísu raunverulegir og að þeir séu eins og við skynjum þá, en þeir eru ekki úr efni, því að efni er ekki til í vitund mannsins nema sem hugmynd. Þessir hlutir eru eins og hugmynd okkar af þeim, einmitt vegna þess að þeir eru hugmynd, en ekki efni. Berkeley sannar

þetta með því að segja, að þessir hlutir séu annaðhvort skiljanlegir eða ekki skiljanlegir. Ef þeir eru skiljanlegir, þá eru þeir hugmyndir, því að andinn getur aðeins þekkt hugmyndir, og þeir og hugmynd okkar um þá er því eitt og hið sama. Að segja, að þeir séu ekki skiljanlegir, er sama fjarstæða og að segja, að litur sé eins og eitthvað, sem er ósýnilegt, að hart eða mjúkt sé eins og eitthvað, sem er ósnertanlegt o. s. frv.

Það getur þess vegna ekkert verið til nema hugmyndir og hugir: það, sem er skynjað og skilið, og það, sem skynjar og skilur. En ef ekkert er til nema það, sem er skynjað og skilið, mundu þá hlutirnir hætta að vera til, ef enginn væri til að skynja þá? spyrja sumir gagnrýnendur Berkeleys. Fyrst ekkert efni er til, er þá veröldin, sólin og stjörnurnar blekking? Getur ekki verið, að til sé eitthvað, sem er ekki skynjað? Getur ekki verið um margs konar tilveru að ræða, sem við höfum enga hugmynd um? Og fyrst efni er ekki til, borðum við þá hugmyndir? Klæðumst við hugmyndum? Og ef til er aðeins það, sem skynjar, og það, sem er skynjað, hvað verður þá um sjálfa sálina í djúpum, draumlausum svefni? Og aðrir beina til hans enn erfiðari spurningum: Hvernig getum mannfólkið t. d. rúmazt í veröldinni, ef rúmið er aðeins hugmynd í huga okkar?

Berkeley, eins og margir fleiri, hefur verið gagnrýndur af miklu fleiri mönnum en þeim, sem hafa

jafnvel reynt að skilja hann, og hann átti jafnvel í stríði við spurningar, þar sem spyrjandinn gerði ráð fyrir einhverju, sem hann hafði aldrei kennt. Stundum miðar spyrjandinn við það sem sjálfsagðan hlut, að efnið sé til, þótt Berkeley héldi fram, að svo væri ekki. Stundum er spyrjandinn viss um, að Berkeley hafi skoðað hina ytri veröld sem tóma blekkingu, þó að Berkeley hafi lagt á það ríka áherzlu, að hin ytri veröld sé raunveruleg og sé eins og við skynjum hana (Menn skynja aldrei efni, þó að þeir haldi það, heldur hugmyndir, sem þeir kalla efni). Stundum gengur spyrjandinn út frá því, að þegar Berkeley talar um, að aðeins það, sem skynjar og það, sem er skynjað, sé til, miði hann eingöngu við það, sem maðurinn skynjar og skilur. Það er nóg samkvæmt kenningum Berkeleys, að „hlutirnir" séu skynjaðir. Þeir geta verið skynjaðir af dýrum og mönnum, en þeir geta einnig verið skynjaðir af vitsmunum æðri mannlegum skilningi, og þeir eru a. m. k. skynjaðir af guði. — Og hér komum við að kjarnanum í boðskap Berkeleys. Við verðum að minnast þess, að hann var ekki aðeins heimspekingur, heldur líka prestur, sem barðist fyrir kirkju og guðfræði gegn efasemdum og efnishyggju.

Öll tilveran er ekkert annað en hugsanir eða hugmyndir guðs. Allir hlutir í náttúrunni í kringum okkur eru hugsanir hans, og vegna þess að hugsanir og hugmyndir hans eru margfalt sterkari og voldugri

okkar hugsunum, greinum við á milli þeirra og hugsana okkar og köllum þær í daglegu tali veröld eða náttúru. Samræmið í hugsunum guðs birtist okkur sem lögmál náttúrunnar. Það, sem ekki er til í vitund guðs, er ekki til annars staðar. Það er þetta, sem Berkeley á fyrst og fremst við, þegar hann segir, að það, sem ekki er skynjað og skilið, sé ekki til. Hugmyndir manna eru óljósar og skuggakenndar, og þær hverfa okkur auðveldlega. Hugsanir guðs eru okkur skýrar og áþreifanlegar eins og eldingin og regnið, fjallið, skógurinn og fljótið. Hugsunum hans komumst við ekki frá. Þær eru veröld okkar. Þannig er öll tilveran hugur, sem skilur og skynjar, — og hið skynjaða, en í guði er þetta tvennt eitt. Maðurinn er einnig hugur og hugmyndir. Sama er að segja um alla tilveruna. Hún er ríki andans og óteljandi sálna. Skynjun og skilningur hvers einstaklings er takmarkaður. Maðurinn veit það eitt, sem hann skynjar, því að skilningurinn skilur ekki sjálfan sig. Hin takmarkaða vitund mannsins er því ekki hinn æðsti dómari, sem segir til um, hvað sé og hvað sé ekki.

Ef við nú athugum þessar spurningar, sem gagnrýnendur Berkesleys hafa borið fram, sjáum við, að margar þeirra eru á misskilningi byggðar: Hætta hlutirnir að vera til, þegar enginn er til að skynja þá? — Þetta fellur um sjálft sig, ef við spyrjum aftur á móti: Hvernig getur hugmynd verið til, án þess að hún sé skynjuð eða skilin? Og eins fer um spurninguna:

Fyrst ekkert efni er til, er þá ekki jörðin, sólin og stjörnurnar blekking? Berkeley tekur skýrt fram, að hann hafi aldrei efazt um, að hin ytri veröld væri raunveruleg; hann aðeins neitar því, að hún sé efni. Hann neitar ekki heldur eiginleikum „efnisins", eins og þyngd, þéttleika, mýkt og hörku, en þeir eru einnig hugmyndir eins og allt annað, en ekki einkenni einhvers, sem menn af misskilningi kalla efni. Sama er að segja um spurningarnar um, hvort við borðum hugmyndir og hvort við klæðumst hugmyndum. Matur okkar og föt eru jafnraunveruleg, þótt við þekkjum hvorugt nema sem hugmynd. Og þá eiginleika fæðu og klæða, sem við finnum með sjón, snertingu og bragði, þekkjum við líka eingöngu sem hugmyndir. — Efni þekkir enginn, nema sem hugmynd. Spurningin um, hvað verður um sálina í djúpum, draumlausum svefni, er auðsvarað fyrir Berkeley með því, að hún sé a. m. k. til í vitund guðs, og auk þess er vafasamt að fullyrða, að sálin verði algerlega skynlaus í djúpum svefni. Jafnvel spurningunni um, hvernig mannfólkið geti rúmazt í veröldinni, ef rúmið er aðeins hugmynd, er hægt að svara með því að benda á, líkt og Descartes gerði, að hugsun hafi ekki rúmtak, ekki heldur hugmynd, og í veröld, þar sem ekkert er til annað en hugur og hugmyndir, hlýtur því rúmið einnig að vera hugmynd eins og allt annað.

Hugmyndakerfi Berkesleys er svo heilsteypt, að erfitt er bæði að skilja það og koma því á kné með

rökum, sem taka fullt tillit til forsendna þess, jafnvel þótt við séum sannfærð um, að það sé rangt! Guðfræðingurinn Berkeley tekur við, þar sem heimspekingurinn Berkeley þagnar, og við verðum að trúa eða trúa ekki. Berkeley reyndi með þessari heimspeki sinni að segja hið síðasta orð í viðræðum hinna miklu heimspekinga Spinoza og Lockes, Descartes og Leibnitz um andann og efnið, líkamann og sálina, veröldina og guðdóminn og hvernig þetta allt væri tengt. Á aldagamalli gátu, sem aldrei hafði að fullu leystst í umræðum þessara heimspekinga, hyggst Berkeley leggja fram ráðningu. Deilt var um, hvort efni gæti hugsað, hvaða áhrif efnið hefði á andann, hvort hægt væri að kljúfa efnisögn óendanlega. Allar þessar spurningar falla niður af sjálfu sér í heimspeki Berkeleys, þar sem efnið er ekki til. Þannig losnum við við þau vandamál, sem eru því samfara að skoða tilveruna sem tvær sjálfstæðar heildir, efni og anda, og fullnægt er hinni heimspekilegu þörf mannsins til að líta á tilveruna sem eina heild, þar sem allt er af sama stofni og sömu rót. En Berkeley beinir ekki heimspeki sinni aðeins gegn efnishyggju og tvíhyggju. Henni er engu síður beint gegn efasemdamönnum. Þeir heimspekingar, sem halda því fram, að skynjun okkar sé eitt og hin ytri tilvera annað, hljóta að lokum að komast að þeirri niðurstöðu, að við getum efazt um alla þekkingu okkar og sannleiksgildi allra hugmynda, þar sem við getum þá aldrei þekkt hlut-

ina eins og þeir eru í sjálfu sér, heldur aðeins eins og þeir birtast okkur. Berkeley greinir í heimspeki sinni ekki milli hugmynda okkar og fyrirbrigða hinnar ytri tilveru, því að þau eru líka hugmyndir, og þess vegna getur hugur okkar skynjað þær eins og þær eru. Þær eru því sannar, skynjun okkar er rétt, og þekking okkar er veruleiki, en ekki ímyndun eða sjónarspil.

Öll tilveran er, eins og áður er sagt, aðeins hugir og hugmyndir og þetta tvennt er eitt hjá hinum æðsta.

Þannig messaði heimspekingurinn og kennimaðurinn George Berkeley. Þeir, sem vilja afsanna kenningu hans, geta fengið til þess stuðning í fjölmörgum heimspekiritum, sem um hann fjalla. En áður en deilurnar hefjast, er rétt að hafa hugfast, að trú verður ekki sigruð með heimspeki og heimspeki ekki með trú.

# David Hume

ÁTJÁNDA ÖLDIN var öld aukinnar þekkingar, en í kjölfar þekkingarinnar siglir efinn. Þess vegna varð spámaður efans, Skotinn David Hume, einn helzti spámaður aldarinnar. Hann er af mörgum talinn mestur heimspekingur sinna tíma. Sjálfur kallaði hann sig einnig heimspeking, — en ekki í hinni gömlu merkingu þess orðs, því að inntak allrar heimspeki hans var það eitt að sanna, að engin heimspeki væri til, — a.m.k. ekki fyrir hans dag. Slík verður jafnan mótsögn efasemdamannsins: Hann skoðar það tilgang heimspeki sinnar að grafa grundvöllinn undan hinu gamla musteri trúar og heimspeki. — En ef musterið hrynur, grefst hann um leið sjálfur undir rústunum: Þegar eldurinn hefur ekkert eldsneyti lengur, slokknar hann, og þegar niðurrifsmaðurinn hefur lokið verki sínu, er honum sjálfum lokið. Efasemdamaðurinn boðar, að enginn algildur sannleikur sé til, að enginn tilgangur sé með lífi manns og ekkert mark til að stefna að. Slíkur maður

skyldi ekki hafa neinn vilja eða löngun til framkvæmda. Fyrir hverju ætti hann að berjast? Hann skyldi vera þögull og óvirkur, halda að sér höndum, leggja árar í bát og glotta vonleysislega að hégóma veraldarinnar. Þannig var um efasemdamenn fornaldarinnar, og Hume endurtók þessa reynslu á 18. öldinni, sem enn drottnar yfir hugum margra. En sagan endurtekur sig aldrei til fulls. Hume var hvorki þögull né iðjulaus. Metnaður hans og tilfinningar trúðu á margt það, sem skynsemi hans kallaði hégóma.

En hvers vegna var 18. öldin öld efans, og hvers vegna varð David Hume slíkur efasemdamaður? — Valdboð og andlegt ófrelsi hafði knúð menn til að játast undir bókstafstrú kirkjunnar. Nýfengið skoðanafrelsi hlaut að leiða til þess, að öfl, sem áður voru fjötruð, leystust úr læðingi og fylktu liði gegn bókstafstrú miðaldanna. Þeim mun þrengri og einsýnni sem boðskapur kirkjunnar var, þeim mun harðari hlaut andstaðan gegn honum að verða. — David Hume var Skoti, alinn upp við strangleika hinnar skozku postillu. Nú er það mál fróðra manna, að af öllum rétttrúarmönnum séu skozkir mótmælendur rétttrúaðastir. Einmitt þar hefði því mátt gera ráð fyrir, að fram kæmi hörðust andspyrna gegn hinni einsýnu bókstafstrú kirkjunnar. En hvers eðlis var þá þessi nýja andstaða? Var hún með öllu óskyld því, sem hún barðist gegn, hinni einsýnu, ströngu bókstafstrú? — Í ríki náttúrunnar er allt líf orðið til úr andstæðum. En þær

andstæður, sem skapa líf, eru sömu tegundar (hver einstaklingur t. d. er orðinn til úr tveim andstæðum: karlkyni og kvenkyni, en þær eru sömu tegundar). Andstæður náttúrunnar endurspeglast í ríki hugmyndanna, bókmenntum og listum. Einnig þar er allt nýtt líf fætt af andstæðum. En bæði í ríki náttúrunnar og í ríki andans eru þær andstæður, sem fæða af sér nýtt líf, skyldar. Þær falla hvor að annarri eins og tvær skeljar, sem lykjast um sama fiskinn, því að þær eru sömu tegundar. Þetta er sagt til að benda á, að fullkomlega andstæð sjónarmið þurfa ekki að vera eins fjarskyld og menn fljótt á litið kynnu að ætla: — Andstæð skaut eru á sömu línu. Í ríki andans myndast engin segulskaut, þar sem engan skyldleika er að finna. Af þessum orsökum má líta á ofstækistrúmanninn og ofstækistrúleysingjann sem sömu manntegund á sama stigi. Ofstæki trúleysingjans er aðeins ranghverfan á ofstæki hins „rétttrúaða", enda dragast þessir menn ósjálfrátt saman eins og svarf að segli og mynda í sameiningu ákveðið vitsmunastig.

Þannig getum við að nokkru leyti litið á David Hume sem róttæka andstæðu, en um leið fóstur hins skozka rétttrúnaðar. Þar mætir hin algera neitun hinni stundum blindu, en ævinlega ákveðnu staðhæfingu. Hume ekur fyrst stríðsvagni sínum gegn trúnni, en kemst um leið í andstöðu við bandamann hennar, — hina gömlu heimspeki.

David Hume fæddist í Edinborg 26. apríl 1711, og

þó að hann færi í mörg ferðalög innan lands og utan, sneri hann jafnan þangað aftur. — Hann var af góðum ættum, sonur skozks óðalsbónda. Hugur hans hneigðist snemma að bókmenntum, en ættingjar hans fengu því ráðið, að hann hóf laganám. Það nám stundaði hann þó slælega og las Cicero og Virgil í stað lagavísdómsins og varð loks að hætta námi. Hume var þá félaus og hvarf til Bristol í atvinnuleit. Hann reyndi þar kaupsýslu, „en eftir fáa mánuði sá ég, að það starf var mér óvinnandi," skrifar hann síðar um þessa sýslu sína. Hann tók sig upp og fór utan til Frakklands og settist að í La Fléche, hinum gamla Jesúítaskóla, sem kennt hafði Descartes á sínum tíma de omnibus dubitandum (að efast um allt). Líkt og hinn skozki rétttrúnaður heima fyrir varð þessi kaþólski skóli Jesúítanna til að herða Hume í andstöðu sinni gegn öllu, sem kallaðist trú. Hann lagði að vísu mikla stund á lestur bóka um trúmál og heimspeki og ræddi við klerka og lærða menn staðarins um þessi áhugamál sín, en hann var jafnan á öndverðum meiði við þessar bækur og þessa menn. Eitt sinn, er Hume hafði deilt lengi við einn af Jesúítaprestum staðarins um, hvort kraftaverk gætu gerzt, þótti Hume sem mælirinn væri fylltur og tími væri kominn fyrir sig til að láta hina ungu rödd sína þruma yfir gráum hærum heimspekinnar, því að meðan maðurinn er ungur, veit hann allt betur en aðrir menn og vill segja til vegar þeim, sem á undan fóru og gerzt hafa gamlaðir. Þegar Hume kom heim

frá þessum deilum sínum við Jesúítaprestinn, settist hann niður til að skrifa bók, „sem átti að gerbreyta allri heimspeki," eins og hann segir síðar í sjálfsævisögu sinni. Hume tók sér penna í hönd, og á blöðum hans endurfæddist hinn gamli efasemdamaður Sextus Empiricus, sem á sinni tíð trúði því, að hans orð yrði hið síðasta í sögu heimspekinnar. En gamli Sextus var nú breyttur í útliti. Hann bar á herðum sér rómverskan feld, hafði lært tungutak hins rómverska málsnillings Ciceros, en hinn heimspekilegi svipur hans var nú brezkur og mótaði þar fyrir andlitsdráttum Berkeleys og John Lockes. Endurborin í hið nýja gervi hlaut hin forna heimspeki efasemdanna nafnið A Treatise on Human Nature (Ritgerð um mannlega náttúru). Bókin, sem breyta skyldi sögu heimspekinnar, var skráð, og Hume hélt eftir tveggja ára dvöl í La Fléche með handritið til Lundúna. Honum tókst þar að finna að því útgefanda. Samið var um, að bókin kæmi út, án þess að höfundar yrði getið. Hume leit á þetta handrit sitt sem eins konar púðurtunnu, sem mundi, þegar þráðurinn yrði tendraður, springa og ríða bæði trú og heimspeki að fullu. Honum þótti því vissara að fjarlægja sig frá staðnum, áður en þetta tundur spryngi. Hann fór til Edinborgar og beið þar hins sögulega viðburðar. Bókin kom út, en það varð enginn „hvellur". „Bókin fæddist andvana," skrifaði hann sjálfur í sögu sína um þennan atburð.

Hume urðu þetta hin sárustu vonbrigði. Hann trúði

því, og sumir aðrir hafa fallizt á það síðar, að þetta væri merkasta rit síns tíma. Hið bezta, sem gagnrýnendurnir höfðu að segja bókinni til lofs, var, að hún væri „óþroskuð tilraun" manns, sem e.t.v. væri efni í nýjan Milton eða Raphael. Hume skrifaði aldrei betri bók, og fyrst hann trúði því, að þessi bók væri á undan sinni samtíð, þá hafði hann enga ástæðu til að ætlast til, að almenningur kynni að meta hana.

Þessi vonbrigði urðu til að kenna Hume, að hinn affarasæli rithöfundur er ekki sá, sem skrifar vegna framtíðarinnar til að leiða mannfólkið til nýrra landvinninga í ríki andans, heldur hinn, sem er næmur á tón aldarinnar og segir það eitt, sem er að brjótast um og birtast í hugum manna. Auður og frægð var takmark Humes. Því takmarki nær rithöfundur ofan jarðar aðeins með því að slá á strengi aldarinnar og skrifa eins og fólkið vill. Hume trúði ekki á annað líf, ekki heldur á neina sérstaka hugsjón til að berjast fyrir. Slíkt var andstætt allri kenningu hans. Auður og frægð urðu leiðarstjörnur hans: Rithöfundurinn verður farandsali öðrum þræði. — Sem slíkur sigraði David Hume auðveldlega og varð vellauðugur maður og hlotnaðist meiri frægð en nokkrum öðrum manni á hans tíð. — En ekkert rit kom framar frá penna hans, sem nálgaðist hið fyrsta afrek hans, sem enn heldur nafni hans á lofti: A Treatise on Human Nature.

Hume hóf hinn nýja feril sinn með því að semja tvö ritgerðasöfn (1741 og 1742), sem fundu alveg sérstak-

an hljómgrunn hjá ýmsum menntamönnum og stjórnmálamönnum samtíðarinnar. Einn úr hópi hinna síðarnefndu, markgreifinn af Annandale, réð Hume í þjónustu sína sem heimiliskennara. Markgreifinn var vellauðugur, en geðbilaður, og heimiliskennarinn David Hume hagnaðist vel þann tíma, sem honum var þar sætt. — Skömmu síðar réðst hann skrifari St. Clairs hershöfðingja og fylgdi honum, klæddur sem liðsforingi, til Vínarborgar og Torino. Hume fékk hershöfðingjann til að koma því til leiðar, að sér yrði veitt réttindi sem lögfræðingur. Að öðru leyti virðist Hume ekki hafa haft neitt yndi af einkennisklæðunum, og meðal hirðmanna átti hann aldrei fullkomlega heima. Einn þessara manna, Charlemont lávarður, sem kynntist honum í Torino, lýsir því, hvernig Hume kom honum fyrir sjónir, á þessa leið: „Andlit hans var breiðleitt og flatt, munnurinn víður og bar aðeins vott um sljóleika. Augnaráð hans var tómlegt og andlaust. Holdafar hans allt hæfði betur hrossakétsætu en fáguðum heimspekingi. Enskan, sem hann talaði, varð skopleg vegna flámælis, sem var jafnvel flárra hjá Hume en öðrum Skotum, og franska hans var, ef hægt var, enn skoplegri. — Aldrei hefur vizkugyðjan dulbúið sig í jafnrustalegum kufli.“

Eftir þetta ferðalag með hershöfðingjanum sneri Hume aftur til sveitaseturs síns í Skotlandi með um 1000 pund í reiðu fé og var nú orðinn vel í álnum. Hann ákvað að setjast nú í helgan stein og gefa sig ein-

göngu að heimspekinni. Löngun hans til að verða frægur hafði enn ekki verið fullnægt. Hann tók sér fyrir hendur að semja nokkrar ritsmíðar um siðfræði, sem kölluðu yfir hann reiði kirkjunnar. Um leið sótti hann um prófessorsstöðu í heimspeki við Edinborgarháskóla. Það reyndist árangurslaust. Hins vegar var hann gerður bókavörður við bókasafn lögfræðinga í Edinborg. Í þessu safni, þar sem hann hafði um 30.000 bindi til sinna umráða, tók hann þá ákvörðun að skrifa sögu Englands á nýjan hátt, þannig, að við lestur hennar fengi samtíðin skilning á sjálfri sér og losnaði um leið undan gömlum erfðakenningum, sem hann taldi orsök þjóðfélagsmeina og andlegs myrkurs. Fyrsta bindi þessa verks kom út 1754 og hlaut daufar undirtektir hjá almenningi í fyrstu líkt og Ritgerðin um mannlega náttúru. Vonbrigði Humes urðu svo mikil, að hann ákvað að fara alfarinn frá Skotlandi til Lundúna. En Hume geðjaðist, þegar til kom, engu betur að „siðleysingjunum á bökkum Temsár“, þar sem gárungarnir hlógu að skozku hans og holdafari. Hume var góðlyndur að eðlisfari og gat hlegið með um stund, — en von bráðar er hann þó farinn þaðan fyrir fullt og allt — aftur heim til Edinborgar.

Um þessar mundir hafði almenningur uppgötvað Sögu Englands (sem sagnfræðingar styðjast yfirleitt ekki við lengur), og farið var einnig að gefa öðrum ritum hans gaum. Peningar streymdu inn í vaxandi mæli, og Hume varð ljóst, að hann hafði náð því marki sínu

að verða auðugur og frægur. Hann var jafnvel að verða einn af tindunum í brezkri menningarsögu, og tekið var að þýða rit hans á erlend mál. Í Frakklandi litu hin róttæku öfl, sem undirbjuggu frönsku stjórnarbyltinguna, á Hume sem örlagavald guðanna, heimspeking, sem steypa mundi goðum aðals og kirkju af stalli.

Þegar David Hume var 1763 gerður ritari brezka sendiráðsins í París, var honum því fagnað þar sem þjóðhöfðingja. Róttækir rithöfundar og stjórnmálamenn eins og Diderot, D'Alambert og Turgot, flykktust á fund hans til að hylla hann. — Hinum megin sundsins horfðu menn allsgáðum augum á hrifningu Parísarbúa yfir Hume. Í Englandi var engin bylting í nánd. Þar voru að vísu sterk öfl, sem vildu uppræta illgresið úr þjóðgarðinum, en það varð að gerast með gát, svo að nytjajurtirnar yrðu ekki rifnar upp með. Það var ekki nóg að sveifla ljánum og fella allt, sem fyrir varð. England var ekki reiðubúið til að hafna trú sinni, jafnvel ekki heimspeki sinni fyrirvaralaust, og krjúpa í þess stað fyrir hinum nýja guði efasemdanna.

Hume sveið sárt þetta tómlæti landa sinna og „siðleysingjanna á bökkum Temsár". „Er ég Englendingur?" skrifar hann einum kunningja sinna yfir sundið. „Ég er þegn jarðarinnar, en ef ég ætti að kjósa mér föðurland, þá yrði það þetta land, sem ég nú dvelst í" (Frakkland).

En þetta voru aðeins orð. David Hume var Skoti og

átti hvergi heima, nema í Edinborg, enda sneri hann þangað aftur eftir tveggja ára dvöl í París. Þegar heim kom, keypti hann sér stórhýsi á horninu á St. Davidstræti og gerði það að Unuhúsi skozkra rithöfunda og menntamanna. Hume var nú orðinn stórauðugur maður, en var þó örlátur á fé og studdi marga rithöfunda og menntamenn með fjárframlögum og ríkti eins og konungur yfir menningarlífi Edinborgar til dauðadags.

Sextíu og fimm ára að aldri, 25. ágúst 1776, lézt David Hume eftir þrálátan sjúkdóm, sem hann bar vel og æðrulaust. — Kenningar hans vöktu háværar deilur og vekja jafnvel enn. Sumir sáu í þeim dauðadóm yfir hégiljum og hindurvitnum bókstafstrúar og úreltra þjóðfélagshátta. Þeir þóttust finna í þeim kyljuna, sem vekur heimspekinginn upp af svefnmóki sínu til veruleikans. — Aðrir, sem hvorki vildu hafna trúnni né heimspekinni, neyddust til að endurskoða hvort tveggja. — Í þessu er hlutverk hins skozka efasemdamanns, David Humes, fólgið.

## Heimspeki David Humes

Berkeley kenndi, að ekkert væri til nema andinn. Ekkert er til nema efnið, svöruðu aðrir. Hume hélt því fram, að það væri ekki á færi mannsins að ráða þessar gátur heimspekinnar. Maðurinn getur ekki, áleit Hume, vitað neitt um hið sanna eðli hlutanna, og það er því hægt að efast um flest. — Undirstaða allra mannlegra vísinda er maðurinn sjálfur. Manneðlið er grundvöllurinn, sem musteri menningarinnar rís á. Fjarlægust þessum grunni eru trú og heimspeki. Rökfræði, siðfræði og stjórnmál standa honum nær, en allt byggist þetta á manneðlinu, og vísindi þess verða því vísindi allra vísinda. Mannleg náttúra verður því viðfangsefni Humes, og hann hugðist, með því að afhjúpa hið rétta eðli hennar, leggja hinn rétta grundvöll fyrir önnur vísindi.

En hvernig er hægt að þekkja mannlega náttúru? Hume áleit, að engin ástæða væri til, að heimspekingur gæti ekki þekkt mannlega náttúru jafnauðveldlega og stjörnufræðingur uppgötvar þau lög, sem stjórna gangi himintungla, aðeins ef hinn fyrrnefndi hagaði könnun sinni vísindalega. Eins og stjörnufræðingurinn kannar himintungl, eins er það hlutverk heimspekingsins að kanna þau öfl og þau lögmál, sem stjórna sólum og reikistjörnum mannsandans. Líkt og stjörnu-

fræðingur kann að komast að þeirri niðurstöðu, að í stjörnugeimnum sé ekkert nema himintungl, eins hóf Hume vísindi mannlegrar náttúru með þeirri niðurstöðu, að í mannshuganum væri ekkert nema hugmyndir (í sinni víðtækustu merkingu). Líkt og stjörnufræðingur, sem skiptir himintunglum í sólir og reikistjörnur, skiptir Hume myndum hugans í tvennt: *áhrif* og *hugsanir*. Hvor þessara flokka skiptist aftur hjá Hume í tvennt. Áhrif skiptast í *skynjun* og *tilfinningar*. Hugsun skiptist í *minni* og *ímyndun*.

Eins og sumir stjörnufræðingar álitu, að reikistjörnur væru runnar frá sólinni, eins kenndi Hume, að hugsanir væru runnar frá áhrifum (skynjun eða tilfinningum). Áhrif eru því sterkari og ljósari veruleiki en hugsanirnar. Það er engin hugsun að dómi Hume, sem er ekki sköpuð og til orðin vegna hins fyrri flokks: áhrifa. Þar sem engin áhrif eru til, getur ekki verið um neina hugsun að ræða. Hugsanir eru því aðeins áhrif (skynjun og tilfinningar) í breyttri mynd.

Allar hugsanir okkar eru því upphaflega byggðar á skynjun og reynslu. En reynsla manna er svo takmörkuð, að við getum ekki þekkt veruleikann. Þess vegna fara sumar hugmyndir okkar, er tilheyra hinum síðast talda flokki, *ímyndun*, út fyrir hin réttu takmörk, og heimspeki og trú verða til. Hugmyndir manna um andlega eða efnislega „undirstöðu" geta því ekki byggzt á sannri reynslu, því að við höfum enga reynslu fyrir þessum hlutum. En jafnvel þótt hugmynd sé ímynd-

un ein, á hún samt rætur sínar að rekja til áhrifa (skynjunar, tilfinninga, reynslu), því að manninum er að dómi Humes engin hugmynd meðfædd. Hugmyndir okkar, segir Hume, verða til á ýmsan hátt: Við berum hluti saman og dæmum um, hvað sé líkt eða ólíkt. Við tökum eftir, hvernig hlutirnir birtast okkur í tíma, hvað kemur fyrr og hvað kemur síðar. Við athugum á sama hátt, hvernig þeir birtast okkur í rúmi, hvað sé nær og hvað sé fjær, hvað sé ofar og hvað sé neðar o. s. frv. Og loks förum við að kalla sum fyrirbrigði orsök og sum afleiðingu. Á þennan hátt sköpum við hugmyndir úr skynjun okkar. En hvaðan koma okkur þessir hæfileikar til að raða niður, greina á milli, skynja tíma og rúm, þekkja orsök og afleiðingu? Kant, eftirmaður Humes, segir, að okkur séu þessir eiginleikar meðfæddir. Hume hefur fullyrt, að ekkert slíkt geti manninum verið meðfætt. Einnig þetta allt á rætur sínar að rekja til áhrifa (skynjunar og reynslu). Hume heldur fram, að við höfum enga meðfædda skynsemi til að þekkja orsakir og afleiðingar. Aðeins reynslan getur að hans dómi kennt okkur, að ákveðin „afleiðing" fylgi ákveðinni „orsök". Við getum ekki vitað um afleiðinguna fyrir fram af meðfæddri gáfu, heldur aðeins vegna þess, að við höfum reynslu fyrir því eða sams konar fyrirbrigði áður. En fyrst allar hugmyndir okkar eru skapaðar úr áhrifum, hvaða áhrif sköpuðu þá þessa hugmynd okkar um orsök? Var það heyrn okkar, sjón, tilfinning eða vilji? Hume segir, að þessi hug-

mynd okkar um orsök geti ekki skapazt af neinum einstökum flokki áhrifa. Hún skapast, segir hann, við þá venju að sjá og finna, að vissir hlutir fara alltaf saman, eins og logi og hiti t. d. Við venjumst á gagnvart þessum fyrirbrigðum að kalla hið fyrra orsök og hið síðara afleiðingu. Það gerum við ekki vegna þess, að við getum af meðfæddu brjóstviti séð, að loga fylgir hiti, heldur vegna þess, að við þykjumst hafa sannreynt þessa hluti.

Við getum þannig aldrei með brjóstviti okkar (án reynslu) séð afleiðingar af gefinni orsök. Það sannar, að í huga okkar er sambandið milli „orsaka" og „afleiðinga" aðeins blekking. Allt þetta, sem við höldum um lögmál orsaka og afleiðinga, er ímyndun okkar, sem á sér ekki neina stoð í veruleikanum. Hún skapaðist aðeins, eins og fyrr segir, vegna þess, að við erum vön að sjá alltaf sömu hluti gerast eins. Niðurstaðan verður því, að við höfum enga ástæðu til að halda, að nokkurt orsakasamhengi sé til. Rökhugsun er þá einnig blekking, og við verðum að láta okkur lynda að fylgja eðlishvötinni, því að öll rökhugsun, að því er varðar orsök og afleiðingu, er aðeins sköpuð af venju og á rætur sínar að rekja til skynjunar og tilfinninga, en ekki skilnings.

En þó að Hume reyni að brjóta niður hina gömlu hugmynd manna um orsakasamhengið, heldur hann því á hinn bóginn fram, að öll saga mannkynsins sé eilíf endurtekning, þar sem sama manneðlið leiðir allt-

af af sér sömu viðburði. Hann segir: „Getum við þekkt tilfinningar, tilhneigingar og lífsvenjur Grikkja og Rómverja? Ef við könnum vandlega skapgerð og athafnir Frakka og Englendinga, þá förum við ekki fjarri sannleikanum með því að eigna hinum fyrrnefndu flest það, sem við finnum í fari hinna síðarnefndu. Mannfólkinu svipar svo mikið saman á öllum öldum alls staðar í heiminum, að sagan segir ekki frá neinu nýju eða neinu, sem kemur okkur að óvörum að þessu leyti. Höfuðgildi hennar er aðeins það að skýra fyrir okkur hin óbreytanlegu, algildu lög mannlegrar náttúru."

Þessi söguskoðun byggist á því, að breytni mannsins fari algerlega eftir hvötum hans og kenndum og frjáls vilji sé raunar ekki til. Það er að dómi Humes ekki ástæða til að greina milli viljans og líffærastarfseminnar. Viljinn er þjónn hennar. Það er ekki heldur rétt að hans áliti að draga markalínu milli skynsemi og eðlishvatar. — Skynsemin er ekkert annað en eðlishvöt. Athugið dýrin, segir Hume, þar má sjá, hvernig eðlishvöt og skynsemi er eitt, því að dýr læra líka af reynslunni: Gamlir fuglar komast hjá mörgum hættum, sem hinir yngri lenda í. Gamlir veðhlaupahestar þekkja brautina betur en hinir yngri og stökkva aðeins þær hindranir, sem þeir hafa getu til að komast yfir o.s.frv. Á sama hátt er skynsemi allra manna ekkert annað en ákveðin tegund eðlishvata.

Skynsemi mannsins, tilfinningalíf hans og siðferði,

allt á þetta því að dómi Humes rætur sínar að rekja til þess, sem hann kallar áhrif: Maðurinn er ekkert annað en þetta. Séð í þessu ljósi er auðskilið, að hugmynd manna um guð er aðeins „venjulegur förunautur mannlegrar náttúru" og trúarbrögð eru „ekki neitt annað en draumur sjúks manns". Kenningin um ódauðleikann verður „óskýranlegur leyndardómur" og trúin á kraftaverk „viðtekin frá fákunnandi og siðlausum forfeðrum."

Þetta er niðurstaða efasemdamannsins David Humes. Efasemdamaður fortíðarinnar efaðist um alla hluti, David Hume reyndi með gagnrýni sinni að snúa hugum manna eingöngu til þeirra viðfangsefna, sem hann telur, að séu innan hinna þröngu takmarka mannlegs skilnings. Þessi hringur er, ef við tökum Hume bókstaflega, orðinn svo þröngur, að þar er lítið olnbogarými fyrir hinn leitandi anda mannsins. Í raun og veru er þá ekkert orðið eftir, sem maðurinn getur byggt á, annað en tilfinningar, skynjun og reynsla, í einu orði sagt: áhrif. Með því að afneita orsakasamhenginu er Hume, ef við tökum kenningu hans alvarlega, búinn að brjóta niður grundvöll allra vísinda og allrar heimspeki. En þetta eina, sem eftir er af mönnunum, áhrif, (impression), stendur það þá örugglega? Hume lýsir sjálfur yfir því, að áhrif *orsakist* af einhverju, sem við þekkjum ekki. Ef orsök er ekki til, gætu jafnvel áhrif ekki verið til heldur!

Þetta tvennt, að tala um, að öll þekking byggist ein-

göngu á skynjun og reynslu, og hins vegar, að orsakasamhengið sé ekki til (heldur aðeins atburðaröð), veldur hinum djúptækasta þverbresti í kenningum Humes og sálarlífi 18. aldar: Reynsla okkar fyrir hinum ytri heimi er hin eina þekking okkar, — og samt er okkur ómögulegt að þekkja hina ytri náttúru, og við getum ekki vitað, hvort hún er til eða ekki. Hin eina hugsanlega þekking manna er að þekkja það, sem þeir geta aldrei þekkt. Slík er mótsögn og klofningur þessara tíma hinna miklu reikningsskila við heimspekina, þegar hinum mestu öndum mannkynsins tókst með rökfimustu hugsunum sínum að sanna, að engin hugsun væri til, — aðeins eðlishvöt eða tilfinning.

Og samt heldur Hume því fram, að maðurinn eigi sér þekkingu, og telur það hlutverk sitt að kenna mönnum að vinza hina sönnu þekkingu frá hisminu. Hume kennir, að maðurinn eigi sér engan sjálfstæðan, meðfæddan skilning. En hvernig getum við án hans eignazt þessa þekkingu, sem Hume segir, að við getum ræktað? Hvernig getum við eignazt þekkingu, ef, — eins og Hume heldur fram, — aðeins er til efniviður til að þekkja? Þarf ekki eitthvað til að vinna úr þessum efniviði, eitthvað, sem við getum kallað skilning eða þekkjanda? Og hlýtur ekki slíkur skilningur að vera sjálfur grundvöllur allrar þekkingar okkar, — sjálfur þekkjandinn, en ekki hið þekkta? Að þessu athuguðu hallast margir fremur að kenningu Kants um, að við getum ekki vitað um neitt, sem við skynjum í hinni ytri til-

veru (object), án þess að hafa hug eða skilning (subject), sem veitt getur því viðtöku. Og þessi skilningur er okkur meðfæddur. Skýring Humes, að hann sé fram kominn eingöngu vegna reynslu, er á ýmsan hátt ófullnægjandi. Nægir í því sambandi aðeins að benda á, að Hume sjálfur telur stærðfræðivísindin óyggjandi þekkingu. Ef reynslan er hin eina uppspretta skilnings okkar og þekkingar, hvernig getur þá þekking okkar á stæðfræðivísindum, sem við höfum enga reynslu fyrir, verið óyggjandi? Og ef ekkert er til í vitund mannsins nema það, sem hefur fyrst farið um skilningarvit hans, hvernig fær þá maðurinn hugmyndir um orsakasamhengi og náttúrulögmál? Það er ófullnægjandi að útskýra hugmyndina um orsakasamhengi á þann hátt, að við séum vön að sjá vissa atburði fara saman. Hume heldur því sjálfur fram, að við höfum aðeins reynslu fyrir ákveðinni atburðarás: Við sjáum, hvernig einn atburður siglir í kjölfar annars, en við sjáum aldrei neitt orsakasamband milli þeirra. Reynslan sýnir okkur því aldrei neina orsök. Annaðhvort er því engin orsök til eða ef hún er til, þá er það ekki reynslan, heldur eitthvað annað, sem fræðir okkur um hana. Og hvað er þetta „eitthvað annað" nema það, sem kallað er skilningur?

Af þessum sökum hyggja margir, að vitund mannsins sé meira en reynsla hans og að Hume hafi gengið of langt í að einfalda viðfangsefni sitt, „mannlega náttúru", unz hún varð hjá honum aðeins skynjun, reynsla

og tilfinningar. Hume er allra manna ljósastur í framsetningu heimspeki sinnar. En það er þó mest á yfirborðinu. Undir niðri er hann myrkur og í brotum, setur ekki fram neitt heilsteypt kerfi. Hann þyrlar upp erfiðleikum og gátum án þess að leysa þær sjálfur.

David Hume byrjaði líkt og Descartes að þvo hreint spjald heimspekinnar til að geta byrjað að nýju. Hann reyndi að þurrka þar út rúnir trúar og heimspeki, brjóta niður það, sem hann taldi hjátrú, líkt og trú á kraftaverk og trúna á framhaldslíf. Hann andmælti því, að maðurinn ætti sér nokkurn meðfæddan skilning, og boðaði, að orsakasamhengið væri blekking ein. Hafði hann rétt fyrir sér? Um það eru og verða sjálfsagt skiptar skoðanir. Hann kannaði mannlega náttúru ævilangt og var með skynsömustu mönnum sinnar aldar. Hitt er vafasamt að fullyrða, að David Hume, sem krufði mannlega náttúru af slíkri skarpskyggni og nákvæmni, hafi í iðrum hennar fyllilega fundið sjálfan *þekkjandann* eða þann David Hume, sem krufninguna framdi.

# Immanuel Kant

EFTIR hliðargötu í prússneskri borg gengur lágvaxinn, gamall maður með staf í hendi. Hann er hrumur og viðutan. — Minnið er aðeins fölur skuggi af viðburðum langrar ævi. Hann er alvarlegur eins og maður, sem reynir að hugsa, en á þó erfitt með að halda þræðinum. Ef til vill er hann að hugsa um hana Maríu von Herbert. „Væri ekki rétt af yður," hafði hún skrifað, „að þér gæfuð yður einhverjum af öllu hjarta — og skilduð mynd yðar eftir?" Nei, frelsi sínu, heimspeki sinni, hafði hann aldrei stofnað í hættu hjúskaparlífsins! — Hann hafði kallað á systur sína frá þurfamannahælinu. Hún gætti hans vel í ellinni.

Gamli maðurinn er í svo þungum þönkum, að hann gætir ekki fóta sinna. Hann hrasar á gangstéttinni og fellur. Tvær ungar konur sjá hann falla. Þær reisa hann á fætur varlega, því að beinum gamalla manna er hætt við broti. Lágvaxni öldungurinn tekur rauða rós úr hnappagatinu og réttir þeim þegjandi. Hann

gengur hægt leiðar sinnar: — Hvers á hann sér að vænta af þessari kynlegu veröld? „Das Ding an mich“ er blekking — og þó okkar eini veruleiki. Konurnar horfa undrandi á eftir þessum einkennilega manni. „Hver er hann?“ „Það er hann Immanuel gamli,“ var svarað. Þá vissu þær það, — en þó ekki til fulls, því að „das Ding an sich“ þekkir enginn.

Immanuel Kant fæddist í Königsberg, gamalli, þýzkri borg, 22. apríl 1724. Faðir hans hafði komið þangað frá Memel, gerzt þar söðlasmiður og kvænzt dóttur eins stéttarfélaga síns. Hann taldi sig skozkan að uppruna og var heittrúarmaður, siðavandur og strangur. Móðir Kants var trúuð og alvarleg. Þau eignuðust tíu börn, og komust fimm þeirra til manns. Öll fjölskyldan bjó við sárustu fátækt. Andi heittrúarstefnunnar mótaði heimilið, og Kant var kennt að meta sannleikann og skylduna sem hinar æðstu dyggðir.

Upphafsmaður heittrúarstefnunnar í Þýzkalandi, Jakob Spener (um 1670) átti einnig staðgengil sinn í Königsberg, F. A. Schultz að nafni. Hann var prestur þessa safnaðar og rektor menntaskólans, Collegium Fredericianum. Hann reyndist hjálpsamur mörgum fátækum sóknarbörnum sínum og var tíður gestur á heimili Kants-fjölskyldunnar. Þegar Immanuel var átta ára að aldri, tók Schultz við honum í skóla sinn, þar sem honum voru samvizkusamlega kenndir trúarlærdómar, um leið og hann var búinn undir háskóla-

nám með uppfræðslu í rómverskum bókmenntum. Bæði á heimili Kants og í skólanum ríkti járnharður og gleðisnauður andi heittrúarstefnunnar, sem tvinnaðist stundvísi, vinnusemi og reglusemi hinnar prússnesku borgar. Frá áhrifum þessa umhverfis gat Kant aldrei brotizt. Þau mótuðu framkomu hans og venjur og jafnvel heimspeki.

Eftir átta ára nám (1732—1740) í Collegium Fredericianum hóf Kant háskólanám sitt (1740—1746). Á þessum háskólaárum sínum drakk Kant í sig alla viðtekna lærdóma fortíðar og samtíðar. Hann lagði stund á eðlisfræði, stærðfræði, heimspeki og guðfræði. Martin Knutzen, prófessor í heimspeki, hafði mest áhrif á hann af kennurum skólans. Auk Leibniz-Wolff heimspekinnar, sem þá var tízka í öllum þýzkum háskólum, benti Knutzen Kant á rit Isaac Newtons, sem urðu til að vekja áhuga hans á heimspekilegum viðfangsefnum.

Á háskólaárum sínum átti Kant við sára fátækt að búa. Frá fjölskyldu hans var engrar aðstoðar að vænta. Foreldrar hans voru þá bæði látin og höfðu verið grafin eins og niðursetningar á kostnað hins opinbera. Kant dró fram lífið með því að ganga milli manna og kenna unglingum jafnhliða námi sínu. Hann útskrifaðist 1746, og næsta áratuginn var hann heimiliskennari hjá ýmsum fjölskyldum í nágrenni Königsbergs. Á þessum árum var hann sískrifandi og hafði ritað nægilega mikið um vísindi og heimspeki

til að taka doktorsgráðu í heimspeki og fékk um leið leyfi til að verða fyrirlesari við Königsbergsháskóla. Ekkert kaup var honum ætlað fyrir það starf.

Í fimmtán ár (1755—1770) gegndi hann þessu starfi ásamt illa launaðri undirbókavarðarstöðu, sem honum var veitt 1766. Á þessum tíma flutti hann fyrirlestra við háskólann um eðlisfræði, stærðfræði, rökfræði, háspeki, siðfræði, mannfræði, landafræði og guðfræði. Fátækt hans var slík, að hann sást sjaldan í heilli flík, og hrökklaðist milli matsöluhúsa borgarinnar og varð oft fyrir aðkasti og árásum. Fram til þessa hafði Kant tileinkað sér öll þau fræði, sem hann nam, og verið sammála gömlum erfðakenningum í trúmálum, stjórnmálum og heimspeki. Beizkja fátæktarinnar, nýjar bókmenntir í Bretlandi og Frakklandi og umrót á sviði stjórnmálanna fylltu hann nú uppreisnaranda, og hann sneri smám saman baki við viðteknum erfðakenningum og sagði „svefngenglum vanans" stríð á hendur. Königsberg var þá hersetin borg. Rússar höfðu ráðizt inn í landið til að vernda gamlan, löghelgaðan yfirráðarétt. Þeir mættu stáli viljans í líki Friðriks mikla Prússakonungs, sem viðurkenndi ekki, að yfirráð væru rétt — aðeins vegna þess, að þau væru gömul, — fornhelg, eins og hinir lærðu af gamla skólanum kölluðu þau. Hann krafðist annars réttar og æðri, réttar hins nýja tíma, réttar mannsins til að ráða sér sjálfum og brjóta af sér gamla hlekki, sem hindruðu þróun hans. Og hér var það loks Prússakonungur, sem

fór með sigur af hólmi. Það var viljinn, sem vann sigur á hinni gömlu og sprenglærðu skynsemi menntamannanna af gamla skólanum.

Þannig skildi Kant boðskap þessara viðburða, og hann skildi um leið, að gamlar kennisetningar og fornhelgar stofnanir geta orðið úreltar og hrunið til grunna. Síðar fann Kant þennan sama boðskap í stjórnbyltingunni frönsku og stríði Napóleons Bonaparte. Og hann fagnaði þessum boðskap frelsisins og hins nýja tíma. Hann gladdist, þegar hann heyrði um uppreisn nýlendnanna í Norður-Ameríku gegn Bretum; og þegar hann heyrði um stofnun franska lýðveldisins, varð honum að orði, líkt og Símoni forðum í musterinu: „Herra, lát nú þjón þinn í friði fara."

Á þessum árum, þegar Königsberg er hersetin borg (í sjö ára stríðinu 1756—1763), tekur Kant að leggja eyrun við rödd hins nýja tíma í bókmenntum Englands og Frakklands. Um 1760 kemst hann í kynni við rit Lockes og David Humes, sem hann sjálfur segir, að hafi vakið sig af svefni hinna gömlu erfðakenninga. Kynni hans af frönskum bókmenntum urðu engu síður til að móta hið nýja viðhorf hans. Höfundar Alfræðiorðabókarinnar frönsku efuðust sízt um, að hinar gömlu erfðakenningar ríkis og kirkju væru á leið undir fallöxi tímans. Voltaire sá stórar sýnir: Veröldin reis upp úr næturmyrkri fáfræðinnar, og það bjarmaði af dögun skynseminnar. Þúsund ára ríki vitsmuna og framfara var að rísa. Þrumurödd Rousseaus náði

einnig hinu hlustandi eyra Kants: — Heimskingjar! Hverfið aftur til náttúrunnar. Það er fleira í manninum en skynsemin. Gleymið ekki hinu innra lífi andans, sem er dýpra en skynsemin, gleymið ekki tilfinningunum. Mennirnir stjórnast af tilfinningum. Dýpsta tilfinning mannsins er góðvildin. Hverfum aftur til hennar. Þar sem hún ræður ekki ríkjum, verður ekkert þúsund ára ríki reist, og „framfarir" verða þar bölvun.

Þetta ekki sízt varð hinum soltna, prússneska heimspekidoktor nýr og undarlegur boðskapur. Hann segir sjálfur frá því, að Emile og Julie sé eina bókin, sem fengið hafi sig til að gleyma síðdegisgöngu sinni.

Öll þessi áhrif aldarinnar börðust í huga Kants og leituðu jafnvægis. Það varð hlutverk hans að draga öll vitni hennar fyrir dómstól sinn og gera upp hið andlega líf hennar. Þótt enginn í Königsberg renndi grun í gildi þessa manns fyrir vestræna menningu, var þó, sakir hins mikla lærdóms hans, ekki hægt að ganga fram hjá honum endalaust. Árið 1770 var hann gerður prófessor í heimspeki við Königsbergsháskóla.

Með þessari útnefningu hefst nýtt tímabil í sögu heimspekinnar: Hún verður akademísk. — Í fornöld var heimspekin andleg eign líkt og skáldgáfan. Heimspekingar 16. og 17. aldar, eins og Descartes, Spinoza, Leibniz, Locke og Hume, litu á heimspeki sem andlega íþrótt, sem ögraði getu mannsins til að

ráða gátuna miklu um manninn og tilveruna. Háskólaheimspeki, álitu þeir, yrði of hefðbundin og bókstafleg, dræpi niður skapandi hugsun og gerði heimspekinginn steinrunninn í fornum jarðlögum andans. Kant er fyrsti forystumaður heimspekinnar sem gerist prófessor við háskóla, og með honum heldur heimspekin innreið sína inn í háskólana — og verður að atvinnu.

Sem sæmilega launaður prófessor við Königsbergsháskóla gat nú Kant í fyrsta sinni á ævinni lifað mannsæmandi lífi. Athafnasemi hans var þó sízt minni en áður. — Hann hafði þegar skrifað margar ritgerðir, en átti þó höfuðverk sitt óunnið. Að því varð hann að vinna markvisst, — hver mínúta dagsins var skipulögð til einhverra ákveðinna athafna: — Nákvæmlega þegar klukkuna vantaði fimm mínútur í fimm, kom Lampe, gamli þjónninn hans, og vakti hann. Það brást aldrei, þótt Lampe, þessum gamla uppgjafahermanni frá Würzburg, þætti dálítið gott í staupinu. Nákvæmlega kl. fimm settist Kant við skrifborð sitt og byrjaði að vinna að heimspeki sinni og undirbúa fyrirlestra sína við háskólann. Á sömu mínútu kom Lampe inn með morgunkaffið, sem Kant drakk, um leið og hann vann. Hann kveikti sér því næst í pípu, en reykti aldrei nema eina. Stundvíslega kl. 7 var Kant mættur í kennslustofunni, kom sér fyrir og festi ævinlega augun við jakkatölu prússnesks stúdents, sem var alveg jafnstundvís og reglu-

samur og Kant sjálfur. — Það var alltaf sama talan á sama nemanda, sem Kant horfði á, — og fyrirlesturinn hófst. Kant talaði örugglega og viðstöðulaust. Aðeins einu sinni er þess getið, að Kant hafi lent í vandræðum með fyrirlestur sinn. — Það var, þegar umræddur stúdent mætti eitt sinn í tíma tölulaus. Kant komst ekki í samt lag aftur, fyrr en hann hafði látið stúdentinn festa á sig töluna.

Nákvæmlega kl. 9 hélt Kant aftur heim og vann við skriftir, það sem eftir var morguns. Þegar klukkuna vantaði stundarfjórðung í eitt, stóð Kant á fætur og kallaði til Lampe: „12.45!" Það var merkið um, að nú skyldi setzt undir borð. Kant, sem alla ævi hafði búið við skort, kunni vel að meta góðan mat og vín í hófi. Viðræður voru honum þó hinn sanni munaður. Kant var því vanur að bjóða nokkrum mönnum að snæða með sér. Hins vegar eignaðist hann aldrei fleiri en fimm diska, og varð sú tala að ráða fjölmenninu við borðið.

Máltíðin stóð yfir á fjórðu klukkustund. Hún var þrírétttuð, þar á eftir ábætir og vín. Viðræðurnar voru þó að sjálfsögðu aðalatriðið. En þær, eins og allt annað, voru skipulagðar. Kant ætlaðist til, að þær hæfust á frásögnum, síðan áttu þær að leiða til umræðna, og þriðji liður viðræðnanna skyldi vera léttara hjal. Það mátti segja frá öllu, sem mönnum þótti markvert, rökræða allt nema heimspeki og henda gaman að öllu nema því, að Kant væri piparsveinn. Kant hafði góða

frásagnargáfu og var snjall í rökræðum, en þegar komið var út í síðasta lið viðræðnanna, þótti Kant oft fljótlega kominn tími til að minna gesti sína á síðdegisgönguna. Nóg hafði verið talað, og nú hófst tími þagnarinnar. Kant fór ævinlega einn í síðdegisgöngu sína, þar sem það var siður hans að opna aldrei munninn á göngu. Kant var sinn eigin læknir og hafði samið sína eigin heilsufræði. Hann var aldrei heilsuhraustur, þó að honum tækist með reglubundnu líferni að verjast beinu heilsuleysi og ná áttræðisaldri. Þetta, að ganga með lokaðan munn og gleypa engar óþarfa bakteríur, var ein af varúðarráðstöfunum hans. Annað var að reyna aldrei svo mikið á sig, að hann svitnaði. Þegar hann kom heim af kvöldgöngunni, fletti hann um stund fréttablöðum, tímaritum og bókum. Því næst settist hann niður til að ígrunda vandamál heimspekinnar. Hann settist þá alltaf í sama sætið og horfði út um glugga sinn á turn Lobernichtkirkjunnar, vegna þess að þegar hann einbeitti huga sínum, varð hann alltaf að festa augun við einhvern ákveðinn hlut. Sagt er, að espitré í garði eins nágrannans hafi um skeið byrgt útsýnið fyrir Kant, svo að hann sá ekki til kirkjunnar. Þá daga gat Kant ekki íhugað nein erfið vandamál, og fengu vinir hans eigandann til að höggva trén niður. Tók þá Kant gleði sína aftur.

Þannig lifði heimspekiprófessorinn Immanuel Kant frá degi til dags, frá ári til árs. Enginn vissi, að þessi

hægláti maður væri í kyrrþey að bylta heimspekinni á jafnróttækan hátt og Kópernikus hafði á sínum tíma bylt stjörnufræðinni. Árið 1781 kom árangurinn í ljós. Kritik der reinen Vernunft (rannsókn hinnar hreinu skynsemi) var prentuð. Þar setur Kant fram þungamiðju heimspeki sinnar, sem er djúpstæðasta hugsun 18. aldar. Sú bók fjallar um eðli og takmörk skynseminnar. Árið 1785 kom út bókin Kritik der praktichen Vernunft (rannsókn hinnar virku skynsemi), sem fjallar um viljann. Og 1790 kom út Kritik der Urtheilskraft (rannsókn dómgreindarinnar), sem fjallar um tilfinningar, fegurð og list. Um þessar bækur nægir að taka fram, að áhrifa þeirra gætir enn í dag að meira eða minna leyti í hugmyndaheimi sérhvers hugsandi Vesturlandabúa, hvort sem hann hefur heyrt Kants getið eða ekki. Eitt af hinum fáu, stóru verkum sögunnar og mesta bókmenntaafrek 18. aldar hafði verið unnið. Sá, sem verkið vann, prófessor Immanuel Kant, var orðinn gamall maður, hafði lokið hlutverki sínu og beið nú sigurlaunanna. Þau komu 1. október 1794. Stjórnin í Berlín sendi þá gamla manninum skeyti, þar sem hann var víttur fyrir „að misbeita heimspeki sinni til að grafa undan og kollvarpa kristindómi" (Friðrik mikli var þá fallinn frá, og eftirmaður hans var fylgjandi heittrúarstefnunni). Var Kant hótað hörðu af hálfu hins opinbera, ef hann ekki eftirleiðis skrifaði eins og konungur vildi. Kant var nú á sama aldri

og Sókrates, þegar hann á sínum tíma var beðinn að velja milli eiturbikarsins og trúar sinnar. Immanuel Kant, sál 18. aldarinnar, ósigrandi í rökfræði sinni, átti ekki trú Sókratesar. Hann vísaði bikarnum frá sér. „Ég mun í framtíðinni hætta öllum opinberum fyrirlestrum um trúmál," lofaði hann og bætti við síðar: „Ég er konungsins tryggasti þjónn."

Árið eftir hætti hann að mestu fyrirlestrum sínum við háskólann og 1797 var hann kvaddur og honum þakkað opinberlega fyrir 42 ára störf sín við skólann. Á sama tíma barst frægð hans um öll lönd álfunnar, og margir tóku sér ferð á hendur til Königsbergs til að sjá Immanuel Kant. „Herrar mínir," sagði hann þá eitt sinn við vini sína, „ég er gamall og veikur. Ég er orðinn eins og barn, dauðann óttast ég þó ekki .... ef ég fyndi á þessu kvöldi, að ég væri feigur, skyldi ég rétta út arma, falla fram og segja: Guði sé lof." Kant andaðist 12. febrúar 1804.

Í eftirmælum sínum um Kant segir þýzka skáldið Heine (1799—1856):

Ævi Immanuel Kants er erfitt að lýsa. Í venjulegri merkingu orðsins átti hann sér enga sögu. Hann lifði einmanalegu, vélrænu lífi piparsveinsins í kyrrlátu, afskekktu stræti í Königsberg, gamalli borg við norðausturlandamæri Þýzkalands. Ég efast um, að dómkirkjuklukka borgarinnar hafi gegnt hlutverki sínu með meira langlundargeði og öryggi en landi henn-

ar, Immanuel Kant. Allt hafði sinn ákveðna tíma: fótaferð, kaffidrykkja, skriftir, fyrirlestrar, máltíðir og gönguferðir. Nágrannarnir vissu, að klukkan var nákvæmlega hálf fimm, þegar þeir sáu prófessor Kant fara í gráum frakka með staf í hendi út úr húsi sínu og halda í áttina til linditrjánna, sem stóðu við lítinn stíg, sem kenndur er við hann og kallaður Vegur heimspekingsins. Átta sinnum gekk Kant þennan stíg fram og aftur árið um kring, og þegar vont var veður, sást Lampe, gamli þjónninn hans, fylgja honum líkt og ímynd forsjónarinnar, með stærðar regnhlíf undir hendi. Undarlegar voru andstæðurnar hjá þessum manni milli hins ytra lífs hans og hugsana hans, sem boðuðu hinum gamla heimi ragnarök. Sannleikurinn er sá, að ef borgarar Königsbergs hefðu rennt grun í þýðingu þessara hugsana, hefðu þeir skolfið fyrir honum eins og böðli. En blessað fólkið sá ekkert í honum nema prófessor í heimspeki, og þegar hann fór hjá á sínum fastákveðna tíma, heilsaði það honum vingjarnlega — og setti úr sín.

Þannig farast hinu rómantíska og skemmtilega skáldi, Heine, orð. Hinu má þó ekki gleyma, að aldrei hefur vegur Þjóðverja verið meiri en þegar þeir áttu Friðrik mikla mestan konunga, Goethe mestan skálda og Immanuel Kant mestan heimspekinga. Með þeim reis 18. öldin hæst.

# Heimspeki Kants

Heimspekingurinn Immanuel Kant lifði alla ævi í Königsberg og nágrenni hennar. Þó var hann mesti landkönnuður aldarinnar — í ríki andans. Hann ferðaðist um og kannaði þrjár veraldir. Veröld *þekkingarinnar* og reit um hana frægustu bók sína, Kritik der reinen Vernunft. Síðan kannaði hann veröld *viljans* og reit um hana Kritik der praktischen Vernunft. Loks kannaði hann veröld *tilfinninganna* og reit um hana bókina Kritik der Urtheilskraft. En í raun og veru er það skynsemin, sem er drottning í öllum þessum veröldum, þó að hún gangi þar undir ýmsum nöfnum. Án vegabréfs hennar eru þetta lokuð lönd. En til hvers er förin farin? Hvers er leitað í þessum þrem veröldum? — Í veröld þekkingarinnar leitar Kant sannleikans, því að hann er grundvöllur hennar. Í ríki viljans leitar Kant góðleikans, því að hann er kjarni þess vilja, sem bendir manninum upp og fram. Í ríki tilfinninganna leitar Kant fegurðarinnar og trúarlegrar reynslu.

Fyrst ferðast Kant inn í veröld þekkingarinnar. Hann horfir í kringum sig með spurulum augum manns, sem vill rekja alla hluti til rótar sinnar. Hann nemur staðar og spyr við hvert fótmál: „Hvernig og hvers vegna?“

Heimspekin varð í upphafi til vegna trúar mannsins á getu sína til að afla sér sannrar þekkingar á sjálfum sér og veröldinni. Descartes, Spinoza og Leibnitz til dæmis byggja heimspekikerfi sín á þeirri fullvissu, að það sé hægt. Á 18. öldinni taka menn aftur á móti alvarlega að efast um, að mannlegir vitsmunir séu þess umkomnir að þekkja veröldina eins og hún er í raun og veru. John Locke hélt þó fram, að sumar hugmyndir okkar um tilveruna væru óyggjandi sannar, eins og til dæmis rúm, lögun, fjöldi og þéttleiki eða þyngd. Aðrar hugmyndir okkar, segir hann, eins og litir, hljóð, lykt og bragð, eru ekki sannar, því að þær eru háðar skynfærunum, og skynfærin geta ekki skynjað veröldina eins og hún er. Litur er háður auganu, hljóð eyranu o. s. frv. Berkeley kenndi aftur á móti, að menn gætu ekki vitað neitt um efnisheiminn, því að hvorki efni né efnisheimur væri til. — Til væru aðeins hugmyndir, en þessar hugmyndir aftur á móti gætu'n við þekkt réttar. Þess vegna væri þekking mannsins í vissum skilningi sönn þekking. Hume er á sama máli og Berkeley um það, að menn geti ekki haft neina óyggjandi sanna þekkingu á efnisheiminum, vegna þess að mannleg skynjun gæfi manninum ekki sanna mynd af veröldinni, og þar sem allar hugmyndir manna byggjast að áliti Humes á skynjun og reynslu, væru hugmyndir manna jafnvafasamar og skynjun þeirra. Samkvæmt þessu getur

maðurinn hvorki átt né eignazt nokkra algilda þekkingu.

Þannig hafði hinn spuruli andi 18. aldarinnar rekið trúna úr hásætinu og krýnt skynsemina í hennar stað. En jafnvel hún var ekki föst í sessi. Þessi sami andi, sem fellt hafði trúna, hafði einnig snúizt gegn skynseminni og tók að rannsaka rétt hennar til hásætisins. Nú var það hún, sem kölluð var fyrir hæstarétt 18. aldarinnar, prófessor Immanuel Kant. Og hver verður dómur þessa réttar? Staðfestir hann skoðun David Humes, eða hverfur hann aftur til John Lockes? Á maðurinn sér nokkurn meðfæddan skilning? Eða eins og Hume áleit, er vitundin aðeins fóstur skynfæranna? Getur maðurinn átt nokkra sanna hugmynd, öðlazt nokkra sanna þekkingu? Tókst Kant að finna eyju sannrar þekkingar í útsæ hins óþekkjanlega? Eða er landið sokkið? Kant svarar með riti sínu, Kritik der reinen Vernunft.

Rannsókn hinnar hreinu skynsemi er sennilega ólæsilegasta rit heimsbókmenntanna. — Í bréfi til Mendelssohns segist Kant hafa verið í 12 ár að ígrunda efni þessarar bókar, en síðan skrifað hana á 5 mánuðum. Líklegt verður að telja, að Kant hafi á þessum 5 mánuðum aðeins raðað saman gömlum brotum, strikað út, aukið inn í og umskrifað. Þess má sjá nokkur merki á bókinni. Hið ytra er bygging hennar og niðurröðun þó með afbrigðum formföst og heilsteypt. Málið á bókinni er hins vegar í stirðasta lagi. Kant segir sjálfur um

ritið, að hann hafi lítt skeytt um að gera lestur þess auðveldan. Vel orðaðar setningar er þar erfitt að finna, setningaskipun er langdregin, málfarið tyrfið og grammatíkin er þar fyrirlitin. Það er harður málmur, sem prófessor Kant slær í smiðju skynseminnar. Þangað fer enginn til að safna rósum. En lítum samt á Kritik der reinen Vernunft.

Kritik er dregið af grískri sögn, sem hefur tvær merkingar: að skilja sundur og dæma. Hjá Kant felast báðar þessar merkingar í orðinu. Hann kallar „die reine Vernunft" (hina hreinu skynsemi) fyrir dómstól sinn og spyr: „Þekkir þú veröldina, sjálfa þig og guð?" — „Þekkir þú tilveruna eins og hún er í raun og veru?" — Hin hreina skynsemi svarar fyrir munn heimspekinga 16. og 17. aldar og alls almennings og kveður svo vera. „Og hvers vegna?" spyr Kant eins og Sókrates forðum. Hin hreina skynsemi leggur fram rök *sín*. Kant (eins og lesandinn skilur, er sjálfur bæði sakborningurinn og dómarinn) hlýðir á framburð hennar, greinir hann sundur og — dæmir.

Á okkar tímum, hugsar Kant og hallar sér aftur á bak í dómarasætinu í stofu sinni og horfir óhvikulum augum á kross Lobernichtkirkjunnar, á okkar tímum eru margir, sem halda, að mannleg skynsemi eigi sér engin takmörk. Hafa þeir rétt fyrir sér? Hvernig verða hugsanir okkar til? — Og þekkingin, — hvað er það? Öll þekking, segir Kant, er dómur, sem við kveðum upp: Við staðhæfum eitthvað eða neitum einhverju.

En ekki er nóg að skilgreina þekkingu þannig. Öll þekking er að vísu dómar, en allir dómar eru ekki þekking. Hugtök eins og jörð eða maður eitt út af fyrir sig er ekki þekking, því að með því kemur ekkert fram, sem ekki liggur í hlutarins eðli. Ef um þekkingu á að vera að ræða, verður að tengja þessi hugtök einhverjum öðrum hugtökum og segja til dæmis: Jörðin er hnöttótt, eða maðurinn er skyni gædd vera. Hér er því um tvenns konar dóma að ræða. Í hinum fyrri kryfjum við hugtakið eitt út af fyrir sig (analyserum), en tengjum það ekki öðru hugtaki. Í hinum síðari tengjum við hugtök saman (synthetiserum) og sköpum á þann hátt þekkingu okkar. Kant sagði í upphafi, að þekking væri dómur. Nú hefur hann sýnt fram á, að einþættur dómur er ekki þekking. Sviðið hefur þrengzt. Sá dómur einn er þekking, þar sem tveir eða fleiri þræðir tvinnast saman: Hann verður að vera synthetiskur dómur. Enn vitum við þó ekki, hvað þekking er, því að þótt öll þekking sé synthetiskir dómar, þá eru ekki allir synthetiskir dómar sönn þekking. Svið sannrar þekkingar hlýtur enn að þrengjast. Til þess að þekking sé vísindaleg og sönn, verður hún að vera algild og sjálfsögð. $5\times6=30$ er algild þekking vegna þess, að $5\times6$ eru alltaf 30. Það er sjálfsögð þekking vegna þess, að skynsemi okkar krefst þess, að við viðurkennum þessa niðurstöðu. Og þessi niðurstaða byggist ekki eingöngu á reynslu. Hún er alda, sem rís á hafi okkar eigin skilnings, sem var til, áður en storm-

ar skynjunar og reynslu ýfðu þar upp nokkurn gára. Hið algilda rís á hafi skilningsins í okkur sjálfum, en er ekki algerlega háð skynjun og reynslu. Ef sagt er aftur á móti: Það er kalt í dag, þá er það ekki vísindaleg þekking, vegna þess, að hún byggist eingöngu á skynjun og reynslu. Hún er ekki algild, vegna þess að á öðrum stöðum kann að vera hiti, og á morgun getur þetta einnig verið breytt. Hún er ekki heldur sjálfsögð, vegna þess að skynsemin hefði ekki getað séð þetta fyrir án skynjunar og reynslu. Vegna þess að þessi dómur, þótt synthetiskur sé, er ekki algildur eða sjálfsagður, kallar Kant hann og aðra slíka ekki sanna þekkingu. Hin sjálfsagða og algilda þekking á rætur sínar að rekja til skilningsins sjálfs, sem Kant heldur fram, að sé til (þótt óvirkur sé) á undan skynjun og reynslu. Dómur er þekking, en aðeins ef hann er dómur um samhengi hlutanna, og jafnvel sá dómur er ekki þekking, nema hann sé algildur og sjálfsagður, eigi með öðrum orðum rætur sínar að rekja til skilningsins sjálfs. Þetta er svar Kants við spurningunni: Hvað er þekking? — *Þekking er sjálfstæður og algildur dómur um samhengi hlutanna.* — Niðurstaða, sem er sérkennandi fyrir Kant, bæði að hugsun og framsetningu!

Hume neitaði, að sönn og algild þekking gæti verið til, þar sem allar hugmyndir manna byggðust eingöngu á skynjun og reynslu. Hlutverk Kants er að sýna fram á, hvernig slík vísindaleg þekking geti verið til, vegna þess að fleira tekur þátt í sköpun hugsunarinnar en

skynjun og reynsla. Tökum dæmi: „Hlutir þenjast út við hita.“ Kant segir, að þetta sé vísindaleg þekking. Hvernig hefur þá þessi hugsun orðið til? Í fyrsta lagi getum við ekki hugsað, nema eitthvað sé til að hugsa um. Þetta umhugsunarefni leggur skynjunin til. Hún leggur hér til hugmyndirnar hita, útþenslu og hluti. Berkeley og hugspekin (idealisminn), sem neita hinum ytri veruleika sem upphafi hugsunarinnar, gleyma því að dómi Kants, að blindur maður getur til dæmis aldrei fengið neina hugmynd um ljós eða liti. — Við þennan efnivið, sem skynjunin leggur til, bætir skilningurinn hugmyndinni um orsakasamhengið milli hita og útþenslu hlutanna. Með því að neita því, að skilningurinn sjálfur leggi neitt til þessa efniviðar skynjunarinnar, gleymir David Hume og skynhyggjan því, að jafnvel hin fullkomnustu skilningarvit hálfvitans nægja ekki til að skapa hjá honum vísindalega hugsun. Það, sem á við um þennan dóm (hlutir þenjast út við hita), á við um alla vísindalega dóma. Til að skapa þá þarf bæði þekkjanda (subject) og eitthvað til að þekkja (object). Það þarf bæði skynjun, reynslu og skilning. Skynjun og skilningur eru grundvöllur allrar þekkingar. Skynjun án skilnings er blind,skilningur án skynjunar er tómur. Þannig ræðst Kant að skynhyggju (sensationalisma) og hugspeki (idealisma), en sameinar um leið þá sannleikskjarna, sem hann telur sig finna í báðum þessum stefnum.

Kant hefur nú skilgreint, hvað vísindalega sönn

þekking sé, og sagt, að hún verði til fyrir atbeina skilnings og skynjunar í sameiningu. Liggur þá næst fyrir að sýna ljóslega fram á, hvernig þessi þekking verði til, eða öllu heldur sýna fram á, hvers vegna hún getur verið til. Hann skiptir þessu verkefni í tvo kafla. Fjallar hinn fyrri um skynjun og reynslu, hinn síðari um skilninginn.

Sá, sem ekki hefur tamið sér að þenkja heimspekilega, efast ekki um, að veröldin sé eins og hann skynjar hana, — og ef til vill verða heimspekingar einhvern tíma svo miklir heimspekingar, að þeir komist aftur til hinnar hversdagslegu einfeldni. En þannig var ekki um Immanuel Kant. Hann neitaði ekki hinni ytri tilveru, en taldi, að við gætum aldrei þekkt hana eins og hún er í sjálfri sér. Hin ytri tilvera er að vísu hráefnið í hugsun okkar, — en aðeins hráefni, og um það getum við ekki vitað neitt meir. Það er aðeins eitthvað dularfullt, sem öll skynjun byggist á, en birtist mönnum þó aldrei í sínu rétta eðli. Þetta dularfulla hráefni fellur í mót hinnar mannlegu skynjunar. Þar er þetta efni mótað og því breytt þannig, að hugurinn geti meðtekið það — sem hugmyndir. Skynfærin eru því ekki óvirk tæki, sem flytja mynd veraldarinnar eins og hún er inn í huga manns, heldur gefa þau henni lit og lögun og birta hana í sinni eigin mynd. Af þessu leiðir, að huganum er jafnörðugt að þekkja þessa ytri tilveru, hvernig hún er í sjálfu sér, og blóðinu til dæmis, ef það hefði vitund til að skynja allt, sem til þess ber-

ist, væri að skynja næringu sína eins og hún var, áður en fæðunni var breytt. Epli t. d. gerbreytist strax í munni manns og síðan enn meir, er það fer um meltingarfærin, og loks þegar þetta efni kemur til blóðsins, er það ekki á neinn hátt líkt epli. Eplið kemst ekki til blóðsins, fyrr en það hefur fengið vissa eiginleika blóðsins og getur þess vegna orðið hluti þess. Þetta dæmi er alveg hliðstætt kenningu Kants um „meltingarstarfsemi" skynjunarinnar, sem skilar hinu dularfulla, óþekkjanlega hráefni sínu til hugans í gerbreyttri mynd. Þ.e.a.s. þetta hráefni hefur fengið vissa eiginleika sjálfrar skynjunarinnar, og fyrst, þegar það hefur fengið þessa eiginleika, getur hugurinn veitt því viðtöku sem skynmynd. Þessar skynmyndir eru því veröldin eins og við sjáum hana, en ekki eins og hún er í sjálfri sér.

En hvað er það þá í skynjun okkar, sem meltir þetta óþekkjanlega hráefni, hina ytri náttúru, og gefur því eiginleika sína? Það er tvennt, svarar Kant. Annað er rúmið, hitt er tíminn. Þetta er hin mikla uppgötvun Kants: Bæði tími og rúm eru skuggsjá vitundarinnar. Tími og rúm voru til sem eiginleikar skynseminnar á *undan* skynjun og reynslu. Þetta er því manninum meðfætt, en ekki áunnið, eins og David Hume hélt fram. Kant rökstyður þetta þannig:

1) Kornabarnið veit án reynslu, að til er eitthvað fyrir aftan, fyrir framan og til hliðar. Það hefur meðfædda hugmynd um rúmið. Á sama hátt veit það, að

eitthvað er til á undan og á eftir. Það hefur hugmyndina um tíma meðfædda.

2) Hvernig geta hugmyndirnar um tíma og rúm verið komnar frá reynslu okkar? Við höfum enga reynslu fyrir tíma eða rúmi. Að vísu skynjum við alla hluti í tíma og rúmi, en aldrei tímann eða rúmið sjálft. Lokaðu augunum og reyndu að hugsa þér tíma eða rúm, rúm eitt út af fyrir sig án þess að setja það í samband við nokkuð annað. Það getur ekki tekizt skynsömum manni! Eiga menn sér þá þessi hugtök, tíma og rúm, vegna þeirra hluta, sem þeir skynja í rúmi og tíma? Slíkt er óhugsandi, segir Kant, hugmyndin um rúm t. d. mundi þá fela í sér minna en hugtakið, sem hún væri leidd af. Hver þorir að halda því fram, að rúm alheimsins, ómælið, feli í sér minna en sérstakt, afmarkað rúmtak? Þess vegna geta hugtökin tími og rúm ekki verið dregin af reynslunni, heldur eru þau eiginleikar, sem tilheyra vitund okkar, sem við erum fædd með.

3) Vísindagreinarnar rúmfræði, sem byggist á rúmi, og reikningslist, sem byggist á tíma, eru ekki algerlega háðar reynslu. Hver mundi t. d. í fullri alvöru staðhæfa: „Ég veit, að $125 \times 20 \times 10$ eru 25000, vegna þess, að ég hef reynslu fyrir því.“ Kant viðurkennir, að Hume hafi rétt fyrir sér, þegar hann segir, að reynsla okkar nái svo skammt, að hún geti aldrei fært okkur heim algilda, sjálfsagða vísindalega þekkingu. En einmitt þetta, segir Kant, sannar, að þessi stærðfræðilega

og vísindalega þekking getur ekki byggzt á reynslu. Ef tími og rúm væru hugtök, sem við hefðum öðlazt vegna reynslu okkar, þá væru þau vísindi (rúmfræði og reikningslist), sem byggjast á þessum hugtökum, óáreiðanleg. En nú hefur Kant sýnt fram á, að þau eru algild og sjálfsögð. Þess vegna eru hugmyndirnar um tíma og rúm ekki byggðar á reynslu okkar, heldur eru þær eins konar gleraugu vitundarinnar, lituð sínum eigin litum. Annað glerið nefnist tími, hitt rúm.

Fyrst þetta er eðli tímans og rúmsins, þá er auðskilið, hvers vegna maðurinn getur ekki skynjað rúm og tíma eitt út af fyrir sig. Það er jafnerfitt og það er fyrir augað að sjá sjálft sig. — Það getur í mesta lagi séð mynd sína í speglinum. Allt þetta ber að sama brunni: Við þekkjum aðeins das Ding an mich — veröldina eins og hún birtist okkur. En við getum aldrei þekkt hið dularfulla das Ding an sich — veröldina eins og hún er í sjálfri sér.

Þannig takmarkast skynsemin hér af skynfærum, sem skynja ekki veröldina í sjálfri sér, og þeim eiginleikum sínum að skynja alla hluti í tíma og rúmi.

Það er ekki aðeins skynjunin, sem takmarkar svið skynseminnar, einnig skilningurinn hefur sínar takmarkanir. Og nú tekur Kant sér fyrir hendur að rannsaka og dæma eðli hans. Hann skiptir þessu verkefni í tvennt. Fyrri hlutinn fjallar um þá starfsemi skilningsins að tengja skynmyndir sínar saman og mynda úr þeim þekkingu, sem byggist á orsakasamhengi. Hið

síðara viðfangsefni hans í þessu sambandi er að taka til meðferðar hinar erfiðu ráðgátur um sálina, alheiminn og guð.

Lítum fyrst á hið fyrra. Hugsum okkur einhverjar tvær skynmyndir, t. d. „Steinninn er heitur." „Sólin skín." Þetta eru tvær skynmyndir, sem berast til hugans. Og við drögum þá ályktun, að sólin hafi hitað steininn. Hvernig komumst við að þessari niðurstöðu? Hinar tvær skynmyndir hafa ekki einar út af fyrir sig nægt til að mynda þessa hugsun. Hálfviti, sem sér bæði sólina og finnur, að steinninn er heitur, dregur ekki þessa ályktun. Hér kemur því fram nýr eiginleiki vitundarinnar: samhengi hlutanna. Hume segir, að það, að við þykjumst sjá orsakatengsl milli vissra hluta, sé ekki byggt á reynslu, heldur sé það aðeins venja að sjá vissa hluti fara saman, og menn kalli því hið fyrra orsök og hið síðara afleiðingu. Kant er á sama máli og Hume um það, að hugmyndin um orsakasamhengi sé ekki dregin af reynslu okkar. Hins vegar heldur Kant því fram, að orsakasamhengið sé staðreynd. — Og fyrst við lærum ekki þessa staðreynd af reynslunni, hlýtur skilningurinn sjálfur að fræða okkur um þetta efni, — með öðrum orðum er orsakasamhengið manninum áskapað. Það er ekki þekkingaratriði, heldur eiginleiki skilningsins, alveg á sama hátt og tími og rúm voru eiginleikar skynjunarinnar. Og vegna þess, að orsakasamhengi er eiginleiki skilningsins, þá sjáum við alla hluti í tengslum við eitthvað annað. Þetta þýðir, að

við sjáum veröldina ekki aðeins með lituðum gleraugum skynjunarinnar, heldur bætast hér við fleiri „gler“, sem vitundin verður að skynja veröldina gegnum. Skilningurinn raðar niður og mótar þær skynmyndir, sem til hans berast, eftir sínum eigin lögmálum.

Hin æðsta starfsemi hans er að dæma. Skilningurinn getur raðað niður og dæmt á marga vegu. Dómar hans, segir Kant, skiptast í tólf flokka. Hver flokkur byggist á ákveðnum, meðfæddum eiginleika (kategóríu) skilnings. Þessir eiginleikar eru því einnig tólf, og vegna þess, að þeir eru manninum áskapaðir, eru þeir dómar, sem á þeim byggjast, sannir. Þessir tólf flokkar dóma eru:

1) Alkvæðir (universal) dómar: Allir menn eru dauðlegir.
2) Sumkvæðir (partikular) dómar: Sumir menn eru Þingeyingar.
3) Einkvæðir (singular) dómar: Napóleon var keisari í Frakklandi.
4) Jákvæðir (affirmativir) dómar: Hiti er hreyfing.
5) Neikvæðir (negativir) dómar: Hugsun er ekki víðátta.
6) Ómælis- (infinit) dómar: Sálin er eilíf.
7) Fullyrðingar (kategórískir dómar): Líkaminn er þungur.
8) Skilyrðingar (hypothetískir dómar): Ef fjallið er bratt, verður förin erfið.
9) Skilgreiningar (disjunktívir dómar): Annaðhvort

voru Grikkir eða Rómverjar öndvegisþjóð fornaldar.

10) Tvíræðir (problematiskir) dómar: Ef til vill er líf á öðrum stjörnum.

11) Fullvissandi (assertoriskir) dómar: Jörðin er hnöttótt.

12) Ótvíræðir (apodeiktiskir) dómar: Hver afleiðing hlýtur að eiga sér orsök.

Þessum tólf flokkum skiptir Kant í fjórar þrenningar. Þrír fyrstu flokkar þessara dóma fjalla um 1) heild, 2) fjölda, 3) einingu (þeir fjalla því um magn hlutanna). Næstu þrír fjalla um 4) það, sem er, 5) það, sem er ekki, 6) takmarkanir, (þeir fjalla því um eðli hlutanna). Þá koma þrír flokkar, sem fjalla um 7) íveru og tilveru, 8) orsakasamband og 9) gagnskiptileika, (þeir fjalla því um samhengi hlutanna). Þeir síðustu fjalla um 10) það, sem getur verið, og það, sem getur ekki verið, 11) veruna og ekki-veruna, 12) vissu og óvissu, (þessi flokkur fjallar því um hátt hlutanna).

Kant telur, að flokkurinn, sem fjallar um samhengi hlutanna, sé æðstur og allir hinir þrír séu honum háðir. – Hvort eitthvað af þessum „kategóríum“ skilningsins kunni að vera „gervigluggar“, sem settir hafi verið á höllina vegna ytra samræmis, skal ekki rætt hér. Þetta eru meðfæddir eiginleikar skilningsins, segir Kant, og þetta verða því eiginleikar þeirrar veraldar, sem maðurinn skynjar og skilur. *Það er skynsem-*

*in, sem býr sér þannig til alheim sinn,* heim fyrirbrigðanna. Sá alheimur er ekki alheimurinn eins og hann er í sjálfu sér, en samt er það hinn eini heimur, sem hún getur þekkt. Slík eru takmörk mannlegrar skynsemi.

Þegar við því látum skynsemina glíma við viðfangsefni eins og sálina, alheiminn eða guð, lendir skynsemin í eilífum mótsögnum, vegna þess að þessi viðfangsefni eru ekki á hennar færi. Enginn má þó skilja Kant svo, að hann neiti tilveru guðs til dæmis. Þvert á móti, — hann aðeins tekur skýrt fram, að þessir hlutir heyra ekki undir svið mannlegrar skynsemi. Hún þekkir aðeins heim fyrirbrigðanna, en sálin, guð og alheimurinn eru ekki fyrirbrigði. Menn geta myndað sér skoðanir um þessa hluti, en þær kenningar verða fullar af mótsögnum. Um þetta fjallar síðari hluti kaflans um skilninginn. Kant tekur þar til meðferðar gáturnar þrjár um sálina, veröldina og guð. Við getur ekki sannað, segir Kant, að til sé ódauðleg sál. Skynjun mannsins flytur skilningnum röð af skynmyndum. Skilningurinn vinnur hugtök úr þessum skynmyndum og skynsemin kallar öll þessi hugtök einu nafni sál og býr til sálfræðivísindi. Einnig hér þekkjum við aðeins fyrirbrigðin. Sú þekking réttlætir hvorki sállausa efnishyggju né órökstudda trú á ódauðleika sálarinnar — af þeirri einföldu ástæðu, að við getum aðeins þekkt fyrirbrigði. Í stað þess að eyða tíma sínum

í ófrjóar deilur um þessi efni, bendir Kant mönnum á að snúa sér að heimspeki hinnar réttu breytni og verða með því betri þegnar í betra heimi.

Við getum ekki heldur, eins og áður er sagt, þekkt veröldina eins og hún er. Hin ytri skynjun mannsins sér gegnum „gleraugu" sín tíma og rúm, ótal fyrirbrigði. Þessi fyrirbrigði berast til skilningsins, sem með eiginleikum sínum vinnur úr þeim hugtök og vísindi, og skynsemin kallar öll þessi hugtök og vísindi einu nafni veröld. (Veröld er hér notuð í merkingunni: Allt, sem þekkt er). Þessi veröld okkar er því aðeins heimurinn, eins og hann birtist okkur, ekki hinn raunverulegi heimur, sem er okkur óþekkjanlegur. Allar hugmyndir um hann verða því mótsagnakenndar, vegna þess að þær er bæði hægt að sanna og afsanna. Það er bæði hægt að sanna, að veröldin sé takmörkuð og að hún sé ótakmörkuð í tíma og rúmi. Það er bæði hægt að sanna, að veröldin sé sett saman úr atómum, og það er einnig hægt að sanna, að þessi atóm sé hægt að kljúfa óendanlega. Það er bæði hægt að sanna, að viljinn sé frjáls og að gangur veraldarinnar sé óhagganlegur eins og sigurverk. Það er bæði hægt að sanna og afsanna tilveru guðs. En allar þessar mótsagnir heimspekinganna sýna það eitt, að þessi mál eru ekki á færi skynseminnar. Hins vegar hefur skynsemin engan rétt til að fullyrða, að ekki sé hægt að þekkja veröldina, þótt það sé ekki á hennar færi.

Kant ver 88 blaðsíðum í að ræða þau rök, sem lögð

hafa verið fram til að sanna tilveru guðs, þótt allar slíkar sannanir séu dæmdar fyrir fram samkvæmt heimspeki Kants, því að þar er því haldið fram, að skynsemin skapi hugmyndina um guð og guðfræði úr fyrirbrigðum. Með þessu er þó ekki sagt, að Kant neiti tilveru guðs. Hann heldur því aðeins fram, að hún verði ekki sönnuð á grundvelli skynseminnar, þrátt fyrir allar þær tilraunir, sem til þess hafa verið gerðar.

Descartes hafði sagt: „Ég er til. Þess vegna er guð til." Það, að ég hef hugmyndina um guð, sannar eitt út af fyrir sig, að guð er til. Þetta, segir Kant, er líkt og fátæklingur segði: „Ég á hugmyndina um hundrað krónu seðil. Þess vegna á ég hundrað krónu seðil í vasa mínum."

Aðrir sögðu: Allir hlutir eiga sér orsök. Einhvers staðar hefst orsakakeðjan. Einhvers staðar er hin fyrsta orsök. Ef guð er utan við heim fyrirbrigðanna, spyr Kant, hvernig getur hann þá verið hinn fyrsti hlekkur í orsakakeðju fyrirbrigðanna? Og jafnvel þó að hin fyrsta orsök sé til, hvernig er þá hægt að sanna, að sú orsök sé það, sem guðfræðin kallar guð?

Sú kenning, að samræmi tilverunnar sanni guð, er þyngst á metunum, en stenzt þó ekki gagnrýni. Í fyrsta lagi rekja menn sig þar áfram frá hlutum, sem við skynjum, til einhvers, sem ekki tilheyrir heimi reynslunnar. Í öðru lagi: Með hvaða rétti líkja menn tilverunni við klukku eða hús? Er tilveran verk, sem hefur ekki getað orðið til án smiðs? Getur tilveran ekki verið

eilíf og aldrei hafa verið sköpuð? Engar af þessum „sönnunum“ sanna tilveru guðs. Þessar niðurstöður staðfesta þó ekki sjónarmið guðleysingjans. Þær staðfesta ekki heldur sjónarmið trúmannsins. Kant vill með þessu aðeins enn einu sinni leggja áherzlu á, að allt þetta sé ekki á færi skynseminnar. Það er ekki á hennar sviði, því að um það, sem ekki er fyrirbrigði, getur skynsemin ekki sagt neitt, hvorki staðhæft né neitað. Kant er hér aðeins að kanna takmörk skynseminnar og ef til vill um leið heimspekinnar.

Takmark Kants var í upphafi að andmæla heimspeki David Humes með því að sýna fram á, að maðurinn ætti sér meðfæddan skilning, og á hinn bóginn að deila á hina gömlu (dogmatisku) heimspeki, sem hélt, að hægt væri að þekkja veröldina eins og hún er. Kant líkir hinum síðarnefndu heimspekingum við ungling, sem leggur af stað út að hinni yztu sjónarrönd, þangað sem himinninn mætir jörðinni, í þeim tilgangi að þreifa á himninum. En þótt heimspekin geti aldrei náð í regnbogafótinn eða þreifað á himninum, þá hafnar Kant henni þó ekki. Hún á sér sín sérstöku viðfangsefni. Þau eru þessi að áliti Kants: 1) rannsókn þekkingarinnar, 2) að uppgötva og skilja lögmál náttúrunnar. 3) að afla sannrar þekkingar um eðli viljans, sem siðræn heimspeki byggist á, 4) Kant telur einnig, að heimspeki megi fjalla um þær kenningar um veröldina, sálina og guð, sem eru á vissan hátt sennilegar.

Þetta eru takmörk heimspekinnar, — og þetta er eyja þekkingarinnar í útsæ hins óþekkjanlega. — Og þó er allt landslag og gróður á þessari eyju aðeins til í manninum sjálfum.

Rannsókn hinnar virku skynsemi (Kritik der praktischen Vernunft) kom út 1788, sjö árum eftir *Rannsókn hinnar hreinu skynsemi*. Hún fjallar um viljann. Eftir lestur hinnar fyrri bókar gæti mörgum virzt sem Kant hefði fengið efasemdamönnum hin öflugustu vopn í hendur. Þar er sagt, að skynsemin geti aldrei þekkt veröldina eins og hún er, ekki heldur sannað þau þrjú höfuðatriði, sem skipta menn öllu máli: frelsi viljans, ódauðleika sálarinnar og tilveru guðs. Þrátt fyrir þessa niðurstöðu í Kritik der reinen Vernunft er það alvarlegur misskilningur að álíta, að sjónarmið efasemdamannsins eða efnishyggjan sé lokaniðurstaðan í heimspeki Kants. Segir Kant nokkurs staðar, að þetta þrennt geti ekki verið til? Í Kritik der reinen Vernunft hefur hann aðeins sýnt fram á takmarkanir skynseminnar og vanmátt hennar til að fjalla um þessi efni. Kant hefur vísað skynseminni til sætis í höll vitundarinnar, — leitt hana til sætis sem drottningu — í hið óæðra öndvegi. Í hið æðra öndvegi vísar hann konungi þessa húss, *viljanum*. Það er viljinn, en ekki skynsemin, sem ræður ríkjum í manninum. Skynsemin getur ekki sannað, að til sé frjáls vilji, ódauðleg sál mannsins eða guð. — Án þessa getur þá ekki verið um neina siðgæðisvitund að ræða. Hinn góði

vilji er kjarni siðgæðisvitundarinnar. Lög hennar eru algild og sjálfsögð, vegna þess að þau eru manninumásköpuð. Það, að maðurinn þarf ekki að hlýða hinum góða vilja, sýnir, að viljinn er frjáls. Mönnum ber að hlýða hinum góða vilja aðeins vegna þess, að hann fær mann til að gera það, sem gott er og rétt, það, sem er skylda mannsins. Þessa skyldu verður að setja ofar eigingjörnum hvötum, — og það virðist því stundum sem menn verði að fórna hamingju sinni vegna þeirrar skyldu að fylgja hinu góða og rétta. En þeir, sem fórna hamingju sinni fyrir skylduna, eignast með því dýrmæt verðmæti, — „en til þess veit eilífðin alein rök." — Það þarf lengri tíma en mannsævina til að safna uppskerunni. Þess vegna, segir Kant, er til framhaldslíf og ódauðleg sál. En aðeins vakandi alheimsleg vitund, guð, getur stjórnað slíkum hlutum. Þetta getur skynsemin aldrei sannað, eins og Kant sýnir fram á í Kritik der reinen Vernunft. Hér, í Rannsókn hinnar virku skynsemi, bætir Kant við, að þó að skynsemin geti ekki sannað þessa hluti, þá sanni viljinn þá, því viljinn er kjarni hins siðræna lögmáls, og þetta lögmál sannar, að guð er til, einnig frjáls vilji og ódauðleg sál mannsins. Þess vegna stendur viljinn í nánum tengslum við trúna, og það er hann, en ekki skynsemin, sem skipar hið æðsta öndvegi í manninum. Skynsemin nær ekki til hins yfirskilvitlega, en viljinn er leiðarstjarna mannsins inn í heim leyndardómsins. Hann leiðir menn inn í ný lönd, sem geta verið jafnraunveruleg,

hvort sem skynsemin getur sannað tilveru þeirra eða ekki.

Hin virka skynsemi mannsins í líki hins góða vilja er raunar rödd af himnum ofan, rödd guðdómsins. Hún er aðall mannsins og kjarni trúarinnar. Að fylgja þessari rödd er æðsta skylda mannsins, sem leiðir hann fram á við og upp á við. Síðasta orð Kants í þessu riti sínu er að minna kristindóminn á þessa skyldu sína, því að ef der gute Wille er ekki kjarni hans, kjarni, sem kemur fram í réttri breytni manna, er kristindómur aðeins nafnið tómt.

Rannsókn dómgreindarinnar, sem kom út 1790, er þriðja höfuðrit Kants. Það fjallar um tilfinningarnar — og alveg sérstaklega um þann eiginleika mannsins að leita að tilgangi lífsins, síns eigin lífs og alls annars.

Í heimi tilfinninganna leitum við fegurðar og samræmis. En hvað er fegurð? Við sjáum fegurðina í veröldinni umhverfis okkur, en þessa veröld, segir Kant, er ekki hægt að þekkja eins og hún er. — Hvaðan kemur þá fegurðin? Vegna fegurðarskynsins, sem er í sál hvers manns, finnum við fegurðina. Án þessa fegurðarskyns er engin fegurð til. Líkt og tími og rúm eru, að áliti Kants, áskapaðir eiginleikar skynjunar okkar og eins og „kategóríurnar“ tólf eru áskapaðar skilningi okkar, eins er fegurðarskyn mannsins áskapaður eiginleiki. Og vegna þess, að hann er áskapaður, er fegurðin algild og sönn. Alveg eins og skynsemi og

skilningur eru grundvöllur hins sanna og viljinn hins góða, eins er fegurðarskyn mannsins grundvöllur fegurðarinnar.

Fegurðarskyn mannsins sættir vit og vilja: Skynsemin leitar hins sanna, þess, sem er, og telur sig finna það í óhagganlegum lögmálum náttúrunnar. Viljinn leitar hins góða, þess, sem ætti að vera, og telur sig finna það í frelsinu. Skynsemin mælir mikilleik himnanna með kaldri ró. Hugarflug viljans sundlar og verður órótt yfir reginvíddum tilverunnar, sem standa andspænis smæð mannsins. En fegurð himins róar sálina og færir henni frið. Fegurðin liggur milli hins góða og hins sanna. Hún þrengir víddir skynseminnar og eykur víddir hugarflugsins, svo að þetta tvennt verður ekki í ósamræmi lengur. Þess vegna fylgir samræmi allri fegurð. Og í samræmi fegurðarinnar leitar maðurinn ósjálfrátt hinnar æðstu einingar, — og trúnni er boðið heim.

Síðari hluti bókarinnar fjallar um tilgangskenndina, sem er náskyld fegurðarskyni mannsins og manninum meðfædd. Þessi tilgangskennd er tvenns konar. Hin fyrri er raunar sama og fegurðarskynið eða hinn hugræni grundvöllur fegurðarinnar. Sú tilgangskennd vekur gleði og innra samræmi vegna einhvers fagurs, sem við skynjum. Hún vaknar, um leið og við sjáum t. d. fagurt blóm eða hvítt brimlöður. Hún byggist ekki á sérstökum skilningi eða niðurstöðu, heldur á beinni skynjun. Hin síðari tilgangskennd er skilningsgleði

okkar yfir að uppgötva hið hagkvæma eða notagildi hlutanna, uppgötva t. d., að blómið má nota sem læknislyf við vissri meinsemd, að brimið megi nota til að framleiða rafmagn o.s.frv. Kant hefur áður haldið því fram í Kritik der reinen Vernunft, að skynsemin geti ekki fundið neinn tilgang í lögmálum náttúrunnar, aðeins óendanlega margar orsakir og afleiðingar. Skynsemin getur aldrei þekkt das Ding an sich. Tími og rúm eru aðeins eiginleikar skynjunarinnar. Tilgangskennd mannsins getur ekki heldur þekkt innsta eðli hlutanna. Hins vegar er þessi tilgangskennd manninum ásköpuð, og hún er jafnraunveruleg og viljinn. Við komumst ekki hjá að álíta, að líffærin, t. d. augað og eyrað, séu gerð í ákveðnum tilgangi. Og við höfum enga ástæðu til að ætla, að þetta sé dulvitaður tilgangur blindra afla, því að hinn eini tilgangur, sem við þekkjum, er hinn meðvitaði tilgangur mannsins. Og hér fáum við aftur hugboð um það, sem Kant segir, að maðurinn geti aldrei þekkt með viti eða vilja, fegurðarskyni eða tilgangskennd. Við höfum nálgazt hina æðstu einingu, sem leiðir allt og þekkir hinn mikla tilgang alls.

En svið hugboðs og tilfinninga eru ekki svið skynseminnar. Þess vegna er heimspekin hér komin út á hálan ís. Hún, eins og skynsemin, er hér komin út fyrir takmörk sín. Kant hefur sannað, að hún getur ekki þekkt das Ding an sich og guðdóminn. Og hér, þegar dýpstu tilfinningar mannsins fá hugboð um lönd

leyndardómsins og þykjast sjá skugga guðdómsins í fegurðinni, er kominn tími til fyrir heimspekina að draga sig í hlé.

Kopernikus bylti hugmyndum manna um veröldina með því að gera sólina miðdepil hennar. Kant bylti heimspekinni með því að gera hugann að miðdepli veraldarinnar, sem allar reikistjörnur fyrirbrigðanna snúast um. Öll heimspeki eftir hans dag ber merki hans að meira eða minna leyti. Heimspekingar hafa að vísu snúizt með honum og móti, en telja sig þó allir eiga nokkurt erindi í smiðju Kants, — þó að þeir slái þar málminn hver með sínu lagi. Og einmitt það er tilgangur hins mikla fræðara: að kenna mönnum ekki heimspeki, heldur að hugsa heimspekilega.



*Georg Wilhelm Friedrich Hegel*

# Georg Hegel

Mánudaginn 13. október 1806 stýrði Napóleon herjum sínum að borgarmúrum Jena, lítillar, þýzkrar borgar. Herir Prússa höfðu skipað sér þar til varnar. Fall eða sigur Þýzkalands var undir þessari orrustu komið. Fallbyssur Napóleons spúðu eldi og blýi, franskir hermenn, ölvaðir af nýjum hugsjónum og sigurvímu, ruddust inn í borgina. Eldar loguðu þar víða. Jena var þá háborg heimspekinnar í álfunni. Skammt þaðan stóð borgin Weimar, háborg skáldskaparins með Goethe og Schiller í öndvegi. Lengra burtu, en náskyld, stóð Vínarborg, háborg söngsins, þar sem sjálfur Beethoven réð ríkjum. — En hvar stóðu þessir forystumenn þýzkrar menningar í þessari úrslitaorrustu mill Þýzkalands og Napóleons? Þeir börðust ekki. Beethoven hafði ort til Napóleons eitt af meistaraverkum sínum, Hetjuhljómkviðuna. Goethe orti honum lof og fagnaði honum sem komu hinnar fyrstu miklu dögunar frelsis-

ins. Og hvað aðhöfðust heimspekingarnir hér í Jena í þessari háborg sinni, meðan fallbyssur keisarans höfðu yfir trúarjátningar sínar? Næstum umkringdur logum hleypur ungur og upprennandi heimspekingur út úr húsi sínu með handrit undir hendi, síðasta blaðið varla þurrt, og leitar hælis í auðu húsi á afskekktum stað. Handritið er um heimsandann, hvernig hann vígir jörðina eldi og blóði, unz hann sjálfur getur birzt í fullkomnun sinni. Heimspekingurinn horfir á eldinn með vissri velþóknun. Sannar þetta ekki það, sem hann hafði verið að skrifa um í bók sinni? Er fylling tímans ekki komin? Er það ekki einmitt sjálfur heimsandinn, sem loks hefur birzt hér í þessari blóðskírn og eldskírn á borg heimspekinnar? Þegar heimspekingurinn síðar sér úr griðastað sínum sjálfan keisarann Napóleon ríða hvítum fáki sínum um borgina, sannfærist hann enn betur um, að svo sé. Víst er Napóleon sjálf birting heimsandans, já, sjálfur „heimsandinn á hestbaki"! Hið eina, sem veldur þessum heimspekingi áhyggjum, er handrit hans, því að það eitt getur gefið heiminum hinn rétta, sögulega skilning á þessum Napóleon, hinum heimspekilega Napóleon. — En hér er engu líkara en að þessir logar og þetta stríð gleypi bæði hann og handritið, engu líkara en að Napóleon, stríðsmaður veruleikans, höggvi í hita orrustunnar hinn heimspekilega Napóleon banasári. En borgin fellur, eldarnir slokkna, og bæði þetta handrit og heimspek-

ingurinn sjálfur sleppa undan eyðingunni. Nafn þessa manns er Georg Wilhelm Friedrich Hegel.

Hegel fæddist í Stuttgart, höfuðborg Würtembergs, 27. ágúst 1770. Faðir hans var skattstjóri og sinnti lítt uppeldi sonarins. Móðir hans, sem var gáfuð kona, kenndi honum aftur á móti allt, sem hún gat, þar á meðal latínu. Sjö ára að aldri fór sveinninn í skóla og brautskráðist frá menntaskólanum í Stuttgart á nítjánda ári. Enginn þótti hann námsmaður, en hann las mikið utan námsgreinanna og hafði þann sið að skrifa hjá sér í sérstaka bók klausur upp úr blöðum og bókum, er honum þóttu þess virði, og raðaði þeim síðan upp í stafrófsröð. Á þennan hátt komst hann yfir meiri þekkingu en einkunnabókin benti til. Hann sökkti sér niður í rit Sófóklesar og annarra grískra höfunda og varð síðar með fróðustu mönnum um hellenska menningu.

Að loknu stúdentsprófi innritaðist Hegel í guðfræði við Tübingenháskóla. Til eru sagnir um, að forfaðir hans einn hafi á sinni tíð flúið land kaþólskra vegna trúarofsókna og setzt niður meðal trúbræðra sinna, mótmælenda. Eitthvað af þessum trúaráhuga hlýtur Hegel að hafa hlotið að erfðum, því að flest mælti gegn þessu vali. Hegel stamaði og átti erfitt með að flytja ræður. Auk þess varð guðfræðin að þoka fyrir áhuga hans á grískum bókmenntum og — heimspeki Immanuel Kants. Á þessum árum var Hegel enginn sérstakur bókaormur. Hann tók sinn þátt í glaðværð

stúdentalífsins, stundaði bjórdrykkju eins og títt var um unga stúdenta, tók þátt í útreiðum og stundaði skylmingar, — orti jafnvel ástarljóð um prófessorsdóttur eina, ungfrú Hegelmeier, sem þó fékkst ekki til að stytta nafn sitt. Þó leitaði Hegel sér einkum félagsskapar alvarlega þenkjandi unglinga eins og Schellings og Hölderlins, sem báðir urðu síðar heimskunnir menn. Hugsunarháttur þessara unglinga mótaðist mjög af hljómfalli frönsku byltingarinnar: Frelsi, jafnrétti og bræðralag. Sem tákn þessara hugsjóna gróðursettu Hegel og Schelling tré frelsisins í þýzka mold. Andi þessara hugsjóna lyfti þeim yfir bönd umhverfis síns og þjóðernis, og þeir tömdu sér viðhorf heimsborgarans, sem lítur yfir heiminn, skilur, hvað er að gerast, vill eiga hlutdeild í framþróuninni og tilheyra vaxtarbroddi mannkynsins. Þess vegna átti Frakkland hug þeirra um þessar mundir.

Þrátt fyrir öll hin mörgu og ólíku áhugamál stúdentsáranna lauk Hegel loks lélegu prófi í guðfræði. Sá vitnisburður, sem hann fékk, var þó svo lélegur, að vonlaust var um, að hann kæmist að nokkru kalli. Sérstaklega er í vitnisburði þessum tekið skýrt fram, að þau fræði, sem Georg Hegel hafi minnsta hæfileika til að fást við, væri — heimspeki.

Sem fátækur menntamaður varð Hegel að feta í fótspor Kants og gerast heimiliskennari. Árið 1793 réðst hann sem slíkur til auðugrar fjölskyldu í Svisslandi (Bern). Hann varð þó brátt leiður á því lífi, sem ein-

angraði hann frá vinum sínum og fyrri félögum. Tímann notaði hann þó vel til að kynna sér sem bezt frumtexta kristindómsins og tók að semja bók um ævi Krists. Í þeirri bók lítur hann á kristindóminn með augum heimspekingsins og reynir að sneiða hjá öllum frásögnum um kraftaverk og öðru, sem erfitt var að skýra. Kristur, í hans augum, var beztur góðra manna, ekkert meir. Síðar á ævinni komst Hegel að þeirri niðurstöðu, að Kristur væri meira en beztur góðra manna, hann væri birting hins guðlega, sjálfur Logos. — Um svipað leyti féll „heimsandinn" Napóleon af baki og varð eftir við veginn.

Vinur hans, Hölderlin, leysti Hegel úr útlegðinni með því að ráða hann heimiliskennara í Frankfurt hjá kaupmanni einum, Gogol að nafni. Hvattur af vinum sínum tók Hegel að leggja grunn að heimspeki, sem síðar átti eftir að gera hann einn mesta anda 19. aldar. Eftir þriggja ára dvöl í Frankfurt tæmdist honum arfur eftir föður sinn. Ritaði hann þá vini sínum, Schilling, bréf og tjáði honum, að nú hefði hann ákveðið að helga sig allan heimspekinni. Skömmu síðar hélt Hegel til Jena. Það var eins og dularfull öfl leiddu menn aldarinnar til þessarar borgar. Þar sveif andi Fichtes enn yfir vötnunum. Schelling skipaði þó öndvegið. Og návist skáldanna Goethes og Schillers brá mildari, næstum rómantískum blæ yfir heimspekina, sem léði skáldunum í staðinn dýpt og þunga.

Hegel gerðist fyrst í stað nemandi vinar síns, Schell-

ings, og hófu þeir félagar útgáfu nýs tímarits um heimspeki. Þó voru Hegel og Schelling manna ólíkastir. Schelling var 5 árum yngri, en var svo bráðþroska, að hann hafði þegar getið sér alþjóðlega frægð. Hann hafði sett fram sitt eigið heimspekikerfi og hafði þá þegar lokið framlagi sínu til heimspekinnar. Hegel aftur á móti var mjög seinþroska. Hann var orðinn miðaldra maður, áður en hin fyrsta, frumlega ritsmíð hans sá dagsins ljós.

Í Jena hóf Hegel kennslu í heimspeki við háskólann, og markar það tímamót í ævi hans. Það komu að vísu örfáir til að hlýða á fyrirlestra hans, en Hegel hafði stigið á lægsta þrep hins akademíska frama, og þó að sá frami yrði ekki skjótur, þá jók Hegel þekkingu sína jafnt og þétt og þróaði hægt, en örugglega nýja, sjálfstæða heimspeki, sem leitaði á hann og krafðist túlkunar, en var enn ekki mótuð til fulls. Fyrirlestra sína flutti hann af innri þunga og ákafa manns, sem liggur mikið á hjarta, en hikar og stamar vegna þess erfiðleika að finna orð yfir það, sem orð ná ekki yfir: „hið absólúta".

Fichte og Schelling yfirgáfu báðir Jena fljótlega, og Hegel tók sess þeirra. Árið 1805 var hann hækkaður í tign og gerður prófessor, en varð af stjórnmálalegum ástæðum að láta af því starfi ári síðar: Prússar höfðu sagt Napóleon stríð á hendur, en voru sigraðir í tveimur orrustum, við Jena og Auerstadt. Hegel, eins og fyrr segir, óskaði Napóleon sigurs, hann ósk-

aði hinum ungu hugsjónum: frelsi, jafnrétti og bræðralagi, sigurs yfir íhaldssemi, harðstjórn og spillingu Prússlands. Eftir sigurinn við Jena hélt Napóleon innreið sína í Berlínarborg og undirbjó meiri landvinninga. Tóku þá margir, sem áður höfðu litið á Napóleon sem boðbera nýs og betri tíma, að líta á hann sem ímynd nýrrar yfirdrottnunar. Og Hegel, sem farið hafði hörðum orðum um Prússland og kallað Napóleon „heimsanda á hestbaki", fann, að það andaði til hans köldu úr ýmsum áttum. Hann varð að láta af störfum sínum við háskólann og gaf sig í þess stað allan að þeirri bók, sem hann hafði lengi unnið að og sett fram í heimspeki sína um þróun andans, sem endar í „hinu absólúta". Bók þessi kom út 1807 og nefndist Phänomenologie des Geistes".

Með þeirri bók hefur Hegel vaxið frá því að vera lærisveinn þeirra Kants og Schellings til þess að verða frumlegur heimspekingur og þung undiralda í þeim straumrofum, sem leiða heiminn frá byltingu og umróti 18. aldar til þróunar hinnar 19.

Þessi bók — eins og Kritik der reinen Vernunft — lýsir kynnisför um veröld andans, þar sem saga og menning þjóða er rannsökuð, veikleiki þeirra og styrkleiki. Eins og rauður þráður gegnum allt þetta gengur þróun mannsins og þjóðanna til hins „algera" (absólúta). Hið algera er ekki „nótt, þar sem allar kýr eru svartar", en þannig lýsir Hegel hugmynd æskuvinar síns Schellings. Hið algera er virkt,

en ekki ládeyða, og það þróast, — það er meira að segja sjálf þróunin og hið síkvika haf tilverunnar.

En Hegel tókst ekki að lifa á því einu að ígrunda hið algera. Hann yfirgaf Jena og réðst til Bambergs sem ritstjóri Bamberger Zeitung. Þar fann Hegel ef til vill, að það var ekki andi frelsisins, heldur skuggi einræðisherrans, sem Napóleon hafði dregið yfir Suður-Þýzkaland. Ritstjóri Bamberger Zeitung fékk þar ekki að skrifa ritstjórnargreinar frjáls manns. Skoðanafrelsið var glatað, og þessi mikli andi varð að láta sér nægja að hagræða blaðaklausum, sem valdhafarnir fengu honum í hendur. Hegel var þó ekki maður, sem skiptir fljótlega um skoðun, og aðdáun hans á Napóleon hvarf ekki fyrr en síðar. Samt tók hann fegins hendi tilboði, sem hann fékk ári síðar, um að gerast rektor Ægidien-menntaskólans í Nürnberg. Þau átta ár, sem hann starfaði við skólann, hvarf hann aftur til hugleiðinga sinna um hið algera. Hann ritaði á þessum árum meðal annars Logik sína, sem er vafalaust mesta verk hans. Fyrirlestrar hans voru nú orðnir ákveðnir og fluttir með rólegum, öruggum rómi.

Í stað fárra manna, sem áður sóttu fyrirlestra hans, þyrptust nú til hans stórir hópar vakandi áheyrenda, sem töluðu um, að fram væri kominn nýr Immanuel Kant. Hafði honum tekizt að finna orð yfir það, sem ekki verður sagt með orðum? Hafði hann ráðið gátu hins „absólúta“? — Og mitt í þessum sigrum varð fátíður atburður í sögu heimspekinnar. Hegel kvæntist!

Nær enginn hinna meiri heimspekinga 17. og 18. aldar, Descartes, Spinoza, Leibnitz, Hume og Kant, hafði þorað að hætta heimspeki sinni í slíkt návígi við veruleikann! En Hegel, heimspekingur hins „absólúta“, sem kenndi, að lífið byggðist upp af andstæðum og þróaðist fyrir fangbrögð þessara andstæðna, varð einnig að lifa kenningu sína á þessu sviði.

Eftir að Logik Hegels kom út, fékk hann tilboð um prófessorsembætti í heimspeki frá þremur háskólum, Heidelberg, Erlangen og Berlín. Þegar hér var komið sögu, var Napóleon fangi á St. Helenu, og Hegel skildi, að Þýzkaland var að taka forystuna í álfunni, og Berlín var kjarni þess. Samt fór Hegel til háskólans í Heidelberg til bráðabirgða. Tveimur árum síðar, 1818, var hann reiðubúinn til að halda til Berlínar, þessa nýja miðdepils í viðburðum sögunnar, og setjast þar að borði sinna fyrri fjandmanna, Prússanna, og skipa þar hásæti heimspekinnar á 19. öld. Hegel, heimspekingur framþróunarinnar og hins algera, fylgdi þróuninni og varð hluti kjarnans, sem hún spratt af. Þess vegna varð Hegel, prófessorinn við Berlínarháskóla, prússneskastur allra Prússa. Hann var vel kvæntur, átti mannvænlega syni, var frægur og auðugur og valdamikill. Honum var hampað jafnt af ríki og kirkju. Í Berlín skrifaði Hegel handbók um „heimspeki réttarins“ tvö fyrstu ár sín þar. Eftir það hætti hann að rita bækur. Hann varð íhaldssamur, taldi sig hafa sagt allt í bókum sínum og þoldi ekki,

að haggað væri við neinum af þeim niðurstöðum, sem hann hafði komizt að: „Þekkingin," sagði hann, „hefur þróazt upp á þetta stig." — Og lengra, áleit hann, að ekki yrði komizt í bráð. Að andmæla Hegel var að kalla yfir sig reiði hins „absólúta" í gervi hins prússneska prófessors. Eitt sinn, er Hegel var sagt, að viss kenning hans stangaðist á við vissar staðreyndir, svaraði hann aðeins: „Það er verst fyrir staðreyndirnar." Veruleikinn veit betur en heimspekingurinn, nema heimspekingurinn þekki veruleikann: Hegel taldi sig þekkja hinn sanna veruleika, hinn algera veruleika, vegna þess að hann væri sjálfur síðasti spámaður hins „absólúta". Blekktur af misskildum og ímynduðum mikilleika glataði hann umburðarlyndi heimspekingsins og þoldi ekki andmæli neins. Hann glataði æskuhugsjón sinni, hugsjón frönsku byltingarinnar, og gerðist eins konar prússneskur einræðiskonungur í ríki heimspekinnar, harður og ósveigjanlegur. En um leið missti hann vaxtarmátt sinn, því að umburðarlyndið og mýktin eru einkenni og styrkur þess, sem lifir og vex. Hegel var ekki lengur maður framþróunarinnar og hins algera, þó að hann héldi sig vera birtingu þess. Hann lézt úr kóleru 14. marz 1831.

En hverfum frá hinum prússneska prófessor til þess Hegels sem í umróti mikilla viðburða og stórra drauma skrifaði sum af öndvegisritum 19. aldar.

# Heimspeki Hegels

IMMANUEL KANT hafði komizt að þeirri niðurstöðu, að skynsemin gæti aldrei þekkt das Ding an sich, — hina ytri veröld eins og hún er í sjálfu sér. Þegar menn því reyna að finna lausn á því, sem er fyrir utan svið skynseminnar, — hinu sanna eðli veraldarinnar, sálinni og guðdóminum, þá komast þeir í endalausar mótsagnir. Þessar mótsagnir, segir Kant, sýna getuleysi mannsins til að ráða þessar gátur. Þær sýna, að mannsandinn hefur farið út fyrir takmörk sín. Das Ding an sich, sem Kant telur, að liggi utan þessara takmarka, kallar Hegel hið algera (hið „absólúta"). Hegel telur hið algera ekki aðeins þekkjanlegt, — heldur sé ekki hægt að komast hjá að þekkja það, þar sem eiginleikar hugans séu eiginleikar alheimsins og því ekki nein ástæða til að tala um hið ytra og hið innra sem óskylda heima. Das Ding an sich og das Ding an mich er raunar eitt og hið sama, séð af hinum hæsta sjónarhóli. Gáturnar um hið sanna eðli veraldarinnar, sálina og guðdóminn, sem Kant taldi óleysandi skynseminni, verða höfuðviðfangsefni þýzkra heimspekinga, sem sigla í kjölfar hans og byggja á grunni hans.

Johann Gottlieb Fichte (1762—1814), faðir þýzkrar hughyggju, áleit, að das Ding an sich væri ekkert

annað en sjálf mannsins, sem óafvitandi skapaði hinn ytri heim fyrirbrigðanna. Das Ding an sich væri hið innra með manninum, en ekki utan hans. — Villa Fichtes, segir Hegel, er fólgin í því, að hann gerir sjálf mannsins, sem er aðeins brot hins algera, hið algera sjálft.

Wilhelm Josep Schelling (1775—1854) segir, að das Ding an sich sé hvorki sjálfið (þekkjandinn, sem kannar veröldina) né ekki-sjálfið (veröldin, sem könnuð er). Das Ding an sich, leyndardómur veraldarinnar, er viljinn, sem er sameiginleg rót þekkjandans og hins þekkta og stendur að baki beggja. Og fyrst das Ding an sich stendur að baki beggja, er það yfirskilvitlegt, óræður leyndardómur, þar sem allt rennur saman í eitt. — Hið algera, segir Hegel, er ekki yfirskilvitlegt. Það er ekki „nótt, þar sem allar kýr eru svartar“. Hið algera er ekkiládeyða. Það er líf og hreyfing. — Og það er ekki nótt dauðans. Það er andi, vitsmunir, sem stjórna tilverunni, gefa öllu tilgang og leiða allt til fullkomnunar. Náttúran er ekki blind. Það er vit í byggingu og gangi stjarnkerfanna. Það er vit í gerð og starfsemi líffæranna. Það er vit í byggingu og samræmi náttúruríkjanna. Vitsmunir stjórna öllum hlutum, — og einmitt þessir vitsmunir eru hið algera („absólúta“). Þeir eru jafnt í hinum ytra og hinum innra heimi. Eiginleikar hugans, sem Kant segir, að skapi veröldina í sinni mynd, eru hjá Hegel um leið eiginleikar alverunnar, — og ein-

mitt þess vegna getum við þekkt das Ding an sich (hið algera) eftir leiðum rökfræðinnar.

Þessar leiðir Hegels til hinna hæstu sanninda, hins „absólúta", eru þrjár. Förin er hafin á ólíkum stöðum, en þær leiða allar að sama marki. Fyrsta leiðin liggur frá hinu myrkasta, einfaldasta og víðtækasta hugtaki rökfræðinnar, *„verunni"*, til hins fullkomna algera anda, heimsandans. Önnur leiðin liggur frá heimi fyrirbrigðanna og hinu frumstæða, eigingjarna og hvatvísa „ég" mannsins. Það vígist í eldi baráttunnar, unz það ber kennsl á sig sem birtingu hins algera.

Þriðja leiðin liggur frá upphafi sögunnar til hins unga Prússaveldis. Öll þessi saga er barátta andstæðra afla, og þessi barátta er fæðingarhríð hins algera, sem leitast við að birtast í veröldinni, þjóðfélaginu og mannlífinu.

En með hvaða aðferð ætlar Hegel að rekja sig áfram eftir þessum leiðum til veruleikans, hins algera veruleika? Það er hlutverk heimspekinnar að þekkja veruleikann. En hvað er veruleiki í heimi hverfulleikans? Grös jarðarinnar blómgast og fölna. Menn fæðast og deyja, eru ungir og síðan gamlir. Hamingjan kemur og fer. Það, sem var veruleiki í gær, er ekki til í dag, og sumt, sem er í dag, verður ekki á morgun. Þannig birtist okkur allur veruleiki sem andstæður, líf og dauði, vöxtur og hnignun, æska og elli. Sá, sem lítur aðeins á æskuár mannsins, skilur ekki allt

mannlífið, – ekki heldur hinn, sem lítur aðeins á ellina. Þannig er um allt. Ekkert stig í framvindu nokkurs hlutar er allur sannleikurinn um eðli hans. Til að þekkja tilgang og samhengi hlutanna og sjá allan sannleikann verður að raða andstæðum þeirra saman og gera úr þeim samræmda mynd. En hvernig eigum við að raða brotunum saman í þessa mynd? Með aðferð náttúrunnar sjálfrar, með aðferð heimsandans! – Hugsun hefst á hinum einföldustu og ófullkomnustu hugtökum, sem síðar leiða til flóknari hugtaka og fullkomnari hugsunar. Í þessari þróun eru alltaf þrjú stig. Hið fyrsta (thesis) er einfalt, almennt hugtak. Þetta hugtak á sér andstæðu (antithesis). Í baráttu þessara andstæðna myndast þriðja hugtakið (synthesis), sem sameinar andstæðurnar og lyftir þeim um leið upp í hærra veldi. En þessi niðurstaða verður aftur nýtt upphaf, sem á sér nýja andstæðu, og þannig heldur þróunin áfram.

Þetta er hið „díalektíska" göngulag Hegels á vegunum þremur til hins „absólúta". Þessi aðferð var ekki ný. Sókrates, Kant, Fichte og Schelling höfðu allir notað hana áður. En Hegel notar hana við alla sína heimspeki.

Þegar Hegel því á hinni fyrstu leið sinni rekur sig til hins algera, þarf hann samkvæmt þessari aðferð aðeins að byrja á rökfræðilega réttum stað (thesis) og rekja sig þaðan eftir braut hinna stríðandi andstæðna, sem síðar sameinast í æðra veldi. Með því að fylgja

þessu lögmáli telur Hegel sig standa föstum fótum á bjargi veruleikans, því að einmitt þetta er aðferð sjálfrar framvindunnar.

Hegel leitar þessa upphafsstaðar, hins fyrsta hugtaks, til að rekja sig frá og finnur hinn sama stað og elztu heimspekingar Grikkja fundu og hófu heimspeki sína á. Þetta hugtak er veran. Parmenides hélt því fram, að veran væri óhagganleg og hreyfingin væri blekking (thesis). Heraklitos sagði, að öll tilveran væri líf og hreyfing og kyrrstaða ekki til (antithesis). Demokritos sagði, að tilveran stæði að sumu leyti kyrr og væri að sumu leyti á hreyfingu, væri að sumu leyti óumbreytanleg og að sumu leyti sífelldum breytingum háð (synthesis). Allt þetta er rétt, segir Hegel, — og þó er enn ósagt hið síðasta orð. Hið sama má segja um öll sannindi mótsagnanna. Þau eru sönn frá vissu sjónarmiði eða á vissu stigi, en þessi stig verður að sameina til að komast til hins algera sannleika. Það er rétt að byrja á hugtakinu verunni. Aðeins þetta hugtak er fléttað öllum öðrum hugtökum og er rót þeirra allra. Það er einfaldast og víðtækast allra hugtaka, en um leið algerlega tómt, nema það sé þrengt á einhvern hátt með öðrum hugtökum. Það er því hinn rétti grundvöllur heimspekinnar, sem reynir að takmarka hið ótakmarkaða (eða, eins og sumir hafa haldið fram, hið ótakmarkanlega!). Veran án takmarkana er sama og ekki-veran, vegna þess að hugtak, sem hefur enga

merkingu og á sér hvorki lögun né nokkurn eiginleika, er ekki neitt. Þannig felur þetta fyrsta hugtak, veran (thesis), í sér mótsögn sína, ekki-veruna (anti thesis). Vegna þessara mótsagna er líf. Ef þessi mótsögn væri ekki, ríkti eilíf kyrrstaða, eilíf nótt. En veran getur orðið ekki-veran og öfugt. Þess vegna er til líf, hreyfing og framvinda. Mótsögnin leiðir til nýs hugtaks, og þetta nýja hugtak er *breytingin* (synthesis), sköpun og eyðing, vöxtur og hnignun. — Mótsagnirnar hafa sameinazt í nýju veldi, og hið nýja hugtak breyting, felur þær báðar í sér (því að breyting felur í sér það, sem er, en var ekki, og það, sem var, en er ekki). — Um leið og mótsagnirnar sameinast, hverfa þær, og aðeins niðurstaðan (synthesis-inn) stendur eftir. — En jafnvel þessi niðurstaða er engin lokaniðurstaða. Hún hefur í för með sér ný vandamál, skapar nýja mótsögn, og barátta andstæðnanna skapar aftur nýja niðurstöðu.

Þannig er fyrsta skrefið, sem Hegel stígur í áttina til hins „absólúta". Leið hans er löng, en aðferðin er alltaf hin sama og sú, sem lýst er hér að framan. Hegel lítur í fyrstu af himni sínum yfir heiminn og sér, að það hvílir myrkur yfir hugarvötnum alverunnar. En einnig það felur í sér andstæður þess, og framvindan hefst. Tilgangur þessarar framvindu er, að heimsandinn vakni til fullrar sjálfsvitundar og nái algerum tökum á veröldinni og geri hana fullkomna. Öll barátta og umbrot í tilverunni eru svefn-

rof heimsandans, sem leitar hærri gerva í nýjum fæðingum, og þegar hann hefur birzt í fullkomnun sinni, hverfa allar andstæður í hið fullkomna samræmi.

Heimsandinn er Logos, vitsmunir hans „logik". Hinn sanni Logos og hin sanna „logik" eru eitt. (Hegel gerði að sjálfsögðu ekki mun á logik sinni og hinni sönnu logik!). Vitsmunir, hinn lifandi andi, Logos, er kjarni tilverunnar. Og þó er ekki rétt að kalla hann kjarna hennar, því að hann er öll tilveran, bæði kjarni hennar og yfirborð. Hið ytra er hið innra. Andinn er efnið. Guð er alheimurinn, sem í heild sinni samræmir allar andstæður.

En hvað verður um þessa fullkomnu og samræmdu mynd tilverunnar í heimi okkar mannlegu reynslu? Til að svara þeirri spurningu verðum við að leggja upp frá okkar hversdagslega heimi í nýtt ferðalag, sem er önnur leið Hegels til hins „absólúta".

Hegel viðurkennir, að við getum ekki séð hina fullkomnu mynd í brotaþekkingu reynslu okkar og skynjunar. Eins og getið er um áður, var vissum „staðreyndum" reynslunnar teflt fram gegn „logik" hans (sem Hegel skoðaði hina sönnu „logik" hins sanna Logos), og Hegel taldi þá, að „staðreyndirnar" yrðu að beygja sig fyrir „logikinni". Það væri þó alrangt að álíta, að Hegel neitaði staðreyndum skynjunar og reynslu. Sá heimur er honum verulegur og sannur, þar sem hið ytra er hið innra og veröldin er

guð. En í heimi reynslunnar skynjum við ekki hin algildu sannindi, heldur aðeins hin „stríðandi sannindi“, sem Plato kallar hálfsannindi. Hin stríðandi sannindi eru sannindi mótsagnanna (thesis gegn antithesis). Það sýnir, að þau eru ekki fullkomin, en það sýnir um leið, að þau þróast í áttina til hins algera sannleika, vegna þess að hin stríðandi sannindi skapa eftir lögmáli framvindunnar hærri og hærri niðurstöður (synthesisa), unz þau enda í hinu æðsta veldi, sem er Logos. Þar er ekki lengur um neinar mótsagnir eða árekstra að ræða.

Þessi „þríhyrnda“ framvinda er ekki aðeins hugtak í rökfræði, hún er, að áliti Hegels, veruleiki í allri tilveru og birtist einnig í þróun náttúruríkjanna. Óskapnaðurinn: hinn ómótaði leir jarðarinnar: efnið, er til dæmis „thesis“ náttúrunnar. Mótsögn þess (antithesis) er skapnaður þessa efnis, þegar það greinist í sundur og verður að ljósi, vatni, rafmagni o. s. frv. og mótast í ákveðnar myndir. Þessar andstæður sameinast í *lífinu* (synthesis).

Hámark lífsins á jörðinni aftur á móti er sköpun mannsins, birting mannsandans. Og þróunin heldur áfram. Þótt lífið sé hámark náttúrunnar og mannsandinn hámark lífsins, er sagan ekki á enda. Mannsandinn verður aftur hornsteinn (thesis) nýrrar þróunar. Hún byrjar á „ég“ mannsins, sem fær hann til að hugsa aðeins um sjálfan sig. Á því stigi er maðurinn ófær um að lifa í samræmi við umhverfi sitt sem félags-

vera. Hann lætur stjórnast að mestu af hvötum sínum og einkennist af ágirnd og eigingirni. Andstæða „égs-ins“ er samfélagið. Hegel álítur, að einstaklingurinn og samfélagið sé eitt, séð frá sjónarhóli hins „absóluta“. En einstaklingurinn gerir sér það ekki ljóst, fyrr en hann hefur öðlazt sjálfsþekkingu. „Ég-inu“ virðist samfélagið sér fjandsamlegt, þar sem það takmarkar frelsi þess til að fullnægja ýmsum hvötum sínum og tilhneigingum. Þessi barátta einstaklingsins við samfélagið leiðir eins og öll barátta til nýs hámarks (synthesis), sem sameinar einstakling og samfélag.

Þegar einstaklingurinn hefur lært að lifa í samræmi við samfélag sitt, öðlast hann fullt frelsi, og það leiðir hann til hins algera: Heimsvitund er hámark baráttu „égs-ins“ við þjóðfélagið.

Hegel skrifar þetta (Phänomenologie des Geistes), eins og áður er sagt, ekki í einveru fjallsins, heldur í ryki vígvallarins, þar sem herir Napóleons geisast fram til sigurs. Þess vegna verður sjóndeildarhringur hans ef til vill þrengri. Þess vegna sýnist honum hann sjá fullkomnun baráttu einstaklingsins við þjóðfélagið í Napóleon, sem hann í hrifningu sinni kallar „heimsandann á hestbaki“. Ef Hegel hefði staðið í heiðríkju fjallsins, hefði Napóleon sennilega orðið minni í augum hans, — ekki neinn heimsandi, heldur í mesta lagi eitt af peðunum á skákborði hans. Og það takmark, að maðurinn verði sér meðvitandi um, að hann sé birting hins algera, hefði þá ekki birzt

honum sem máttrinn til að drottna. En þó að hámark þessarar þróunar hafi ekki verið þar, sem Hegel um skeið hugðist sjá hana, kastar það engri rýrð á kenninguna. Það sýnir aðeins, að hún á lengra í land, því að enn berst einstaklingur og þjóðfélag, og guðinn hefur enn ekki að fullu birzt.

Þegar Hegel hefur sýnt, hvernig allt í heimi fyrirbrigðanna, náttúran og maðurinn, stefnir til hins algera, snýr hann sér að mannkynssögunni, sem er þriðja leið hans að marki. Hann gerir þar alla veröldina að leiksviði, þar sem einstaklingar, þjóðir og heimsveldi fara með hlutverk og skapa hinn mikla sjónleik sögunnar með réttri stígandi að lokaþætti, þar sem hámarki er náð. En sá, sem sýningunni stjórnar, er heimsandinn. Í lokaþætti birtist hann sjálfur til fulls í hinu þríeina eðli sínu:

Eðli hans er fegurð. Sú fegurð birtist í list, söng og ljóði. Um það fjallar saga listarinnar. Eðli hans er hið góða. Það eðli birtist í líki trúarinnar. Um það fjallar trúarbragðasagan. Eðli hans er hið sanna. Það birtist í líki heimspekinnar. Um það fjallar saga hennar.

Alla þessa sögu rekur Hegel með hinni „díalektísku“ aðferð sinni, sem menn hljóta að dást að, jafnvel þó að þeir séu sannfærðir um, að Hegel reki sig ósjaldan á vegg staðreyndanna — og vaði jafnvel stundum reyk!

Andi framþróunarinnar skapar *ríkið*, því að án

þess gæti heimsandinn aldrei birzt í fullkomnun sinni. En þjóðfélögin eru í fyrstu ófullkomin og ólík hugsjón heimsandans um hið fullkomna þjóðfélag. Þess vegna er sagan barátta, þar sem ný þjóðfélög ryðja hinum eldri úr vegi og falla síðan sjálf. Þannig rís allt af betra og betra þjóðfélag. Það nálgast meir og meir hugsjón fullkomnunarinnar. (Á þessu byggir Karl Marx að verulegu leyti söguskoðun sína. Hann taldi, að þessi söguþróun væri um það bil að ná lokamarki sínu og að Marxisminn væri lokastigið — og að þessari baráttu andstæðra afla yrði með honum útrýmt í þjóðfélaginu að fullu og öllu.)

Hegel bendir á fjögur stig í þróun þjóðfélaganna frá elztu tíð fram á hans dag.

1) Hið fyrsta er hið austurlenzka heimsveldi. Á því stigi er um algera einræðisstjórn að ræða. Konungurinn á landið og ræður yfir lífi og dauða þegnanna, sem stynja ánauðugir undir okinu.

2) Þetta stjórnarfyrirkomulag er leyst af hólmi af hinu gríska heimsveldi. Einvaldskonungum er þar velt af stóli og lýðveldi sett á stofn. Ríkið virðir þar rétt þegnanna sem einstaklinga, og þeir skynja samtakamátt sinn. En múgurinn reynist þó oft ófær um að stjórna vegna úlfúðar og sundrungar innbyrðis, sem verður þessu heimsveldi að falli.

3) Rómverska heimsveldið leggur bönd á sundrungaröflin, sem liðuðu sundur gríska ríkið, og lætur uppreisnarseggina hlýða. Öllum þjóðum er þar

steypt saman í eitt heimsveldi, en milli einstaklings og ríkis næst þó ekki það jafnvægi, sem veitir einstaklingnum frelsi og ríkinu styrkleika.

4) Það jafnvægi næst fyrst í hinu þýzka heimsveldi, sem Hegel, prófessor við Berlínarháskóla, taldi hátind sögunnar. — Ekki svo að skilja, að hann teldi þetta endamark söguþróunarinnar, fjarri því, heldur aðeins hið fullkomnasta, sem sagan þekkti fram á hans dag. Þessi barátta milli ríkjanna leiðir til hins algera, sem er hinir alheimslegu vitsmunir tilverunnar, heimsandinn.

Heimsandinn birtist sem fegurð, góðleiki og sannleiki. Guð fegurðarinnar birtist í listum, söng og ljóðum. —

Ef til vill hefur maðurinn fyrst skynjað þennan guð í stjörnum himinsins á heiðu kvöldi. Tign og mikilleik þessarar sjónar reyndi hann síðan að greypa í svip hins egypzka pýramída, hinnar austurlenzku „pagóðu", hins gríska musteris og hinnar kristnu kirkju. — Hann reyndi að flytja þessa tign og þessa fegurð niður til jarðarinnar með hinni fyrstu list sinni, byggingarlistinni. En þessi mikilleiki musteranna var óhagganlegur og þögull um litbrigði tilverunnar og straumkast mannlífsins. Þess vegna reyndi listamaðurinn að höndla fegurðina á annan hátt. Hann tók að meitla í stein, málm og marmara þessar iðandi myndir mannlífsins. Þannig komst hann til dýpri skilnings á guði fegurðarinnar. Og samt var myndin steinrunnin, — og

hana skorti litbrigðin, sem augað sá. Þess vegna fór listamaðurinn að mála. Sléttur flötur léreftsins túlkaði í höndum listamannsins nýja heima, sem víddirnar þrjár og hið þunga efni höggmyndarinnar náði ekki til. Og þó gat málverkið aðeins höndlað augnablikið, sem kemur og fer. Málaralistin, eins og höggmyndalistin og byggingarlistin, var birting á hinum ytra heimi. Þess vegna leitaði listamaðurinn andstæðu hennar, listarinnar í hinum innra heimi, — og hljómlistin varð til. Í henni fann listamaðurinn guð í sinni eilífu, hugrænu fegurð. — Og þó varð hann enn ekki ánægður. Hljómlistin er hrein andstæða málaralistar, höggmyndalistar og byggingarlistar. Andstæða (antithesis) getur ekki verið fullkomnunin (synthesis) í heimi listanna. Hin fullkomna list verður að samræma til fulls hinn ytri heim lita og forms (thesis) og hinn innri heim söngsins (antithesis). Þess vegna byrjaði listamaðurinn að yrkja. Hámark listanna er skáldskapurinn (synthesis). Í hinum sanna skáldskap birtist öll saga mannsins og eðli náttúrunnar, hinn ytri og hinn innri heimur. Í heimi listanna getur guð fegurðarinnar aðeins birzt til fulls í samræmi þessara andstæðna, hins myndræna og hins hljómræna, hins ytra og hins innra: skáldskapnum.

Eins og guð fegurðarinnar birtist í listunum, eins birtist guð hamingjunnar og góðleikans í trúnni. Hinn skapandi listamaður, sem finnur guðdóminn í list sinni á sínum beztu stundum, öðlast trú á þennan guð-

dóm. Þannig er listin systir trúarinnar. Í skurðgoðadýrkuninni á frumstæðasta stigi trúarinnar mætist trú og list. Á því stigi er byggingarlist, höggmyndalist, málaralist, hljómlist og skáldskapur að langmestu leyti trúarlegs eðlis: — Trúin birtist í listinni. Skurðgoðadýrkun er bönnuð í æðri trúarbrögðum, vegna þess að ekkert í hinum ytra heimi getur verið hin sanna mynd guðs. Samt héldu menn áfram að gera af honum mynd í hugarheimi sínum og skapa hann í sinni mynd. Hegel talar einkum um þrjú stig í sögu trúarinnar. Hið fyrsta, segir hann, er trúarbrögð Austurlanda (thesis). Þar, segir Hegel, er guð allt, maðurinn ekkert. Þetta, segir hann, á við jafnt um Múhameðstrú og trúarbrögð Indverja. Næsta stigið er trúarbrögð Grikkja (antithesis). Þar, segir Hegel, er maðurinn allt, guð ekkert eða mjög lítið annað en maður. Þriðja stigið er kristindómurinn (synthesis). Hann felur í sér báðar þessar andstæður og sameinar þær. Þar sameinast guð og maður. Hinn voldugi Logos birtir mönnunum Krist sem mann, en birtist um leið sjálfur í honum.

Þetta er í augum Hegels „lógik sögunnar“ um „þróun“ trúarinnar. Hvort þessi kenning stenzt nákvæma rannsókn eða ekki, skal lesandanum látið eftir að dæma um.

Eins og guð fegurðarinnar birtist í listum, eins og guð hins góða birtist í trúnni, eins birtist guð sannleikans í hinni sönnu heimspeki.

Hegel þýddi kristindóminn á mál heimspekinnar og

útskýrði þrenninguna sem hin þrjú stig framvindunnar. Þessi stig eru „Hugmyndin“ (Logos), náttúran og andinn. Hin sanna heimspeki flytur hinn sama boðskap og hin sanna trú. Hún birtist aðeins í annarri mynd. Það, sem birtist hjá trúmanninum sem tilfinning, birtist sem hugtak og skilningur hjá heimspekingnum. Hin algera „Hugmynd“ verður hinn algeri hugur, þegar hinu efsta þróunarstigi er náð. Að því marki stefnir öll saga heimspekinnar. Þar er um sömu þróun að ræða og í sögu listanna og trúarinnar. Hvert heimspekikerfi, sem framh efur komið, er þáttur í þessari þróun, sem verður til vegna baráttu andstæðra hugmynda, sem síðar sameinast í æðra veldi. Þannig er haldið áfram þrep af þrepi upp hallartröppur sannleikans, unz hinu efsta þrepi er náð (hinum efsta synthesis). Þar birtist hin algera vitund í heimspekingnum, sem veit, að hann þekkir sjálfan sig. Hegel leit á sitt heimspekikerfi sem efsta þrepið í hallartröppu sannleikans. Hegel, konungur heimspekinnar í höfuðborg upprennandi heimsveldis, féll fyrir þeirri freistingu að líta á sjálfan sig sem „Napóleon“ heimspekinnar, þar sem hið takmarkaða (maðurinn) og hið ótakmarkaða (heimsandinn) sameinast. Hann áleit, að í sér þekkti loks heimsandinn sjálfan sig, og einmitt það er lokatakmark hinnar vitrænu þróunar.

Í hrifningu æskunnar hélt Hegel, að Napóleon væri birting fullkomnunarinnar, sem stendur að baki þróunarinnar og leitast við að skapa allt í sinni mynd. En

Napóleon féll af fáki sínum, og Hegel sjálfur, sem um skeið var einvaldur í heimi heimspekinnar, varð einnig að víkja úr sæti. Og enn hefur guð fullkomnunarinnar ekki birzt til fulls í manninum, þjóðfélaginu og veröld okkar. En þó að Hegel kunni að hafa skjátlazt í mati sínu á Napóleon og sjálfum sér, kann hann þó að hafa eygt mikil sannindi: að allt stefni til fullkomnunar og að guð fullkomnunarinnar *sé* að skapa manninn í sinni mynd. — Vort síðasta orð verður því, að enn sé maðurinn og veröld hans aðeins fóstur undir brjóstum okkar óþekktu móður. Við bíðum við læstar dyr. Gáta hins mikla leyndardóms er óráðin, og enn spá heimspekingar vorir í stjörnurnar!